# Huss-Postilla/

EDUR

# EINFALLDAR PREDIK-ANER

Yfer øll Hatijda og Suñudaga Gudspiøll.

Giørdar

Af

Vel-Edla og Vel-Eruverdugum Saal. Byskupenum
Yfer Skalhollts Stifte/
MAG. JONE THORKELS-SYNE
VIDALIN.

## Aññar Parturenn.

Fraa Trinitatis Suñudeige/ til Adventu.

EDITIO. V.

Prentud a Hoolum i Hialltadal/ Af Marteine Arnodda-Syne/ Anno 1743.

# A Trinitatis Hatijd.

## Gudspialled/ Joh III. Cap.

J Þañ Tijma/ Var þar eirn Madur af Pharisæunum/ Nicodemus ad Nafne/ eirn Høfdinge Gydinga. Hañ kom til JEsu a Nattarþele og sagde til hañs: Rabbi/ Vier vitum ad þu ert eirn Læremeistare komeñ af Gude/ þvi eingeñ gietur giørt þau Teikn sem þu giører/ utañ Gud sie med hønum. JEsus svarade og sagde til hañs: Sañlega/ Sañlega seige eg þier/ þad eingeñ nema hañ/ sæ ed fædest ad nyiu/ fær ad siæ Guds Ryke. Nicodemus sagde til hañs: Hvørneñ mæ Madureñ Endurfædast þa hañ er gamall? Hvørt gietur hañ horfed aptur i sijnar Moodur Kvid/ og fædst so ad nyiu? JEsus svarade: Sañlega/ Sañlega seige eg þier/ nema þad nockur verde Endurfæddur ut af Vatne og Anda/ þa kañ hañ ecke iñ ad ganga i Guds Ryke. Hvad af Hollde er fædt/ þad er Holld/ Eñ hvad af Andanum er fædt/ þad er Ande. Undrast þu ecke/ ad eg sagde þier/ ad ydur byriar ad fædast ad nyiu. Vindureñ blæs hvar er hañ vill/ og þu heyrer hañs Þyt/ eñ eige veitst þu hvadañ hañ kiemur/ eda hvørt hañ fer. So er og sierhvør af Andanum fæddur. Nicodemus svarade og sagde til hañs: Hvørneñ mæ þetta skie? JEsus svarade hønum/ og sagde: Ertu eirn Meistare i Jsrael/ og veitst ecke þetta? Sañlega/ Sañlega seige eg þier/ ad vier seigium þad vier vitum/ og vitnum hvad vier sied høfum/ og vorn Vitnisburd medtaked þier ecke. Hafe eg sagt ydur Jardneska Hlute/ og þier trued ecke/ Hvørneñ munud þier þa trua/ ef eg segda ydur Himneska Hlute? Eingeñ uppstijgur til Himens/ utañ sæ sem ofañ stie af Himne/ Mañsins Sonur/ sæ sem er a Himne. Og so sem Moyses upphoof Høggormeñ a Eydemørkeñe/ Lyka so byriar Mañsins Syne upp ad hefiast/ so ad aller þeir sem a hañ trua/ Fortapest eige/ helldur ad þeir hafe eilyft Lyf.

Exordium.

# Exordium.

MJKil var Blindne Heidinglaña fordum Daga i Guds Dyrkan / Hiner Vysustu af þeim sögdu / ad eitt mikid Ryke kynne ecke lenge ad standa fyrer utan Einvallds-Dæme / þo sköpudu þeir sier Otal Gude til ad stioorna allre Verölldenne / svo sem ein være ecke fær um ad rada fyrer þvi / en þeir þo af Natturuñar Lioose þeckia mattu / ad hañ sialfur skapad hefde / og svo ad þeir a einhvern Hatt feingiu smydad sier Einvallds-Dæme i Heimenum / þa trudu þeir / ad ein være þeirra mestur sa ed ödrum stioornade / ætte þo slykt ad vera epter Mañlegum Plagsid / svo ad hañ þurfte þeirra vid a Stundum / eins og Agamemnon siña Under-Konunga / þoott hañ hiete hia Griekium Konungaña Konungur. Þegar eg athuga þetta / þa kiemur mier i Hug þad sem Paulus skrifar / 1. Cor. 3. Ad Speke Veralldar þessarar sie Heimska hia Gude / og under eins brennur mitt Hiarta i mier af Elskuñe til myns Skapara / ad hañ hefur Openberad oss synum Vesælingum / þad sem hulid var fyrer Spekingum og Vitringum / þar vier trwum a ein Gud Preñañ i Einingu og Einañ i Preñingu / hver ed einkis vid þarf / en aller hañs / og er Sialfgiæfe allra Hluta / bæde a Himne og Jördu / svo sem David seiger i Psalm. 115. Vor Gud er a Himnum / og giörer hvad hönum lykar. Þessarar Hæleitu Guddoomsins Preñingar Veglega Hatyd eigum vier nu i Dag ad hallda / a hvørre oss verdur Predikad þad Evangelium sem innebindur þa hellstu Velgiörninga / er Fader / Sonur og Heilagur Ande hafa veitt oss syndugum Möñum til Myskunar / þad er Endurgietningeñ og Endurlausneñ / af hvørium allt añad hanger / sem hiñ Naduge Gud vill lata oss þioona til Saluhialpar. Vm sialfa Hlutena hefe eg adur i þessare Book ydur talad / Eñ þad er Merkelegt i þessu Gudspialle / ad hier kiemur eiñ Höfdinge Gydinga / eiñ Meistare i Israel til ad læra þessa Himnesku Fræde af hönum / sem til þess var sendur ur Födursins Skaute / ad Openbera hana syndugum Möñum. Þvi villum vier nu hier af athuga eiñ Frooman / eñ þo Favysañ Læresvein / og under eins eiñ Goodañ og svo Alvysañ Meistara / med þeim Lærdoomum er þeirra Samtal med sier færer.

Styrk oss til þessa Verks goode Gud med Nad þyns Anda / fyrer Sonarens Forþienustu / AMEN.

# Vtleggingeñ.

HAR Var EJñ MADur Af PHArisæunum seiger Textiñ. Hvilikañ Vitnisburd DRottiñ giefur þessum Flock med allvyda hia i Gudspiallamañaña Bookū / og þo ecke sijdst hia Matth. 23. Cap. Hvar hañ medal añars kallar þa Eytur-Orma og Nödru-Kyn / þo fañst þesse Gudhrædde Madur medal þeirra / Þad Ord stendur stodugt um Æfe / ad þecker Gud þa sem hañs eru / seiger Postuleñ.

Lær þad af þessa gooda Mañs Dæme / Christeñ Madur / ad ei sam-

lager þu þig vondre Verølldu þþare/ þott þu hlioter i hene ad lifa. Þar var þo eiñ Abraham i Gerar / eiñ Loth i Sodoma / eiñ Nobadia i Achabs Huse / eiñ Simeon / eiñ Zacharias / þesse Nicodemus og Joseph af Arimathia a Christi Døgum / hverier hiner sthoustu tveir ecke samþyckust Gydingū i Lyflaate Drottens/ Luc. 23. Svo vared ydur og / Børn miñ / þier sem lifed i hreckvýsre Olld þessare medal vor/ eñ vilied þo DRottens Ottast ; ad ecke draged þier Ok med hene / svo þier ei medtaked af hennar Plaagum / helldur skijned svo sem Ljos i myrkvum Stad a medal þþarar Prettvýsu Kynslodar / og treystid þvi ad sú Alvolduga Bæn er Frelsareñ beidde fyrer sijnū Læresvein- um / hun nær og til ydar / ef þier Ottest Gud / þar hañ sagde: Joh. 17. Eg bid þig Fader/ecke ad þu taker þa burt ur Heimenū/helldur ad þu vardveiter þa þ hinū vonda. Siooreñ er salltur/eñ Fiskarner sñ þar iñe lifa/þr eru þo ecke sallter. Svo eiga Guds Børn ad vakta sig fyrer Spillingu þeirre sem i Heimenum er af Gyrndene / svo sem Petur ad Orde kiemst/ þoott þau verde ad synda i giegnum þeña fula Dam / a medañ Gud vill reyna þau med þvi ad horfa uppa alla þa Ohæfu / sem þar iñe framen verdur. Þesse Madur var eiñ Høfd- inge Gydinga/oc Eña eiñ af þeim 70. Olldungum þess mikla Raads/ samt var hñ svo miøg giefed uñ Velferd Sælar siñar/ad hañ þoott- est ecke Of-goodur til ad læra af JEsu / hvern hañs Lagsmeñ koll- udu Vijn-Svelg / Vin Tollheimtumaña og Bersyndugra. Hvad giora þeir hier a moot er sig kalla Høfdingia medal vor? Og eru þo Vesælingar ad reikna hia Nicodemo/ Eg voga ad seigia/þeir vita ecke sumer hvad þeir eiga ad trua / Fradeñ hafa þeir lært ad søñu / eñ eg þecke þa sem ecke skilia øllu meir i þeim helldur eñ Gielldingur Drott- ningareñar Candaces i Spaadome Esajæ/eñ hverk þeir eru svo Leide- tamer til ad laata sier Undervýsa svo sem hañ var/ þegar Philippus til hañs kom/ Act. 8. Þad bid eg þa ad Hugleida sem jafnvel hafa sijna Sælusorgara fyrer Heilsusanlegar Kieñingar / og þoott sumer af þeim meige vita ad nockru Leite / hvad þeir eiga ad trua og giøra / þa meiga þeir þo ecke Sañleikañ heyra af Prestsens Muñe Reide-

lausst.

laust: Medañ hñ þeiger yfer Lyhñ Bra og Skømum/þa er hñ Guds Eingell / eñ tale hañ um̃ nockra Ohlutvendne / þa skurlar hañ Jsrael eins og Elias/ 1.Reg. 18. Hañ skytst under Caldæos eins og Jeremias/Jer.37. og verdur allt til Saka funded/Gud betre þsa Tijma/ Taled pad sem oss er þocknanligt søgdu Judar fordum/ su Olld er aptur komeñ/Spædoomur St. Pals er ræktur/ þeir samañhruga sier Lærendum epter þvi sem Eyrun klæia/Meñ læta svo dæll ad Løstum sijnum eins og Mooder ad einasta Syne / jafnvel þookt þeir sieu bæde marger og liooter/ Meñ elska sitt eigeñ Þreck eins og Sieaalldur Auga sijns/ svo eru Meñ vidkvæmer nær hañ snertur er / svo sem væru þad Saar / og ad mestu Leite eru vorer Hofdingiar svo lynder eins og Joachim Konungur/ þa hañs Þienare Judi hafde lesed honum þriu eda fiøgur Blød af Spædoome Jeremiæ / þa skar hañ Bookena i sundur og kastade heñe i Elldeñ/Jer.36. Eg ætla þa einu gillte þott allar Bækur være brendar sem hliooda um̃ Guds Orka / og aller Meñar tilbyrgder sem þar um̃ tala.

Nicodemus kom til JEsum a Nattar-Þele/ æn Efa fyrer Otta saker eins og Joseph af Arimathia/er var heimuglegur Christi Læresveiñ sokñ Hrædslu vid Gydinga / Joh. 19. Veikleike fañst nockur hia þessum goodu Møñum i slijku/ og þo var þad Upphaf til þeirra Hialprædis/Eñ þu sem eingañ þarft ad ottast i þvi ad fylgia Christo epter/ Tak þier Dæme af Nicodemo i þvi/ad vilia læra af hønũ/ og þeim sem hañ hefur i sitt Stad sett/eñ ecke i þvi ad fordast Verølldena ad slijku/ þad er audrꜳded af Samtale Drottens vid hañ/ad hñ hefur ecke vered miøg Froodur i Christendoomenum / þegar hañ fyrst kom/ eñ ecke varde þad leinge/ þar til hañ vogade ad forsvara Christũ berlega i Raadenu/er hñ sagde. Dæmer nockud vort Løgmaal Mañeñ nema hañ sie aadur heyrdur / Joh. 7. og mꜳtte heyra þar fyrer: Ert þu og vordeñ Galilæus? sem var hin mesta Smæn medal Gydinga. Þad mꜳtte sijnast ad ute være med Christ/ þegar hñ var svo sem Illrædes Madur til Dauda dæmdur og a Galgañ uppfestur / hvar hañ liet sitt saklausa lyf / ecke er Lijklegt ad þeir Joseph mune

Hafa vered Froodare uñ Vpprisuna helldur eñ Læresveinarner / samt vogudu þeir ad greftra hañ / og rørdu þar til Femunum sijnum/ Svo er Gud Krøpkugur i goodum Vilia/ þoott veikur sie / eñ þu sem vorden ert Sañfroodur uñ Dyrd Drottens i hañs Vpprisu/og veitst ad hañ situr til Kraptarens hægre Handar/ Breit epter Nicodemo i Psku/og lat þier einkis Mæl svo skylldt vera / ad þu afrækest riett ad giøra/ Lat einga Veralldar Magt svo ofbiooda þier / ad þu i miñsta Mata skierder Dyrd þijns Guds i þvi ad fremia þad epter Mañaña Bode sem hañ bañad hefur. O hversu Fæviiser og Onytter eru aller þeir/ ed kalla sig Ohulka nær þeir giøra allt hvad hiñ Vollduge bijdur þeim/ Heyre þeir hvad Drotteñ seiger fyrer Muñ Zophoniæ/ Cap. 1. Eg skal a þeim Deige straffa alla þa sem støckva yfer þrøskullda / hverier ed uppfylla Hus Drottna siña med Ræne og Svikum. Sama er uñ allt añad ad seigia sem nockur Ofrijkes Madur bijdur a mote Guds Bode/ hvert hñ er hærre eda lægre Stiettar/ pañeg var nu Nicodemo hættad sem ædur er sagt þa hañ kom til Jesum/ eñ hvert Eyrended vered hafe / er audsært af Lausnarans Andsvare / þo ecke stande hañs Spurning utþryckelega i Gudspiallenu / hañ hefur æn Efa viliad frædast af Drottne/ med hveriu mote hñ kyñe Guds Rijke ad erfa/ Eñ DRotteñ sem allt visse hvad med honũ bioo/ hañ svarar honum ecke eins og hinum Rijka Ynges-Mañe / hia Matth. 19. er frietta hñ ad hvad hñ giøra skyllde so hñ mætte eignast eilijft Lijf/ hverium hñ vijsade til Løgmælsens/ af hvers Verkum eingeñ kañ þo Hoolpeñ ad verda / Hvar fyrert af þvi hañ þoctest Løgmæled uppfyllt hafa : Ecke svo sem Phariseis og Herodis Þienurum/ er komu til hañs med vidlijkum Formæla og Nicodemus/ eñ þo fuller af Vnderhyggiu og Flættskap / og spurdu ad/ hvert ad leyfdest ad giefa Keysaranum Skatt edur ei: Ecke svo sem Kieñemoñunũ z Oldungrnum/ er spurdu hñ ad af hveriun Myndugleika hañ kiende/ Math. 21. Drotteñ visse ad Nicodemus var i Løgmælenu noogu Froodur ad Gydinga Plagsid/ þvi hañ var eiñ Meistare i Jsrael/ þar fyrer tefur hañ ecke ad undervijsa honum i þvi sem honũ var Aboota vant/og opnade

honum

honū enar fyrstu Dyr Lyfsins Vegar/sē er Endurfædingen/med þessum Ordum: N. Ema Ad E Jnhver FÆDest Ad Nyu / Pa Kan Nan Ecke Ad Sia GUds Ryke. Hier af ma sia hversu megnt Faafrꝛde ad drottnad hefur medal Gydinganna i Andlegum Efnū þegar Christur kom. Pad synest ad þeir hafe ecke þeckt Uppruna Syndena / jafnvel þott þeir mætti lesa hia David Ps. 51. J Syndesie em eg alen / og i Syndesie hafnade mier Moodur med mier: Ecke Endurfædinguna / edur ætlad ad Umskurnen munde vera hennar Med al af Gude tilskickad/ helldur svo sem nockurskonar utvortis Teikn / med hveriu Israels Foolk være adgreint fra ødrum Þioodum / þar þo Moyses seiger þm̄ berlega Devt. 30. DRottenn mun umskiera þitt Hiarta og þijns Sædis Hiarta til ad elska DRotten Gud þin af øllu Hiarta þynu/ og af allre Ondu þine svo ad þu lifer / hvar ecke kan ad vera annad meint en þad sem Paulus umtalar / Rom. 2. er han nefner Umskurn Hiartans sem er i Andanum og ecke i Bookstafnū / hverrar Lofstyr ecke er af Mønnum helldur af Gude. Vr þessare villu vill nu Drotten fyrst hialpa Nicodemo/ og meigum vier Christner Men O Dauðlegar þacker Gude kunna / ecke einasta fyrer þad han hefur Endurgieted oss til eirnar lifande Vonar / sem Petur ad Orde kiemst/ 1. Pet. 1. helldur og þad / ad hvert Barned a medal vor a Kost a / ad nema þa Himnesku Speke um̄ Endurgiefninguna og hennar Krapt/ sem þesse Hælarde Olldungur visse ekert af. Gud giæfe ad bæde Kienne-Fedur og Foreldrar hefdu svo mikla Astundan a / ad brijna þvilijkt fyrer synum Bornum og hinū Einfølldu / svo sem þad er liooft i Guds heilaga Orde/ þa mundu Men ecke svo opt lega flecka sitt Skyrnar-Klæde sem Men giora / þa mundum vær hafa meira Traust i Mootgangennū og i Freistingunū/ af þvi ad vier erū Christo innplantader z setter i hans Ryke/ z Kraptur Skyrnarennar munde fram ar auglysa sig i Endurnijungu Lyfdaganna / og Deydingu Holldsens helldur en almennelega skiedur. Pad er merkelegt/ ad Endurlausnaren brwkar þetta Ord / AD FÆDast AD Nyiu. Skyrnen er ecke nein Stundar Þvottur/ er giører Man hreinan um̄ Sin fyrer Gude/ helldur

helldur verdur hiñ Skyrde ný Skiepna i Guds Auglite / og þar fyr' er kallast þ Endurgiefningar Laug / Tit. 3. hvorrar Kraptur varet um allañ þess Alldur / er ecke afræker siñ Skýrnar Sattmaala / helldur kostar Kapps uñ ad endurnyia hañ med Betrun Lyfernesens Dag'legana. Siaied til / Børn myn / Madureñ fædest i Heimeñ daudur i Uppruna Syndeñe / Blindur i styrnum Saaluhiaalpar Efnum / þvi Holldlegur Madur skyniar ecke hvad Guds Anda er / seiger Paulus / 1. Cor. 12. Er þ ecke þa ad fædast ad nyu / ad heilagur Ande i Skyrneñe upplyser Hugskoted / endurskapar Viliañ / og giefur oss nyar Andlegar Sæfur / ad vier faaum sied Guds Ryke / þeckt þad i Trueñe / samt þvi er uñ þ talad verdur / ad vier leitum þess / langar epter þvi / og ødlumst þad uñ syder / hvad Omøgulegt er Hollde og Bloode / svo sem Postuleñ votkar / 1. Cor. 15. Spekingarner seigia ad Madureñ sie Madur fyrer Saalareñar Skulld / þvi añars bere hañ eckert af Kvikindunú / svo er hñ og Guds Madur alleina fyrer heilagañ Anda / er vier i Skyrneñe medtøkum / añars er hañ ecke einasta Skynlaus / helldur og daudur i andlegañ Maata / þvi er þetta Guds Verk riett kallad Endurfæding. J Añañ Maata er oss kuñugt ad vier fædumst i Heim þeña Børn Reideñar / sem Paulus skrifar / Þañeg er vor Naattkurleg Fæding / eñ i Skyrneñe verdum vier Guds Børn / þar verda oss fyrer alls eckert alleina fyrer JEsu Christi Forþienustu Syndern ar fyrergiefnar / eñ vier Riettlætter fyrer hñs Naad / og til Arfs tekner med Guds Syne / þvi svo utmaalar Paulus Endurfædinguna / Tit. 3. Seiged mier / er ecke slykt ad nyiu fæddur ad vera? J Þridia Maata iñebindur og Skyrneñ i sier Avøxt Endurfædingareñar / sem er Endurnyungeñ / hver ed Daglega a frañ ad koma og i Vøxt ad fara / fyrer hveria Madureñ Endurfæddur verdur ein ný Skiepna / 2. Cor. 5. skapadur i Christo til goodra Verka i Skyrneñe / eñ Jklædest Daglega einñ nyum Mañe sem Endurnyiast epter hñs Mynd er hañ skapad hefur / og i þessu þreñu er Endurgiefningeñ foolgeñ / hveria DRottenñ vill teiknad hafa / med þvi Orde ad fædast ad nyiu. Þo skal eingeñ svo dærlegur vera / ad hañ meine ad þad noog sie / ad

færa

færa Børneñ a Kyrkiuna/og lata þau þar Vatne auſa/og tala Guds Ord yfer/ eñ alldrei ſijdañ vekia i þeim Krapt þeſſa Himneſka Medals med Gudrækelegre Uppfrædingu. Þolanligra være ad kaſta þeim ut a Mørkena/og lata uppeta af Vargñ/ ſm̃ þo er hiñ verſte Glæpur / helldur eñ ad ala þad upp / ſem Gud ſkapade i Moodur Lijfe / og Endurſkapade med heiløgum Anda i Skijrnar-Laugeñe / Standanum til Þioonuſtu og høñu i Brad/ſem er Guds ſvareñ Ovinur. Umſkoreñ var Nicodemus / Endurgiefeñ var hñ epter Þre Guds Skickañ ſem varde allt til Chriſtum / eñ þo var hañ ſvo Ofroodur um̃ ſialfs ſijns Endurfædingu. Meinar þu ad Barne þijnu / ſem kañſkie alldrei fær ad heyra nema Fávitſkuna / þvi mune betur farnaſt eñ þeſſum lærda Mañe? Nema þu aler þad a hiñe hreinu og ſkynſamlegu Miolk Guds Orda / ſem Petur um̃ talar / 1. Pet. 2. Ef þu ert fær þar um̃/og ſiert þu ecke/ſm̃ eg dylſt ecke vid ad margur mune vera/ hvad Gud betre / þa ſkamaſt þijn ecke ad ganga med Nicodemo/ iafnvel a Nattar-Þele / þad er heimuglega / ef þu blygdaſt vid ad giøra þad Openberlega / þar þu ert gamall vordeñ / til Chriſti Þienara edur añara ſem betur vita / til ad læra Fræde þa / er þu matt ecke an vera / ſvo þu faaer hoolped bæde þiñe og ſvo þeirra Salum er þier er tiltruad/nema þu vilier kveltaſt aſamt þeim i eilijfu Helvijtis Loga/ ſem Gud hafde boded þier med chriſteligre Uppfrædingu til Himnas Rijkis ad leida. Ecke fær Nicodemus þetta ſo bradt ſkiled er JEſus ſagde hønum/og þvi talar hañ um̃ Holldlega Fædingu/ høñu þoolte þ Ofgar/ad Madureñ Skyllde Hverfa Aptur i Siñar Moodur Kvid Nær Hañ er gamall/ Og Fædaſt Svo ad Nyiu: Eñ þott Þad være ſvo langt fra hañs Þanka og yfergeinge hañs Skynſeme er JEſus talade / Samt forlætur hañ ecke DRotteñ ad helldur / og vill heyra meira hier um̃ talad. Olijkur var hñ þm̃ ſm̃ a vorũ Døgum ecke vilia lata ſier i Guds Orde undervijſa / St. Pals Spa er rætt a þeim er hañ ſeiger/2. Timoth. 4. Ad þær Tijder mune koma/ ad þeir mune ecke lijda Heilſuſamligañ Lærdoom/ þeir hlaupa i Felur nær Þra Chriſteñ-Doom a ad rañſaka / þeir ſkipota Børnum ſijnum

undañ nær þvilykt ſkal um̃ Hønd hafa / þeir hæda ad Kieñendunum / nær þeir i ſlyku villa giøra ſitt Embætte / og hrooſa þvi hver fyrer ødrum / ad þeir a einhvern Hætt hafe giekad ſlopped fra þvi ad læta Leidſegia ſier til Himna Rykis. Þetta giøra nockrer af þm̃ a medal vor / ſem bæde eru ſkyrder og gaanga til Guds Bords / þriſvar / fioorum ſiñum a Are hveriu / eñ reidaſt Guds Þienara ef hañ vill ecke leifa þm̃ og Børnum þra / ad eta og drecka Holld og Blood DRottens ſier til Fordæmingar. Þu Vitfyrringur / munt þu þa helldur vilia til Helvytis fara / og þar eilyflega brena / eñ ad lia Eyru þyn Heilſuſamligre Kieñingu / ſvo þu meger þiña Saaluhiaalpar Medala verduglega niootande verda ? Edur villt þu leida þiñ Kieñe-Fødur i þañ Saalar Voda / ad hañ hafe Alkared til ad ſyndga / eins og Ephraims þad giøra þo aller þeir ed þa vyſvitande til Altares taka / ſem þeſſ Overduger eru. Ecke ſtyggeſt DRotteñ vid þeſſa Einfellding Nicodemi / hañ vill ecke þeña brakada Reyr i ſundur brioota / helldur til þeſſ ad upprata þeſſa Faavitſku ur hañs Hiarta um̃ Lykamlega Fædingu / þa ſeiger hñ hverneg þeſſare Andligu Endurgietningu ſie vared / med þeſſum Ordum : NEma Ad Eiñ ENDurfædeſt Af VAtne Og ANDa / Þa Kañ Hañ Ecke Ad Iñgaanga I GVds RIIke. Hañ bleſſadur hafde þa alla Reidu ſkyraſt læted nær þetta ſkiede / og Johañes Skyrn hefur Nicodemo alkuñig vered / þa var og Logmaal Vm̃ſkurnareñar afmaad / ſvo ad i Chriſto gyllde hverke Vm̃ſkurn nie Yfer-Hud / þvi Tyme Endurbootareñar var komeñ / ſem Paulus um̃ gietur / Heb. 9. Eñ Skyrneñ var aptur i heñar Stad innſett / z Drottenñs Kvølldmaaltyd ſkømu ſydar i Stadeñ Paaſka-Lambſens / hver ed vara mun aſamt Skyrneñe þar til Verølld þrytur. Þeſſ gietur Paulus / 1. Cor. 11. er hañ byrdur ad vier med þeſſu Himneſka Gieſta-Bode ſkulum kuñgiøra Dauda DRottens þar til hañ kiemur. Til þeſſarar alvyſſu Raad-Støfunar hiñar haaleitu Guddoomſens Þreñingar vyſar nu Frelſareñ þeſſum ſynum Læreſvein / og leggur Orſøkena til / ſem þeſſe goode Madur hefur ecke aduur ſkyntad / HVad Sem Af HOLLdenu er FAEdt / Þad Er HOLLd / Eñ HVad Sem Af

Andanſ

ANDanū Er FÆdt Þad Er ANde. Þad er Vpphaf Christendoomsins/ ad Madurenn vite ecke einasta ad hañ sie spilltur ad nockru Leite af Vppruna Syndenne / helldur ogølldunges i Syndenne daudur/ svo ad vor Nattura verdur ad Endurfædast med øllu/ hvad Omøguelegt er ad skie kuñe/nema fyrer Almattis Krapt Guds er Mañen i fyrstu skapade riettañ edur Heilagañ / svo sm̄ hiñ vijse Salomon ad Orde kiemst / Eccl. 7. Og þſſ vegna hefur vor goode Kienne-Fader Lutherus læted Løgmaaled undañ ganga ødrum Pørtum Christelegs Lærdooms/ ad vier af þvi kyñum ad sia vorn Holldligañ Saurugleik/svo þad yrde þañig vor Typtunar Meistare til Christum. Eñ Hvad Sem Af ANDanum Er FÆdt / þAd Er ANDe / Þad er / þad sem Endurfædt er/og af Gude fædt / Joh. 1. J hvertium Guds Sæde er/ 1. Joh. 3. þad er Ande. Ecke svo ad Holloed um̄breytest i Anda/ helldur verdur sa hiñ same Andligur Madur / eins og Adam vard ad lifande Saal/ 1. Cor. 15. þad er lifande Madur / hañ verdur eirn Ande med Gude ef hañ ahanger hønum / 1. Cor. 6. og Sootkredur ecke Guds Sattmaala/jafnvel þoott ecke sie þess Von i þessu Daudliga Hollde/ ad vier aldeilis Andliger verdum / þvi er su Glijmañ a mille Holldsins og Andans/er Paulus svo optlega talar um̄/Þad skiedur fyrst i Vpprisu Rietlætra ad vier Andliger verdū til fulls / þa munu vorer Lijkamer Andliger og Englunum jafner verda/og vorar Saaler eitt med Gude / sem verda mun allt i øllu a þvi Gledeñar Lande / þvi nefnest hun og Endurfæding hia Matth. 19. Cap. þad er Vppreisn allra Hluta/svo sem Petur þad kallar/Act. 3. Visse Drottenn ad ei mune Nicodemo skiliast þetta eñ nu/þvi seiger hñ hier strax epter/VNdrast Ecke Ad Eg SAgda þJer / Ad YDur BYRiade Ad NYiu Ad FÆDast / Og ecke einasta seiger hañ þad / helldur þar ad auke framsetur hañ eitt Omotmælanlegt Dæme uppa Frasøgu hans / og añara Daudligra Mañna/sm̄ langt eru fra þvi/ad skilia þa Hlute er þeir Dagleg umgangast / auk helldur ad þr skynia mune þa himneſku er svo langt yfer ganga Mañlegañ Skilning / VJNDureñ Blæs Og þu HEyrer HAñs þyt/etc. Drottenn blæs a Lærersveinana og

 sagde:

sagde: Medtaked þier Heilagan Anda. H. Ande kom i sterkum Vinde yfer Postulana a Hvijtasunudøgū. Svo tekur nu Frelsaren hier Dæme af þeim Hlut sem Andanum var lijkastur / til ad hialpa Fafrædе þessa einfallda Mañs. Vier heyrū aller Vindeñ þiota / vier finnum hañs Megn a Lijkamanum eingeñ sier hañ þo / eingeñ veit hvar hñ hefur sijn Vpptøk / Vindureñ blæs a sömu Stundu i Imsum Stødū af Austre og Vestre / af Nordre og Sudre. Seig mier/ hvar hafa þesser Vindar sijn Vpptøk? Hvört fara þr? Hvar slotar þeim? Fyrst eingeñ hefur eñ nu fundest svo vijs / ad hañ giete sagt oss þad/ hversu muñū vier þa skynia þad sm miklu meir yfergeingar vorn Skylning. Eñ Svo Eru Og ALLer þEir Sem Af ANDanū Eru FÆdder / þeir finna Guds Anda Hræringar i Sæalu siñe / þegar hañ straffar Syndena / uppvekur Idranena / lijfgar Truna / kveiker Elskuna / efler Þolenmædena / og verkar adrar Christelegar Dygder. Vier vitū og ad hñ er fra Gude komeñ / af þvi Ritningeñ hefur sagt oss þad / eñ hverneg hañ er fra Gude utgeingeñ og i Hiartad komeñ / þad vitū vier ecke/þvi Guds Rijke kiemur svo þad verdur ecke adgiætt seiger Frelsareñ/ Luc. 17. Ecke helldur vitum vier hvert hañ fer/ þvi Andeñ fer i burt og kiemur iñ aptur / vier vitum ad hañ fæꝛer oss iñ i eilijft Lijf / ef vier sløckvum hañ ecke / eñ þad Lijf þeckium vier ecke nema svo sm fyrer Speigel og i Rad-Gatu/þvi þad er Opinbert eñnu hvad vier verda munum / og vort Lijf er foolged i Gude / Col. 3. Þar fyrer sa sm finnur Verkaner H. Anda i Sæalu siñe/og vill þo ecke Endurfædinguñe trua / þad er eins og villde hañ neita þvi ad Vindureñ bliese / eñ giæte þo ecke siálfur a Iordūñe staded fyrer Ofvidre. Ef vier þvi neydumst til Natturuñar Verkan ad trua/ þott ei skilium vier heñar Orsøk eda Vpptøk/ Þvi skylldum vier ecke giefa vora Skilningu fangna under Hlydne Truareñar i Andlegum Efnum / sem svo miklu eru Oskilianlegre.

Ecke ber Nicodemus a moote þessum Vijsdoomsfulla Sañleika/ er DRottenñ talade / eñ þo vill hañ fradast gior hier um / og þvi seiger hañ: HVerneg Ma þEtta SKie? Þar fyrer tekur Lausnareñ til

þess

þess sem sterkast var / þad var hañs eigeñ Vitnisburdur / sem er i Fødursins Skaute : SAñlega / SAñlega SEige Eg þJer / VJer VJtum HVad VJer SEgium / Og VJtnum HVad VJer SJed HOfum. Eingeñ Rok edur Vitne eru svo sterk sem þetta / GVD hefur þad talad : Þvi sagde JEsus Fordum vid Gydinga / Joh. 8. Þoott eg bere Vitne af sialfum mier / þa er þo mitt Vitne stødugt / eñ þetta visse Nicodemus eñ þa ecke / Hañ sagde ad søñu i Ondverdu Samtalenu : MEJstare / VJer VJtum Þu Ert eiñ LÆREFAder Af GVDE / Þvi EJngeñ Kañ Ad Giora Þau VErk / Sem Þu GJører / NEma GVD SJe Med HOnum. Hefde hañ sagt J HOnum / þa hefde hañ riett talad / Eñ svo var hañ eñ þa ecke upplijstur / þo byriade høñum ad trua Christo / þar hañ jatade / ad hañ være af Gude / og giørde svo mikil Krapttaverk / eñ DRotteñ liet hañ ecke leinge vada i Villu þessare / helldur skyrer høñum berlega fra / hver hañ sie / seigande : EJNGeñ Mun uppfara til Himens / Nema Hañ Sem Ofañ Stie Af HJmne / MAñsins SOnur / HVer Ad Er A HJmne. Þetta Ord / Ad VPPstijga Til HJmens / merker i Ritninguñe / ad ransaka Guds Leyndar Rad / svo seiger Agur um Ethiel og Ucal / Prov. 30. Þad er um hañ sem heiter GVD Med Oss og sa MATTuge / þad er CHRJSTur / Hver mun uppfara i Himineñ / og ofañ þadañ ? Þad er / hver mun Guds Leyndardooma Rañsaka / þar um talar svo Moyses / Devt. 30. Þad Bodord er eg byd þier i Dag / þad er ecke huled fyrer þier / edur langt i burtu / þad er ecke i Himnenuñ / svo þu seigia þurfer : Hver mun fara fyrer oss upp i Himeneñ ? Þau Ord utleggur St. Pall / Rom. 10. þegar hañ hefur adur talad um Leyndardoom Mañsins Riettlætingar fyrer Gude / Cap. 9. Þu skallt ecke seigia i Hiarta þynu / Hver mun fara fyrer oss upp i Himeneñ ? Þad er ad toga Christum ofañ ur Hædunum : Hvar fyrer ? Þvi hañ var Einustie ofañ til vor komeñ / og færde oss þessa Himnesku Speke ur Skaute Fødursins / þvi þurfte eingeñ upp aptur ad fara i Himeneñ / til ad rañsaka Guds Vilia um Mañsins Saluhialp / þ er hid sama sem Drotteñ seger hier Nicodemo. Eg sem

ad vid þig tala i Lijkingu ſyndugs Holldſ/ad Hegdan fundeñ ſm̃ Mad ur/z er ofañ komeñ af Himne af mijns Fødurs Skaute/Eg veit hvad eg ſeige/ og vitna hvad eg ſied hefe/ eingeñ añar mun uppſara i Himeneñ til ad rañſaka Guds Vegu / nema eg ſem nu er a Himne/ þoott eg hier vid þig tale/þvi byriar þier mijnum Ordũ ad trua/ef þu villt hoolpeñ verda. Þeſſe er Efalauſt Meining Frelſarans / þvi eingeñ hefur um̃ Alldur Gud ſienañ/ ſa Eingietne Sonur Fødurſins / ſem er i hañs Skaute/hñ hefur oſſ þad opeñberad / ſeiger Joh. Cap. 1. Eñ Lijka Sem MOyſes VPPhoof HOggormeñ a Eydemørku/ Svo BYrtar MAñſins Syne upp AdHEftaſt / ſeiger Frelſareñ. Ein hver mætte ad ſpyrja/Hvad kiemur þeſſe Fyrermyndan hier vid/ Eingeñ er betre /Chriſteñ Madur/i øllum Fiarſioodũ Ritningareñar/eingeñ ſm̃ betur hlyde uppa þad Efne / ſem hier var um̃talad þvi valde Frelſareñ hana til ad Sañfæra Nicodemum med / hver hañ viſſe ad var uppfræddur i Løgmalenu. Paulus ſeiger Hebr. 9. er hañ þyder gamla Teſtamentesens Foorner uppa Chriſtũ/ſialfur Gydingur fyrer ødrũ Gydingũ: Hverſu miklu framar mun þa Blooded Chriſti(ſeger hñ)ſm̃ fyrer hiñ eilijfa Anda hefur Foornfært ſialfañ ſig Oflecka dañ Gude / hreinſa Samviſku vora af daudlegũ Verkũ / til ad þioona Gude lifanda. Seiged mier / Hvar verda vorar Samviſkur fyrſt hreinſadar? J Skijrnene / þar fyrer kallar Petur hana Sattmala goodrar Samviſku/ Fyrer hvad verda þær hreinſadar? Fyrer JEſu Blood/ſm̃ vitanlegt er af Poſtulans Ordũ/er ſtrax voru leſeñ / Hvar gaf Frelſareñ þ ut? i Grasgardenũ / i Þijng-Huſe Pilati / eñ allra hellſt a Kroſſens Galga / þvi þar blædde ſialfu Lijfenu til Olijfes/z Daude hañs var Fullkomnan vorrar Hreinſunar/þvi ſagde hñ under Andlated/ þad er Fullkomnad. Hver Fyrermyndan gamla Teſtamentesens hlijder nu beſt uppa Kroſſfeſtingu Drottens? Eingeñ betur eñ þeſſe/nær Moyſes epter Guds Bode upphoof Eyrormeñ a Eydemørku/Moyſes heingde Ormeñ uppa Tried/ ſvo er og JEſus a Galgañ uppheingdur/ uppa Tried bar hañ vorar Synder/og feſte þar Handſkriftena þa ſm̃ mote oſſ var/Col. 2. J þm̃ Orme var ecker Eytur/

þoott

þoolt hañ være hinum ødrum liikur. Guds Sonur er ad allre Negd-
an fundeñ sm̃ Madur/ þo æn Syndar/ Hañ er fyrer oss syndugu Or-
ma Madkur og ecke Madur vordeñ / jafnvel þoott hañ være hreiñ og
Heilagur/og fraſkileñ Syndurunū/ Ja/ þoott hñ ecke visse af Synd/
þa giørde Gud hñ ad Synd / svo vier yrdum Guds Riettlæte i hønū /
2. Cor. 5. Aller þr ed liku þañ Eyrormeñ / sm̃ Moyses uppseste/ þeir
urdu læknader af Eytur Orma Bitenu. Þu miñ HErra JEsu ert æ
Tried upphafeñ/svo ad aller þeir ed þig liita Truarenar Augū/ þeir
verde læknader af þvi Bite / er hiñ slæge Høggormur Diøfulleñ beit
vora fyrstu Moodur med/ og oss sijdañ Daglega bijtur/Þvi seger hier
og i Gudspiallenu : SVo Byrtar MAñsens Syne Vpp ad HEf-
tast/ svo ad aller þeir sm̃ a hañ trua Fyrerfarest ecke/ helldur hafe ey-
lijft Lijf. Þu hefur sagt/Drotteñ miñ/ Ef eg upphafeñ verd mun
eg draga alla til mijn/Joh. 12. Þad er ecke Gydinga einasta/helldur alla
þa af øllū Þioodū/sm̃ þiñ Fader hefur hier gifed. Svo drag oss þa/
Herra JEsu/sm̃ buum i þessu fatæka Lande/hverta þu eins vel leyst
hefur med þijnu dijrmæta Bloode og adrar Þiooder / Drag oss sege eg
under þitt Kross/ef þier svo lijkar/ ja/ uppa Krosseñ med þier/ef þad
ma til þiñar Dijrdar gagna og vorrar Saluhialpar. Þad er oss fyr-
er miñstu þijnū miñstu Besælingū / Vier vitum þu sagder vid Gyd-
inga/þegar þier hafed Mañsens Son upphafed/þa munud þier þeck-
ia ad Eg em hñ / Joh. 8. Þvi trui vier ad þu ert/DRotteñ miñ / ad
sigrutum Dauda / Diofle og Helvijte / yfer alla Himna hafeñ i þijna
Dijrd / til ad bua oss þar Vist i þijns Fødurs Huse. Drag oss
þangad med þier / O HErra JEsu / svo ad hvar sem þu ert / þar
meige og þijner Þienarar vera / Þier med Fødur og Heilogum Anda/
sie Valld / Heidur / Dijrd og Kraptur / þu Hæleita Gud-
doomsins Þreñing um Allder Alldar/

AMEN.

# Fyrsta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled/ Luc. 16. Cap.

I þañ

U þañ Tyma. JEsus sagde til Phariseaña: Þar var eirn Rykur Mañ / sem klæddest Perle og Purpura / og lifde hvern Dag i Vellistingum Prackteglega. Og þar var eirn Þurfamadur Lazarus ad Nafne / hver ed ute la fyrer hañs Dyrum / fullur Kauna / hañ gyrntest ad sedia sig af þeim Molum / sem fiellu af Borde hins Ryka. Þa komu Hundar og sleiktu hañs Saar. Eñ so skiede / ad hiñ Volade andadest / og vard boreñ af Einglunum i Fadm Abrahams. Eñ hiñ Ryke andadest lyka/og var greftradur. Eñ sem hañ var i Helvyte og Kvølunum/hoof hañ upp syn Augu/ leit Abraham œleingdar/ og Lazarum i Fadme hañs. Þvi kallade hañ og sagde : O Fader Abraham Myskuna þu mier/og send Lazarum hyngad/ad hañ drepe hinu fremsta syns Fyngurs i Vatn / og kiæle Tungu myna/ þvi eg kvelst i þessum Loga. Og Abraham sagde til hañs : Sonur/ hugleid þu/ ad þu medtookst hid gooda i Lyfe þynu og Lazarus lyka hid vonda / þvi hlyt ur hañ nu ad huggast / eñ þu ad kveliast. Frañ yfer allt þetta / er a millum vor og ydar / myked Diup stadfest / so ad þeir sem hiedañ vilia fara til ydar/ gieta þad ei/ og eige þeir helldur þadañ fra ydur / upp til vor komest. Og hañ sagde þa : Eg bid þig Fader/ad þu sender hañ i myns Fødurs Hus/ þviad eg hefe fim Brædur / þad hañ skyre þeim fra / so ad eige kome þeir i þeñañ Kvalastad. Og Abraham sagde til hañs : Þeir hafa Moysen og Spameñena / heyre þeir þeim. Eñ hañ sagde : Nei Fader Abraham/ helldur ef nockur Framlideña fære til þeirra / þa mundu þeir Ydran giøra. Eñ hañ svarade hønum : Ef ad þeir heyra ecke Moyse og Spamoñunum/ þa munu þeir ecke helldur trua þo ad nockur Framlideñ upprYse.

## Exordium.

NJKle ydur Audur til / þa heingid ecke Hiartad þar vid / seiger David / Psalm. 62. Ecke fordæmer hañ Audeñ i sialfum sier / helldur Ofmikla Elsku a hønum. Rykdoomureñ er goodur þeim er riett kañ ad bruka hañ. Audur er Afl þeirra Hluta sem giøra skal / seiger Cicero. Orlætur Madur Felaus / hañ er eins og eiñ Kappe Vopnlaus. Eckiañ sw er lagde eiñ Pening i Guds Kistuna / hun lagde ad søñu meira eñ aller hiner Ryku / þvi hun gaf af

Fatækt

Fatækt siñe / Eñ hefdu þeir eins miked gieped af siñe Audlegd / epter þvi sem Tala rañ til / þa munde þad og af DRottne ecke sijdur vel hafa þeiged vered. Være Rijkdoomureñ ecke Guds Blessan / þa munde hañ ecke hafa heited hønum til Launa sijnum Elskendum / er vardveita hañs Bodord / og ecke sæmt Asktvine sijna þar med. Abraham / Isaac / Jacob / Joseph / Barzelai / hin Sunamiska / Joseph af Arimathia / og adrer miklu fleire voru Rijker. Meñ og þo Guds Viner kallader / eru þvi Audæfeñ stoor Afl-Giøf DRottens / þvi seiger Salomon / Prov. 10. Ad Blessan DRottens giøre Rijka / og Hørmungeñ mune ei nælgast þa / þau eru Riettvijsum Mañe til mikils Heidurs / þvi seiger hañ eñ þa aptur / Prov. 14. Audæfe hiñs Vijsa eru hañs Corona / med þeim kuñum vier Løndum og Lijdum ad hiælpa / med þeim fæum vier sett Børn vor og Naunga til Mentaog Mañkosta / med þeim kuñum vier ad biarga Naunganum i siñe Angyst / med þeim getum vier aflad oss Fiet-Stooda a Himnum / ef vier stundum epter ad vera Rijker i goodum Verkum / 1. Tim. 6. svo þeir medtake oss i eilijfar Tialldbuder / er vier giørum gott þar af i sañre Trw og i Guds Nafne / hvar fyrer ad sa ed Fatækum giefur / hañ lænar DRottne / og hafa Meñ alldrei betur vared Fe sijnu. Svo eru nu Audæfeñ stoort Guds Laan og hañs Elsku Merke / nær þau Riettfeingeñ eru og riett brwkud / eñ svo sem þau eru hinum Froomu og Riettvijsu til mikils Heidurs / svo eru þau og hinum Ogudlega og Agiarna nærsta Ofþørf og Skadsamleg / þvi seiger DRotteñ / ad Ranglætesins Fie-Stooder sieu Elldur i Hwsenu / Ja / þoott eiñ sie vel komeñ ad Aud sijnum / eñ brwkar hañ þo Gude til Stygdar / til Ohoofs og Metnadar / til ad underþrycka hiñ Vesæla og Lytelmagnañ / og helldur hiñ til Okurs / og siñe fyrer Verkamañenum / z hinu Fatæka / sem Gud hefur skipad ad ala / þa er hañ Bølvaneñe undervorpeñ / þess gleitur hiñ Vijse med þessum Ordum: Sa ed prettar hina Riettlatu a vondum Veige / hañ mun i siñe Gløtun hrapa / og hiner Einfølldu munu eignast hañs Gootz. Ja svoddañ Audlegd er hvertu Volæde argare / svo þad er Kongdoomur ad fara a Vonar-Vøl alla Æfe sijna hiæ svoddañ Rijkdoome. J þessa Dags Evangelio verda oss fyrer Siooner setter tveir Meñ / eiñ Rijkur / añar Fatækur. Vier viljum i Guds Nafne skoda. 1. Dæme hiñs Rijka / og svo hañs Afdrif. 2. Hiñs Fatæka / og svo hañs Endalok.

Þu goode Gud sem alleina Rijkur ert / hiælpa oss med Rijkdoome Naadar þiñar ad giøra þetta Verk i þijnum Otta fyrer JEsum Christum / Amen.

## Vtleggingeñ.

HAR Var EJñ RJJkur MADur / seiger Texteñ. Rijkdoomureñ kañ eingum af sialfum sier ad baña iñ i Himnarijke / svo sem i Jñgangenum sagt er / þvi siaum vier og i Gudspiallenu hiñ fatæka Lazarum i Skaute hiñs rijka Abrahams. Tokñ Van brukunena i burt / og mun Audureñ ecke skada / giørumst rijker i goodū Verkum / og mun þad nockud til Himnarijkis gagna / eñ þad vantade

 þeña

þessa ryka Mann. Hann klæddest Pelle og Purpura/ seiger Textenn. Pell var einn Vefnadur Forkunnar vænn og Gullvægur halldenn / hann er nu ecke ad fa i Heimenum/ Sama er umm Purpurann ad seigia/ þad var einn Litur forkostuligur / tilbuenn ur Skiel-Fiskiar Bloode/ og er nu ecke ad finna i Verølldenne. Hvortveggia þetta var Konunga Bunadur og annara Høfdingia / og leifdest ei Mugamønnum ad bera. Þanneg var Aaronis Bunadur / og Høfud-Presta Gydinga / Exod. 28. Svo var Joseph klæddur/ Gen. 41. Þetta Skart bar Daniel/ Dan. 5. Þanneg var Mardochæus buenn / Est. 8. Enn umm þenna ryka Mann stendur ecke i Gudspiallenu/ ad hann hafe nockur þess Embættar Madur vered / þad er og ecke lyklegt / þvi Frelsarenn munde ei hafa til þess tekid/ ad hann hefde svo vered i Skart buenn / hefde hann vered Høfdinge nockur/ þeim er soomt hefde ad bera svo dyrmæt Klæde/og var i þessu ecke lytill Ofmetnadur / satt er þad/ ad Klæden giøra eingann vondann nie goodann af siaalfum sier / enn Fatnadurenn er Mannenum giefenn til ad skyla Blygdan sinne/og vardveita Lykamann fra Kulldanum/þvi mætte þad synast / ad sa sem kieppest vid ad bua sig Tiguligar helldur enn Virdingu hanns soomer / ad hann giøre þad annadhvert fyrer Lausl æteis edur Metnadar Saker / og er hvortveggia stoor Synd i Guds Auglite / fyrer þvi mun þad ei Syndlaust vera er Menn bruka til þess ad efla þessa Leste med/Mismunur i Klædnadenum a ad vera /og var fordum til ad adgreina Virdingar Manna / og svo er Raad fyrer þessu giørt i Lands-Løgum vorum/hvad sem þar framm yfer er/ þad er Osidseme og Ranglæte / þvi þad er ad taka sinn Riett fra þeim sem Ædre eru ad svo miklu Leite sem þessum Hiegoma nemur. Eg vil seigia / hvort sem ad einn er Kostum buenn edur ei / þa syndgar hann / ef hann klæder sig betur enn hanns Stande soomer / sie hann vel ad sier umm marga Hlute framar ødrum/þa spiller hann miøg svo Agiæte sinu/ ef hann meinar þad verde agiætara fyrer Buningsens Skulld / þvi Salomon i allre sinne Dyrd var ecke svo skryddur sem eitt af Akursens Liliu-Grøsum/og vier vitum þo/ ad Gud hefur meira virdt hinn aumasta og heimskasta Vesæling a medal vor enn þau/ Enn vier eigum ad bera sømu Virdingu fyrer Hlut-

unum og hann sem þa skapad hefur/ Enn sie nockur ei nema Almenilega Kostum buenn/ og vill þo leika sier Fordilldar af Klædnadenum / þa er mikel Fæviskta i þvi. Eg veit ad eitt Asne verdur þo alldrei Hestur/ þo Menn setie Gull-Södul a hann / og so verdur eitt Ðare alldrei vijs/ hverneg sem hñ mælar sig utann. Þesse Osidur fer miøg so i Vøxt i Lande voru smæmsamann nu nockur Aar. Ambættenn vill eins klædd vera og Hufs-Moodereñ / Þienarenn eins og Herrann / Sonurenn betur enn hans gamle Fader. Formegunenn/ Mannskapurenn og Vijsdoomurenn eru i burtu ur Landenu / Enn Buningur og Klæda-Snid eblest Daglega / Eitt Skoola-Dreingur kostar øllu til þess ad fæ vænann Kiool/ enn ad kaupa sier eina Book/hvar af hñ nockud gott meige læra/ þar hyrder hñ ecke umm. Og umm alla Hlute fram/þa skulu vor Klæde skorenn vera epter framande Þiooda Snide/ giætande lijted ad þvi sem DRottenn seger ske skule a sijnu Slætrunar Dege / ad hann vilie straffa alla þa sem buast Utlendskum Bunade/ Zoph. 1. Hvad vill hier af verda umm sijder? Eg ætla DRottenn þurfe ecke ad leggia Høndena a oss/ Vær erū vorer eigenn Bødlar i slijku/ svo ad lijkast er/ef þessu skal leinge fram fara/ ad þad mune ganga oss eins og þad gieck Judum/ er þeir tooku upp Sidu Griekia / ad þeir urdu þm̄ ad Bræd / hverra Sidum þeir breyttu epter/ 2. Mac. 4.

Framveiges stendur hier umm þenna Munadar Kropp / ad hñ hafe Eted Daglega Skijnande Kræser. Epter Textans Ordū er þ so/ hñ hiellt sig Forkostulega Gladværann Daglega. Þetta mæ skilia / ad hafe vered i Mat og Dryck og ødru Ohoofe / sm̄ heyrer til Lijkamlegs Munadar. Nu er þad hier ad seigia/ Ad DRottenn hefur ecke bannad ad hafa Jnidæle af sijnum Skiepnum i riettann Tijma og med Hoofe og Sidseme. Siælfur var Frelsarenn ad Heimbode Manna a sijnū Hierviftar Døgū i Cana i Galilæa / hia Simone Pharisæara / hia Zachæo / z optar / hvar fyrer pott hñ være hid fegursta Sparneytnennar og Hoffsemennar Dæme / sm̄ nockurn Tijma hefur skined i Verølldenne / þa var hñ þo af Jllgiørnū Pharisæis Ofneysslumadur og Vijnsvelgur kalladur. Jæ/ hñ liet sitt blessada Høfud smyria med

dyrmætu Salve / z þott hñ være allra Nluta DRottenſ/ bæde a Him̃ne z Jørdu / þa munde hñ þ ecke giort hafa / nema slijkt være Leyfelegt nær þad er i Hoofe / og med goodre Sktckan brukad. DRottenſ baud sialfur i ſijnu Løgmaale um̃ Laufſkæla Hæltijdena / Levit.23. Þier ſkulud vera glader fyrer DRottne Gude ydar i Sio Daga/hvert Løgmaal ad Moyſes ytrekar / Deut.12. Þier ſkulud eta fyrer DRottne Gude ydar og glader vera/þier og ydar Hyſke / af øllu þvi ſem þier rietted ydar Hønd til/af hveriu DRottenñ Gud hefur bleſſad þig. Og framveiges i hinu Atianda Verſe ſeger hñ/ad þeir ſkule ecke eta innañ ſiña Porta a Laufſkæla Hæltijdeñe ſijnar Korn-Tijunder / eda Tijund er af Muſteñe edur Oliuñe. Eñ hñ ſeger: Þier ſkulud eta þ þar i þm̃ Stad/ſem DRottenñ Gud utvelur/þu og þiñ Sonur og þijn Doottir/ Þræll þiñ og Ambaatt þijn/ og Levitenñ/ſem er iñañ þiña Porta/ ſvo ſkallt þu gledia þig fyrer DRottne Gude þijnũ / hvert Løgmaal Nehemias og Hezras Kieñemadur apktur ithleidtu epter Herleidinguna/ Nehem. 8. er þeir budu Foolkenu a Laufſkæla Hæltijdeñe / Eted hid feita og drecked ſætañ Dryck/ og ſended þeim eiñ Part/ſm̃ eckert tilbued hafa/ Af þeſſu er audſært / ad hiñ goode Gud hefur ei bañad ad gledia ſig i Hoofe / þo ſvo / ad Meñ dyrke hañ med Virdingu / og gledie ſig med Otta/ ſm̃ David bijdur/Pſ.2. Vijn og Viſter eru fyrer Mañenñ ſkapadar/ ecke forgiefens / helldur honũ til Vnadſemdar og ſkickañlegrar Brukunar / eñ Vanbrukuneñ kiemur af Holldenu og af Fiandanũ. Vid þetta Guds Epterlæte a nu Meknadur og Ohoof ens rijka Sælgiætings eckert ſkylldt. Hier ſtendur/ad hñ hafe halldid ſig forkoſtulega gladværañ Daglega / þad er ad ſkilia / hañ var allur ſocken i Munad Veralldar þeſſarar/ hyrdte eckert um̃ Gud/ eckert um̃ ſijnar Synder / eckert um̃ hid komanda Lijf edur ſiñ Dauda / helldur hafde hañ Magañ fyrer ſiñ Gud / ſvo ſem Poſtulenñ ad Orde kiemſt / Philipp.3. Ja/rieft eins og Eſajas ſeger i 56.Cap. Komũ/lätit oſſ fylla oſſ af ſterku Vijne / og Morgun-Daguren ſkal þeſſum lijkur verda/ og eñ þa koſtulegre/ og vantar oſſ ecke þa i Lande voru / er hid ſama giøra myndu / hefdu þeir Raad eins og þeſſe. Eckert hyrda

þeir

þeir um̄ ſitt Embætte / eckert um̄ ſitt Framferde / eckert um̄ Landſins Gagn / eckert um̄ ſijna Sæluhiælp / eckert um̄ ſijna Burtfør af Heimenum / ſvo ſem hefdu þeir Feſte-Bref af Andſkotanum / ad þetta ſkule Æfenlega vara / ja / um̄ eingan̄ Hlut nema um̄ Mun̄ og Maga / og þad ſem þeir kune ad hafa til ad þioona þeim med / jafnvel þoott þad ſkule verda hripſad ut af Mun̄e Naungans med Ofbellde og Rangindum. Nu voru þeſſer Leſter hiṅs Rijka Sælkiera / ſvo vonder og fordæmanleger / ſem alla reidu er nockud um̄talad / en̄ þad jook ofmikl u a / ad hin̄ Veſæle Lazarus / fullur Sara og Kauna / lꝏ Hungradur fyrer hn̄s Dyrū / og er Lijklegt / ad hn̄ hafe nærſta Klædfa r vered / þvi ſa ſm̄ eckert hafde til ad ſedia med ſin̄ hungrada Maga / han̄ mun ecke hafa miked haft til ad klæda hin̄ ſæra Lijkama. O / Hvilijk ſkelfeleg Hardydge var þetta? Eckert þurfte þeſſe Gudlauſe Kroppur ad miſſa af ſijnu Borde / til ad ſedia þen̄a Veſæling med / þvi han̄ gyrntiſt ad ſediaſt af Molum þeim / er fiellu þar af / Eckert af ſijnu Pelle z Purpura / þoott hn̄ hefde kaſtad eine Flijk a hn̄ ( ſem hn̄s Prælar villdu ecke bera ) til ad hilia ſijn Kaun med / en̄ þvi var ei ſvo vared / Hundarner voru Myſkunſamare helldur en̄ hn̄ / ſem Gud hafde gefed Vit og Skin / og þar ad auke Fullſælu Fiar / þvi þeir komu og ſleiktu Kaun hn̄s / og mætte lijklega ſeigaſt / ad þeir mundu fyrr inngang a i þa himneſku Jeruſalem / Apoc. 22. hefdu þeir þar til ſkapader vered / helldur en̄ þetta Villu-Dyr. O Gud giæfe / ad þr ſm̄ hn̄ hefur bleſſad med Audlegd Veralldar þeſſarar / þeir villdu þo / ſege eg / eitthvern Tijma hugleida / hvad miked þeir eru Guds Voludū Limum ſkylldug er. Seig mier / þu ſm̄ veltter þier i Maurunū / og varla veiſt hvad þu ſkallt af þeim giora: Þegar þier var kaſtad in̄ i Heimen̄ under eins z fatækis Barnenu / Hvad hafder þu til meira um̄ed af Gude helldur en̄ þad ? Vorud þid ecke bader eins i Syndeṅe giefner ? Barſt þu nockud meira med þier in̄ i Verollde na helldur en̄ hn̄ ? Edur muntu meira i burtu bera: Hvar fyrer var Gud þa ſkylldugur til / ad giora þig rijkan̄ / en̄ han̄ fatækan̄? Ecke til þeſſ / ad þu ſkuler kappala þin̄ ſyndugan̄ Luk eins og þeſſe Dare / Ecke til ad bua þig i

Skart eins og hn / ecke til þss ad upphefia þitt Mark edur festa þad vid Audeñ/ eñ gleima þynum Broodur sem ad Naudstaddur er/ helldur til ad dyrka sig þar med / og leggia svo miked af vid hñ sm̃ Gud kref- ur / þvi hñ er Husbondeñ/ eñ hañ krefur svo mikels/ sm̃ hinu Volada mæ verda hoolped med / og þu kant vel ad missa / og þad jafnañ nær þu sier edur heyrer eitt Naudstaddañ / og nær þu þad sier edur heyrer/ þa vit / ad þar er komeñ eiñ Skullda-Madur fra Gude til ad beidast þess er hañ lænad hefur / og þu hefur Ofmiked/ eñ hañ mæ vel biarg- ast vid. Þegar þu krefur Skulldar þiñar hia Aumingia nockrum/ og hañ hefur þad ecke til sm̃ hañ skal giallda/ edur hañ mæ þad ei missa/ æn sns stoors Baga / þa krefur hañ þig under eins i Guds Vm̃bode þeirrar Skulldar/ er þu ætt hønū ad luka/ eñ hañ hefur Befælingnū giefed/ Lææter þu hana ecke til/ þa verdur þu Skullda-Pricktur Guds/ Jæ/ Þioofur i hañs Auglite/ þar þu stelur ur siælfs þyns Hende/ og hiñ strange Husbonde mun krefia þig Avaxtar Fiær syns i Tollbud eñe hia þeim Ryka Mañe/ nær þu uppvaknar i Helvyte og Kvølunū eins og hañ / nema þu brukerRaad Danielis / er hañ gaf Nebuchad- nezar Konunge / Dan. 4. og afplænar Ranglæte þitt med Olmusu- giørdum vid Fæækæka/ Heyr þvi Salomonis Ord/ er hñ seger/ Prov. 3. Gleim ecke ad giøra þeim gott sm̃ byriar/ nær þyn Hønd hefur Efne þar a/ Seg ecke til þyns Naunga/ gack burt og kom aptur/ a Mor- gun vil eg giefa þier / og þu hefur þad þo/ Og læt þier þ sagt vera/ ad hiñ Volade hefur miklu meire Riett til þess / er þu eignar þier / helldur eñ siælfur þu til ad bruka Guds Læn til Ohoofs og Metnad- ar/ hvert hñ margfalldlega bañad hefur. Drotteñ seger fyrer Muñ Hoseæ/ um̃ Gydingaña Samkundu/ Hos. 2. Hun veit ecke ad eg er þad sem gief heñe Korned og Mustena og Oliuna/ og fæ heñe mææg- ianliga Silfred og Gulled/ er hun giører Baal af/ Þetta a miøg svo vel heima hia þeim / sem Gud hefur feinged i Hendur alls Nægter Fiær / eñ þeir draga þad af hañs færædum Limum / i hverium hañ skipad hefur ad dyrka sig / eñ bruka þad til ad ala siñ Lauslætañ Kropp / til Nidur-Dreps hønum sem Ranginde̛ñ lydur/ til ad hefna

a

a Ovinum sijnum. Þesser giora Baal ur þeim Alutum sem goodet eru i sialfum sier/ og selia hañ i Guds Kyrkiu/ sem vera alle Markā þeirra/ þ er hina orgustu Svguirdingu Foreydsluñar i þañ Stad sem alle ad vera hiñ allra Helgaste. O Gud betre vorar Tijder/Satan hefur Kaupmeñ sijna i Guds Kyrkiu medal vor / þad er i Mañaña Marfum / hveria hañ giort hefur ad Raningia Bæle / ei sijdur eñ Gydingar fordum Mustered/ Eñ hvad selia þeir þa og kaupa ? þeir selia hiñ Riettlæta fyrer Peninga/ og hiñ Volada fyrer eina Skoo/ þeir troda Høfud Fatæktra i Saurefi/og umsturna Begum þra Hægværu/ Amos 2. eñ uñi sijder selia þr sijnar eigeñ Sæler. Þess giet-ur Syrach i 10. Cap. med þessum Ordum : Eckert er Ranglæskara Fegiornum Mañe/ seiger hañ/ þvi hañ lætur fala Sælu sijna/ Þar fyrer seger Frelsareñ / ad lijted gagne þad Mañenum / ad hañ eigneft allañ Heimeñ / og lijde Tøpun a Sælu sinne/hvar uñi þesse rijke Mad-ur mun ølluñ þeim kioost Dæme vera/er elska Kroppeñ meir eñ Sælena. Ecke stendur hier i Gudspiallenu / ad hañ hafe vered illa komeñ ad Audsiñu. Þad var hñs Fordæmingar Søk / ad hañ brukade hañ til Ohoofs / eñ gleimde hinum Naudstadda z Fatæda. Nu ef hñ freck svo stielslegañ Doom/hvad vilia þeir þa seigia a medal vor / sm ecke einasta sijnga ur sier Augun nær þeir sia eiñ Þurfamañ / edur añañ/sm vitiur Bake brotnu fyrer þvi er þr bruka til Munadar sier/ helldur og rya Guds volada Saude/og eta sitt Braud i þra Andlitis Sveita? Hvad munu þeir seigia vilia? Hvers munu þr vænta sier nær þr eiga ad skilia vid allt þ er þr med Ranginda hafa samañdreged? Moltkeñ seiger vid Konungeñ af Tyro / Ezech. 28. Þu seger / Eg em sterkur Gud/ eg by i einu Guddoomligu Herberge/ eñ skøññu sijdar verdur honum sagt: Muntu nockud seigia vid þañ Veganda / Eg em sterkur Gud? Længtum eru þr miñe Maktar eñ Konungureñ af Tyro him oss/er sig giora nærre þvi ad Gudum/ þegar þr upphefia sig yfer Guds Ord og Konungsens Løg / þegar þeir fella hiñ Saklausa / eñ hefia Skalkiñ / og þyker svo sem þad stande i sijnu Vallde ad rada fyrer hvers Mañs Giæfu og Ogiæfu / eñ þegar Daudeñ kiemur svo

sem

sem ein Wolldug Nefia og kastar þeim i Bana-Sængena/ þegar Sam vitskan tekur til ad hyta/ þegar Misining Glæpanna tekur ad Ofbiooda þeim/ þegar Satan sem hefur flekad þa til allskonar Odæda/ þegar hann reider Svipuna til/ og syner þeim Nelvytis Loga/ hvar hinn ryke kvelst og kveliast mun umm Allder Allda / enn Guds Reidar-þruma slær af Himnum ofann/mun þa vesæl Manneskia seigia/Eg em sterkur Gud? Neyred þetta / O þier sem utsiuged Hus Ecktna og Fødurlausra / og leited OKollens a medann hann er ad finna. Niner ægiørnu og Ofrykismennerner eru med tvennu Moote/ sumer færa Foorner Nete synu/ og brenna Reykelse fyrer synum Veidarfærum/ þviad fyrer þau er þra Nlutur feitur vordenn/og þeirra Matur hinn beste/svo sem Nabacuc ad Orde kiemst i 1. Cap. Þetta eru þeir sem reikna þad til sine goodre Forsioon( riettara ad seigia / Rangsleitne sine og Underhyggiu) ad þeir eru ryker vordner/ og feiter af annara Braude. Adrer eru þeir ed seigia/blessadur siert þu OKotten/þad eg em rykur vordenn/enn drepa þo Slatur-Sandena med Ofbellde / og einginn er sa sem ad fæde þa edur bruke Medaumkun med þeim / eins og þesse same Spamadur ad Orde kiemst. Þetta eru þr sem af Gude og enu hærsta Vallde eru yfer adra setter til þess ad þeim lyde vel /enn giøra þo eckert þad sem Gud og Konungurenn bodeb hafa / helldur eta i kryngum sig eins og Ulfar og Byrner/og syna þeim einga Miskun er under þeirra Wallde stynia/ helldur kalla / her hyngad / her hyngad / og nær þeir hafa svo drucked Blood Vesalinganna / þacka þeir Gude svo sem fyrer Riettfeingenn Søfn. Nverier af þessum verre sieu / er eige svo audvelldt ad seigia / nema þad/ ad Nræsnenn giører hina sydare andstyggelegre i Guds Auglite/ þvi af tvennu illu þa er stærra ad eigna Nreckvysne sine Klækena helldur enn Gude. Nitt veit eg/ ad hnn seger umm hssa hveru tveggiu/Nab.2. Vei þeim er safnar þvi sem ecke er hns(hvar skal þad lenda)og hm ed samanndraga hinn þiekka Leyr. Vei þeim sem er giefenn fyrer Rangfeingnu Abata fyrer Nus sitt / ad hann bue Nreidur sitt i Nædunum/ ad hn verde frelsadur af Vallde hins vonda/ þu hefur eitt skammarlegt Raad teked fyrer þitt Nus/ z upprætt margt Foolk

og

ur hañ funded/ samañ kallar hun Vinkonur sijnar og Grañkonur/ seigande: Samglediest med mier / þvad eg hefe mitt Pening aptur funded/ hvørium eg tijnda. Lijka so og seige eg ydur / þad Fögnudur mun vera fyrer Englum Guds yfer einum Syndugum/ þeim ed Yferboot giører.

## Exordium.

EG Em Auglystur þeim sem ecke spurdu epter mier / Eg em fundeñ af þeim / sem ecke leitudu ad mier / Eg sagde: Siaed mig / siaed mig / vid Foolk þad / sem ecke nefnest epter mijnu Nafne/ seiger DRotteñ / Esa. 65. Þesse Spaadoomur a ad skiliast um Heidnar Þiooder / þad Foolk / sem sat i Myrkrunum / og var aan Christo / fraskilder Israels Borgar-Riette / Framande i Saattmaalum Fyrerheitesins / hafande einga Von / og Gudlauser i Heimenum / svo sem Paulus vottar / Eph. 2. Hvar Postuleñ meinar alleina þau Fyrerheit / sem Gydingum voru sier i Løge gefeñ / svo sem ad þar skyllde upprenna eiñ Kvistur af Root Jesse / og adrer þvilijker Spaadoomar / sem høndla þar um / ad Messias skyllde fæddast af Gydingum / eñ ecke þin Almeñelegu / sem øllum gefeñ voru / svo sem þegar Gud hiet Abraham / ad i hañs Sæde skylldu blessast allar Þiooder / Gen. 22. Hvad liooslt er ecke einasta af þinum mikla Framgange Evangelij / strax epter Himnaför DRottens / er hañ ad sigrudum Dauda / Diefle og Helvijte / took Einvallds Stiorn i siñe Kyrkiu um allañ Heimeñ / hélldur og spaer Gud þar um fyrer Muñ Hosea 2. Cap. seigiande / Ad Tala Israeliti skule verda svo sem Siaffar Sandur / hvern eingeñ giete mælt, nie taled / Eñ svo sem a Døgum Hosea var Israel svo langt nidursokiñ i Gudleysesins Afgruñ / ad hañ villde þeim ecke framar myskunna / þad þeir ecke smaamsamañ Herleidder yrdu/ Svo og er ad Ottast fyrer a þessum verstu og sydustu Døgum / ad Christneñ/ hvørla Guds Sonur hefur med sijnu Bloode afrekad/ hun meige verda køllud Lo-ruchama edur Nadarlaus / og ad marger hennar synelegar Limer muni verda Konunge Myrkrañna ad Braad / nema Meñ bæte siñ Christendoom og take sier añad Hattalag / hélldur eñ almeñelega tijdkast. Snemma hoof Brudgumi Myskunarenar ad auglijsa þad/ ad eckert Mañgreinar Alit være hia sier / þegar hañ took vid Bersyndugum og Tollheimtu Mønnum / hverier ed voru af Phariseis bølvader Mañeskiur hallder / og eingeñ villde med þeim Sess nie Samneyte eiga / Eñ ecke skiede þad þess vegna / ad þeir voru Bersynduger og Tollheimtu Meñ / þvi allt tijd er Gud samur vid sig i þvi / ad ei lijkar hønum Ogudlegt Athæfe / hélldur hitt / ad þeim lær hvad mest a / og þegar aller høfdu fordæmt þa / villde hañ ecke fordæma / sem alleina hafde Valld til / ad Riettlæta. Svo skulum vier og ecke meina / ad vier edur Fedur vorer hafe Myskun hloted af þvi / ad þeir voru Heidingiar / þvi Heidingia og Tollheimtu Meñ leggur DRotteñ ad Jøfnu / Matth. 18. hélldur epter mikille Myskunseme siñe / hefur hañ oss Hoolpna giørt / svo sem Paulus vottar / Tit. 3. Þad giører JEsus best i þessu Gudspialle med Epterlijkingunne um hiñ tapada Saud og tijnda Pening. Eñ ef vier afræktum þessa Naad/

er

er oss svo leinge hefur frambodest vered / sumum Forgiefens / kan skie ( hvad Gud nade og betre ) þa dyllumst ecke vid / ad vor Doomur mune þess þyngre verda / helldur en hinna Natturlegu Kvistana / sem ad þeim helldur tilheyrdu Frvrerheitenn en oss. Eg vil wt af Gudspiallenu alleina hugleida i þetta Sinn. 1. Hversu Nadugur ad Gud sie i þvi / ad leita epter oss. 2. Hversu treger vier sieum i þvi / ad láta oss finna.

Styrk oss hier til Giæskuryke Fader med Krapte þyns Anda / fyrer JEsu Christi Forþienustu / A M E N.

# Vtleggingen.

MEiningenn i þessum fǫgru Epterlijkingum hlijder sier i Lage uppa þa / sem Stoor-Synder hafa drygt / eru fallner fra Guds Vinattu i hans Ohlijdni / og þaneg forbroted Guds Barna Riett og hans Faderne / sem sia maa af Epterlijkinguñe um hin For tapada Son / er i þessu sama Capitula strax a epter fylger. Nu ef vier rannsǫkum vora Lijfernis Hattu/ Christner Menn / þa mun einginn vera sa af oss / ad ecke finne hann i Samvitsku siñe / ad hann hafe Guds Naad þrafalldlega af sier broted / og ad hann þar fyrer sie Daudans sekur. Ecke er þad noog/ ad vier ei drygium þa Glæpe sem vinna til Vtsetningar af Kyrkiuñe / þad er betra ad vera utrekenn af Samkunduñe / helldur enn fra Guds Nadar Stoole. Margur mun sa innst i Kyrkiu/sem ei munde inn fyrer Himnarijkis Dyr koma/ ef hann dæe i sama Hattalage. Hvad vardar um þad / þo einginn vite / ef þijn Samvitska veit ? Hvad gagnar ad dyliast fyrer Moñum/þar allt er þo oped fyrer Guds Auga / Vilier þu þar fyrer sia Guds Giæsku i þvi ad leita ad þier / og kalla þig Syndugann til Ydranar / þa skoda hvar fra þu fallenn ert/Apoc. 2. Drottenn samlijker svoddann hijndre Mañeskiu glǫtudum Saud/ og er þ nærsta vel tilfunded/ þvi hann er sa goode Hyrder/ Joh. 10. Enn vier foorum aller villt sem Sauder/seger Esajas Cap. 53. og fǫrum Daglegana. Saudum erum vier lijker i Einfelldneñe og Fafrædenu/ enn ecke i Meinleysenu/ Bǫrn i Vilskuñe/ enn ecke i Hreckvijsseñe/þvert a mooke þvi/sem Postulenn bijdur/1. Cor. 14. Hier maa sia i Gudspiallenu/ad Madurenn hefur hallded Niørd siñe a Beit i Eydemǫrku / og hvad mun einn Voladur Saudur Guds vera i Eydemǫrku Verallðar þessarar/ef hann villest fra hinum gooda Hyrder/

er / hver ed geingur undañ ſijnum Saudum. Þegar DRotteñ var reidur Jſrael fordum/ og hiet ad uthella yfer hñ Bræde ſiñe/ þa ſeger hañ hiꜳ Hoſeam i 4. Cap. Ad hañ vilie fæda Jſrael/ ſvo ſem eitt Lamb a Vijdlendenu / eñ hvad er eitt Lamb i ſvoddañ Plaitze / eckert añad eñ Bræd Vargaña/ og þo er þeim midur fared/ ſem med Syndū og Glæpū hefur giørt ſig vidſkila hiñ Oſijnelega DRottens Saudaflock/ hverier ad þeckia ſiñ Hyrder/ og af hønum þeckter verda/ Joh. 10. Þad er hin ſaña Guds Christne og Søfnudur hañs Riett-truadra Barna. O hvilijk er þa Giæſka hiñs bleſſada Hyrders / ad hañ virdeſt til ad leita ad ſvoddañ tijndum Saud. Nakvæmliga utmalar DRotteñ ſitt Fødurlegt Hiartalag i þeſſare Eptterlijkingu. Ecke yfergiefur Gud hina Riettlætu / ei þarf hañ helldur ad yfergiefa þa/ til ad leita ad þm̄ ſem tapadur er/ Eñ uppa þad ad þu vita meiger/ ſyndugur Madur / hverſu giarna ad hañ vill ad hiñ Ogudlege ſnue ſier og life / þa jafnar hañ ſiñe brenande Elſku ſamañ vid þañ Mañ / ſem lætur ſier hvad ſæraſt vera til þeſſ ſem villt hefur fared/ Jꜳ/ ſærara til eins af þeim/ helldur eñ til allra hiña ſem vijſer eru. Þeſſa Guds Fødurlega Giæſku ættū vier ad læta ſmellta Hiarta vort/ þegar hañ leitar ad oſſ Daglega i ſijnu heilaga Orde/ oſſ ſm̄ ad Daglega ſyndgumſt / og ei viñum nema til Hegningar. Nær giører hañ þetta ? Þad giører hañ nær hañ ſijner oſſ i Løgmalenu / hverſu miøg vier høfum viked af hañs Vege / þegar hañ lætur ſiña Bodorda / ſiña ſtrøngu Hootana Þrumu lemia um̄ Eyru Syndarans / nær hañ Daufheyreſt vid hiñe Blijdu Rauſt þeſſ gooda Hyrders / og ecke vill læta ſig med Guds Nadar Fyrerheitum leida a hiñ rietta Veg / þad giører hañ nær Syndaranum vid þetta Reidar-Slag Ofbiooda ſijner Glæper/ og hañ ſeger med David : Þar er eckert heillt a mijnu Hollde fyrer þiñe Ognan / þar er eingeñ Fridur i mijnum Beinū fyrer mijnū Syndū/ Mijn Sar lykta illa og flioota af Greftre þ miñar Heimſku Saker. Þegar hin fravillta Saudar-Kynd ecke rædur ſier þañeg fyrer Ofbode Helviitis Pijſla / þa mun Guds Hiarta breſta i hønum ſvo hñ hlijtur hønū Myſkunſamur ad vera / Jer. 31. Þa mun Christi

Ande

Ande bidia fyrer hefie med Oumrædeligum Andvørpunum / Rom. 8.
Þa mun hun og brmlt heyra/ Þoott ad þijnar Synder sieu raudar sm
Blood / þa skal eg þær Sniooþvijtar giøra / Og þoott þær sieu sem
Purpure raudar / skulu þær Vllhvijtar verda / Esaj. 1. Og þafieg
fer nu hiñ goode Hyrder ad leita epter hinum tijnda Saud. O hvilijk
Fødurlig Giæska. O hvilijk brennande Elska. O þad Orannsakan-
liga Afgruñ DRottens Myskunar Ydra: Komed hijngad aller þier
sem Erfvide dryged / og þunga erud þiader / hañ vill Endurnæra
ydur/ Matth. 11.

ÞAr Mun VErda MEire GLede i HImnenum YFer EInum SYndara / Sem YDran GJører / HElldur Eñ YFer NJu og NJutiju RJettlætum/seger DRottenn : Hiæ hverium kun su Glede vera? Hia Gude og hañs blessudum Einglum / Þar munu glediast Einglar Fridarens / Esa. 33. ad þeir siæ sitt Erfvide hefur ecke forgiefens vered / Þar munu fagna vorer Vardhallds Einglar / sem eru Þioonustusamer Andar/ utsender þeim/ er Sæluhiælpena erfa skulu/ Heb. 1. nær þeir merkia / ad þeirra Verk færer svo goodañ Avøxt/ad þeir fæ aptur bættañ þañ Skada/ er Satan vañ þeim/nær hañ droo Þridiung Stiarnaña / þ er Einglaña þeirra Stallbrædra i Afgrunn Myrkraña med sier / þa hañ fiell af Himne/ ad þeir fæ hañ bættañ/ sege eg/med Fyllingu Vtvaldra Guds Barna/sem Ydran giøra/Þar gledst Eingell hiñs mikla Rææds / nær hañs dijra Blood hrijn a einum færædum Syndara/sem Ydran giører/hñ reiknar ecke þau Bøndeñ/ þau Høggeñ/ þa Hrækana/ þa Hudstrokuna/ þañ Þyrne-Kranseñ / þañ Hrakningeñ/ þa bitru Þijsl og Helvijtis Kvaler/ er hañ Saklaus leid fyrer Þverbroteñ Syndara/ nær hñ ydrast af Hiarta/og lætur af Glæpunum / su Gledeñ yfergnæfer / ad hañ hefur Saud siñ aptur-funded þañ er Glatadur var/ Jæ/ øll Guddoomsins Þrefiing fagnar yfer Apturhvarfe Syndarans / Fadereñ / þvi hañ elskar oss i sijnum Elskulega Syne / Sonureñ / af þvi hañ hefur oss Verde keypta / Heilagur Ande/af þvi hñ er Pantur Arfleifdar vorrar/ þvi seger og Drotteñ/Hos. 6. A Myskunseme hefe eg Þocknan og ecke a Offre/

 til

til hvers Lyknar Ords DRottens vijſade Phariſæunum/er þeir møgl-
udu um̃ þad/ad hñ æte med Tollheimtu Møñũ/ Matth.9. Fared
þier/ſagde hañ/ og læred hvad þad er/ Myſkun vil eg/ og ecke Offur /
þvi ei kom eg ad kalla Riettlaata / helldur Synduga til Ydranar / Og
hvad er þad ſm̃ auglijſe meir Guds Guddoomliga Aſt til Syndarans /
helldur eñ þad ſem hier ſtendur i Gudſpiallenu ? OG þa Nañ hefur
NAñ FUNDed / LEGGUR Nañ ÞAñ SAma Med FØGN-
ude A NERDar SJer. Nañ ſlær hañ ecke nie lemur / ei rekur
hañ med hardre Nende undañ ſier / helldur leggur hañ a Nerdar ſier /
þar til hañ nær til Niardarennar/ ad hañ ecke aptur tijneſt. Svo er
og Gud vid Syndarañ Naadugur / hañ gleimer øllu þvi ſem undañ er
fared / hañ ſkilur ecke hiñ villta Saud epter i Naadleyſu og Nugar-
Vijle/ helldur ſijner hønum med Vitnisburde Neilags Anda / ad hans
Syndum ſie kaſtad i Naſſens Diup / ſvo þeirra Miñing ei ſkule upp-
koma ad eilijfu. Þeſſa Grunlauſu Aſt utmaalar DRotteñ merke-
lega / Eſa. 46. ſeigande: Neyred þier mier af Nuſe Jacobs / og
aller hiner ſem epter eru af Nuſe Iſraels / þier hveria eg ber i minu
Lijfe/ og med hveria eg geing / Jaa / Eg mun bera ydur allt til Elle-
Daga/og þangad til þier graaer af Nærum verded/eg vil upphefia /
bera / og frelſa. Nvad opt leſum vier i heilagre Ritningu/ ad Gud
hafe ydrad þſſ Illa ſm̃ hañ ætlade ad leggia edur hafde lagt a Mañ-
kyned(ſvo utmaalar hañ ſijn brñande Myſkunar Ydur epter Mañ-
legum Plagſid) eñ ſialldnar ſkulum vier leſa / ad hañ hafe ydrad þeſſ
Gooda ſem hañ hafde giørt / þvi ſvo miklu yfergnæfer Naadeñ Reid-
ena og Myſkunſemen Riettlæted / þar fyrer ſeiger hañ og fyrer Muñ
Noſeæ i 13.Cap. Um̃ þa Naad er hañ hugde ſyndugu Mañkyne ad
veita i Chriſto: Ydranen er huld fyrer minu Auglite / þad er / eg
ſkal þeſſ alldrei ydraſt. O hverſu er Gud oſſ ſyndugum Møñum
þa Olijkur/ hønũ leideſt alldrei gott ad giøra/ eñ oſſ alldrei ad fremia
hid Illa. Nañ ſeger hiaa Joel / Cap. 2. er hañ utteys ſijnum diupu
Myſkunar Ydrum yfer Syndarañ : Eg em Naadugur og Myſkun-
ſamur/ mikellrar Goodgyrne / og ſa ed ydrar þeſſ Illa/ hvar hid Illa
merker

merker Guds riettferduga Hefnd yfer Glæpum Mañanna/ eñ Mañeskiañ lætur sig svo lijtt ydra þra fulu Skañia er hun reiter hañ til Reide med. O hvilijk er þa Giæska DROttens/ ecke einasta i þvi/ ad hañ hefur Þolenmæde med Jllgiordum vorum / helldur og leitar epter oss a allar Lunder / og tekur a moote einum Syndugum sem Ydran giorer med allskonar Blijdu. Mikel var Ydran Jonæ Spamañs / og þo ecke miñe hñs Tru / ad hñ epter þad hñ hafde jatad Misgiørd sijna/ vogade þo ad læta kasta sier ut i hid brusanda Haf / Eñ þo var eñ stærre Guds Fodurlig Giæska / er hañ sæktest svo brædt vid hañ og svo algiorlega / ad hañ tilbioo honum Vist i Hvalfiskiarens Kvide. Þesse Guds undrunarlega Hiarta-Giæska ætte ecke einasta ad leida oss til ad sættast vid hñ svo opt sm vier hoñu a moote brootu/ helldur er þetta ein Obrygdul Huggun fyrer þa sm under sitt Andlat ydrast. Stoorlega hafde þsse Guds Madur syndgast/ þar ed hñ þeckte Guds Mætt / og talade vid hñ eins og Madur vid Mañ talar / Jon. 4. Og sette sig þo upp a moote hans Bode/ Eñ hañ er svo brædlega tilgaf honum þessa Hrooplegu Synd/ mun hñ ei bæde kuña og vilia forlæta þier þijnar Jllgiørder / ef þu ydrast þra af Hiarta/ þoott ei hafer þu længañ Frest til Ydran/ varla mun nockur Syndare vera meire Hæska vidkomeñ eñ hañ var þa / og þo vogade hañ svo a Guds Myskun / ad hañ sagde / Cap. 2. Eg em utkastadur fra þijnu Auglite / eñ þo skal eg ecke læta af ad horfa a Mustere þijns Helgedooms / hvert var þad Mustered ? Þad var Guds Myskunar Hiarta / hvar var þad ? Þad var jafnvel i Fiskiarens Kvide/ Lat þier þvi sagt vera/ ad þu ert alldrei i þeim Stad staddur / hverke a Sioo nie Lande / hverke i Vatne nie Ellds Voda/ ad ei sie hñ þier Nædugur nær þu af Hiarta Fridmælest vid hañ/ og i einu Orde ad segia/ þar er Mustere hañs Guddooms sem þu akallar hñ i Anda og Sañleika / eñ þessa Guds Næd att þu ecke ad bruka til ad draga sialfañ þig a Tælar / svo sem þu villder hafa þad fyrer Lijf-Atkiere Saluhialpar þiñar/ ad Gud hefur epter sumum leitad alla Æfe þeirra / eñ funded þa kañ skie ecke fyrr eñ a Daudastunduñe/ og lagt þa svo sier a Herdar / og bored iñ a Land lif-

ande Maña: Erfu þar fyrer Ranngeygdur þoott hañ sie Goodgiarn? Þoott hñ hafe svo vid nockra giørt sm̃ nu er mællt/Þra Orsaka vegna sem hañ sialfur veit / Er hañ þar fyrer skylldugur ad giøra eins vid þig/ sem forsmaaer Ryk dom hñs Langlundar i Oftrauste hñs Nad ar/af þvi þu veitst hñ er Myskunsamur. Speamadureñ er eg strax uñgat/hañ var Guds Madur/ hañ þeckte bæde Guds Giafku og hñs Riettlæte/ og þo hønum yrde þad a ad syndga svo stoorliga / þa vard hønũ þad og fyrer ad ydrast strax sem Gud liet hñ þeckia Synd sijna/ eñ þier mun baagara uñ ad giøra svo sliooka Ydran sm̃ alldrei þeinkt er nema uñ Glæpena / og hverneg þu kyñer þeim sem best i Verk ad koma / Þad hender Guds Børn/ ad þau falla i stoorar Synder/añad hvert af Gaaleyse eins og Moyses / af Brædræde eins og David / af Otta eins og Petur/ Þetta skiedur þegar Vilieñ rædur fyrer Skynsemena/Andeñ lætur sigrast af Holldenu/eñ þau ydrast aptur af Hiarta/ þau væta sijna Saang i Taarum med David / og græta beisklega med Petre/ Eñ sa Gudlause hefur einga Hyggiu / hañ þeinker ei añad eñ hverneg hañ meige hinu Illa framkoma / og eyder øllum Saalar og Lijfs Krøptum til ad fylla Syrnd sijns illfusa Hiarta. Þoott nu ad Guds Fødurlig Ast til Mañkynsens sie jafnañ buiñ til ad taka vid Syndaranum/ nær hañ snijr sier til Yferbootar/ þa kañ eg ecke ad segia/ ad þess Hattar Mañeskium mune vera lieft uñ Apturhvarf / þvi Guds Raust er miøg svo hardtalud a moote þeim/ er hañ seger i Mich. 2. Vei þm̃ sem hugsa Raanglæted/ og þeim sem stunda uppa hid Illa i Svefn Husum sijnum / ad þeir vilie framkvæma þad þegar byrter / nær sem þad er i Vallde þra. Sieae nu þeir til sem ætletia ad temia sier þvilijkt Hugarfar allt fram̃ i Daudañ/ hvert þeir mune eiga Hlut i þessare Guds Giæfku / uñ hveria eg læt nu ad svo stoddu uttalad vera / jafnvel þoott hun alldrei uttølud verde / edur noogliga prijsud uñ alla Eilijfd / Og vil svo koma til hins Sijdara er eg hiet uñ ad Ræda.

Svo er nu Gud Nadugur til ad leita epter oss / sem eg hefe sagt / Eñ hversu erum vier nu audvelldez til ad læta oss finna? Gud hroop-

ade

ade a Adam/er hañ hafde syndgast/og sagde: **Hvar ert þu? Og eñ nu** hropar hñ a oss Daglega i sijnu N. Orde/nær vier ad Dæme þessa vors Fodur brioofuñ hñs Skipaner / þad fauñ vier ad fiña i hñs Tiju Laga Bodordū/sm̃ vier aller læra eigū/strax a unga Alldre. Adam og E-va faldu sig / er þau merktu Guds Raust i Aldengardenum / eñ strax sem hñ kallade Mañeñ vid Nafn/ þa ansade hañ og jatade Synd sij-na. Svo er þ eñ nu fyrer oss/ad a Vngmeñis Arum vorum heyrum vier ad sofnu Raust DRottens i hñs Logmaale/vidlijkt og Adam Þit-eñ af hñs Ferd um̃ Alldeñgardeñ/eñ þa verdur oss þad fyrer/ ad skijla oss a medal Eikaña/ þ er i Fawitsku Barndoomsins/og meinuñ ad vier kuñum ad dyliast fyrer Gude/ Ef vier gietum duleist fyrer þeim / sem oss er til truad/og vid oss eiga um̃ ad vanda/ svo er nu Spilling Náttur-uñar frábær i þvi / ad láta sig ecke fiña af Gude/ þoott epter Mañ-einum sie leitad / eñ þess være Oskande / ad þegar vier erum komner til Vits og Ara/og Gud kallar oss med Nafne/ad vier þa ecke Althlerar værū/heldur breytlū epter Fodur vorū i þvi/ ad dylia ecke leinge med oss Synd vora. Þu munt adspyrka hvad þad sie/ad Gud kalle eiñ med Nafne / þad kalla eg ad vera/ nær hñ i sijnu Orde straffar þær Synd-ernar/sm̃ þu ert sekur i/eñ þu villt ecke vid þær kañast/añadhvert af þvi/ ad þu kallar þad litla edur einga Synd / er þu vel mátt þeckia Synd ad verā/edur og ad þu ert svo Forherdtur i þm̃ stooru Syndun-um/sm̃ aller Glæpe kalla / ad þu ecke Ydrast þeirra/Vaneñ er vordeñ svo rijkur i þisse spillt re Náttúru/ad þu ei þecker Armood þiñ z Fá-tækt i Guds Auglite / edur ad Gud er svo smær i þijnū Augū / ad þu ætlar hañ mune ecke forsmæa þañ sm̃ hñ Vanvirder/ 1. Sam. 2. Þeg-ar Meñ hafa nu Grein af einhveriu þessu / erum vier þa ecke nærsta fortvellder til ad láta oss fiña? Þegar vorer fyrstu Forelldrar / af Gyrndeñe til ad þeckia hid Jlla/neyttu þess Avaxtar / er þm̃ bañadur var/ þa hlutu þau Ofk sijna/ eñ þad fyrsta Jllt er þau þecktu/voru sialf þau og þeirra Fatleyse. Af þessare fyrstu Gyrnd hiñs fyrsta Mañs / er iñsmogeñ til allra Maña nockurskonar Þorste til ad vita þad sm̃ Jllt er/hvadañ flestar Oðygder og Lester sprettta/eñ þess være

Oskande/

Oskande / ad fyrst vier einustiñe høfum rakad i þeкka Spillingarenar Náttalag/ad oss þa yrde hid sama fyrer / eins og vorum fyrstu Forelldrum/ad vor Augu lyktust upp/svo vier þecktū sialfa oss z vora Blygd an / vorn Veikleika og vora Obyrgd / og ad vier stadfaster værum i Hugleidingu þessarar vorrar Omyndar / þa munde hiñ goode Hyrder ecke einasta fiña oss likinda Saude / helldur mundū vier leika hañs Andlitis strax sem hañ kallar / hañ munde breika vid oss eins og þau / og klæda oss / ecke med Skiñ-Klædum eins og Forelldra vora / helldur med þvi Riettlætis Kyrtlenum/er hañ utvegade oss þegar hañ Nudflettur var : Eñ fyrer þvi ad vier erum svo Toomlater i slijku / þa fylger þ a epter/ad vier sneydū Nimeneñ þeirre Glede/ sem hañ hefur af einum Syndara/sm̄ Ydran giører/og sialfa oss þeirra Samneyte sm̄ i hønum bua / þar vier kioosum helldur ad eta Drafed af Svijna Troglenum / ia/ad hverfa aptur eins og þau til Leyrvellkunar / helldur eñ ad leita til Hybijla vors Fødur / mettader verda med Abraham / Isaac og Jacob af Nægtū Guds Huss Eilijflegana. Þegar eiñ Syndare ydrast af Niarta/ og lætur af Glæpunum/ þa kallar DRottiñ ad hañ hafe Saud siñ funded / Eñ hversu tregkomed ad sie til þess mørgum Manne / þad er audsied af Glæpunum / sem Heimureñ er fullur af. DRottiñ seger fyrer Muñ Zophoniæ Cap. 3. er hañ talar um̄ þa Naad/ er hañ heiter ad veita oss i JEsu Christo. Eg vil um̄breyta Vørum Foolksins/ad þær sieu hreinar/og skømu þar epter seger hañ: Epterleifar Israelis skulu ei Ranglæted fremia / og þeir skulu einga Lyge mæla/og i þeirra Muñe skal ei følsk Tunga fiñast. Þesse dijru Spaadooms Ord/heyra og vorum Tijdum til/og mun ei þrioota þar til Verølld þrijtur/ þvi svo leinge hefur Frelsareñ lofad/ad vera hia oss. Eñ hlusted til hverneg DRottiñ i þssū Ordū / utmalar hiñ Andlega Israel/Christner Meñ. Munu þeir vera af þvi Sauda-Huse / sem lasta Gud med Orde og Verke / þeir sm̄ eckert Lof syngia hønum med Muñe sijnum / þeir ed falska Eyda viña vid hañs hrædelega Nafn / liuga / baktala / rægia og brugga Svik med Tungu siñe sijnū Brood ur sm̄ med Guds Sonar Bloode er Endurkeypur ? Langt er fra þvi / þeir

þr eru eingu sijdur enn Guds i Neimenū/ og fiarlæger Israels Borgar Kiekke / helldur eñ hiner verstu Neidingiar/ uñ hveria Paulus talar/ Rom. 1. Giored þvi Ydran i JEsu Nafne / O þier hin fræsnunu Bornen̄/og leited DRottens a medañ hn̄ er ad finna/svo þier af honū fundner verded. Eckert er þ sem meir hindrar Gudrækne vera/ helldur eñ Vndañdrattur Ydranarennar / hverneg kann Guds Ast i honum ad bua/ sem ei Daglega lætur sig þad angra / ad hañ hafe svo Nadugañ Gud styggdañ/hver ed i svo mørg Ar hefur leitad a allar Lunder epter hans Velferd / og viliad leida hañ med Giæsku sinne og Rijkdoome sinnar þolenmæde til Apturhvarfs. Vier þeckiū ad sønu Glæpe vora/ vors Guds Fødurlegt Nianka kønumst vier og vid / i þvi / ad lijda þa. Vier jatū og vitū/ ad ei verdur þeirra Sekt burtteken̄/nema þeir verde med beiskum Tarū afþvegner/ eñ hversu fæer eru þeir ed giøra sloddañ Ydran / sem þeim ad nockru Leite meige sambiooda. Vær erū nærre þvi eins Lynder og Guds Foolk/ epter þad Gud hafde leidt þa aptur ur Nerleidingunne / uñ hveria skrifad stendur / Nagei. Þetta Foolk seger: þar er ei komen̄ Tijme til ad byggia Hus DRottens/eñ hañ seger: Er þar Tijme til ad þier skulud bua i þilludum Husum / og þetta Hus skal svo standa i Eyde ? Oss hefur hin goode Gud af Omælañligre Giæsku sinne frelsad fra Diøfulsins Nerleknin-gu i Endurgiefningar Laugenne / eñ hversu treger erū vier og hisñer i þvi/ad uppbyggia hans Kyrkiu/sem er vort Niarta/med Endurnijung vors innra Mañs / eñ fyrer voru Jardnesku Huse berum vier nooga umhyggiu / og meina Kroppeñ / þañ Nam Sælarennar/þar hun sem er Husbondeñ fer þo i øllu Neideleyse. Eñ hvad seiger DRotteñ uñ sitt Foolk skømmu sijdar i sama Capitula: þier sæed miked og safnid litlu inn / þier eted eñ eingañ Vegen̄ til Sadnings / þier drecked og verded ecke druckner / þier klæded og verded þo ecke varmer / og sa ed Laun tekur / hañ leggur þau i rifen̄ Stood / Sama hender þa hælf-Christnu a medal vor/þa Volgu/uñ hveria Guds Ande talar i Openberingar Bookenne/Cap. 3. þeir vilia ad sønu Guds Børn heita/eñ þo forgiefens/ nema þeir briooke nidur þa Satans Capellu/J hvørre

hin gamle Adam pioonar hønum / og er hans Prestur þar ikke / En bygge Gude eikt nýtt Mustere i sýnum Limum med sanre Tru / lifande Tru/ Saluhialplegre Tru / hver ed verke fyrer Kiærleikan. Þeir sia miked / Þeir lesa Guds Ord / heyra pad / en þo med hangande Hende/ þvi safna þr litlu inn / svo varla nockud þar af verdur geimt i Korn-Hlødu Hiarkans/ þeim til Nota nær a þarf ad hallda. Þeir eta og drecka Holld og Blood Drottens/ en ecke til Sadningar/ miklu helldur til Fordæmingar. Christo hafa þeir adsønu Iklædst / en affært sig hønū apkur med Gudlausu Athæfe z þverbrotnu Hiarta-Lage. Þeirra Christendoomur er froken og hefur eingan Nalturligan Varma / og þau Laun er þeir meina sig ad hafa fyrer Lyking sinna goodra Verka / hver þeir giøra sialfū sier til Hroosunar/ en ecke Gude til Dýrdar / þeim hella þeir i rifen Siood / þvi hin sanna Aud mykt Hiartans er laangt þar fra / og svo Truen/ enn hverrar Omøgu ligt er Gude ad þocknast. Breytū ei þanneg/ Christner Men/ breytit ei þanneg / helldur lærum oss ydra þess sem undanfared er / Sundurkremium vor Hiørtu med Angre og Trega enn Hræsnes / og ecke um Stundarsaker / helldur Alvarliga / Idugliga og Dagliga/ þvi Daglega Syndgumst vier / og visium ævallt til Hegningar / annars mun Christendoomsens Nafn ad eingu gagna oss / eckert Heyrn Ordsens/ og eckert vor Kyrkiu-Gaangur/ vorar Ølmusur/ nie ønnur Goodverk / helldur mun þ verda eins og Drottenn seger fyrer Munn Haggai/ Cap. 2. Spyrted Prestana ad ef nockur ber helgad Kiøt i sýnu Kapu-Skaute/ mun hā heilagur verda ? Hverium Prestarner svørudu Ney/ Og enn apkur sagde hā/ Ef nockur sa s Ohreinn er af Daudyfle/snerter eitthvad þvilijkt/ hveriū þr svørudu : Pad mun Ohreint verda. Sama mun framkoma vid þa sem ei ydrast af Hiarta / og eru svo volger og toomlæter i Verke Salar sinnar/ pad Orded er þeir heyra/ Guds Lijkame og Blood er þeir medtaka/ Bænernar er þeir flapra ut af Munnenum / Kyrkian i hverre þeir byrtast fyrer Guds Augum / munu ecke helga þa/ miklu helldur þar þeir eru sialfer Ohreiner/ og ecke þvegner med Laug sannrar Ydrangar/ þa munu þr vanhelga þessa helgu Doma til

til Fordæmingar sier og eilijfrar Gløtunar/nema þeir hefur vande Yd-
ran sijna og Apturhvarf fra Syndunum/ Ef vid þessu Daufheyrast
Menn Almeñeliga/ jafnvel þoott þad sie Guds eiged Kaust i allre Kir-
ningunne/ Svo tregt veiter Heilagu Anda ad koma ost i Leitena / þegar
hiñ goode Hyrder ad oss leitar. O hversu liett giøra Meñ sier Yd-
ranar Verked? Vier meinum ad Lygar/ Skuldur/ Hoordoomar/ Gud-
lastaner / Meinsære/ z hiner verstu Klæker og Skamer sem Diøfulleñ
fær tilbued i Vankruarefiar Børnum/ verde med einu Tære af þvegn
ar/ og jafnvel þoott ei sie þ svo miøg af Grufie Hiartans/ Eñ Nini-
ve Borgar Meñ grieku Synder sijnar i heila 40. Daga. David sem
var hiñ kiæraste Guds Vinur/ hñ griet þo beisklega i Seck og Ösku.
Nebuchadnezar mætte af þvo sitt Kæanglæte med siø Ara Ydran. Eñ
hvad meinar þu þier byrie ad giøra / sem ert þier svo margra Synda
medvitande/ og þo eru þær fleire sem þu ecke veist/ ecke manst/og ecke
athugad hefur/og sumar kañ skie hallded fyrer litla edur einga Synd/
eñ ert þo ecke viss um/ ad þu hafer svo langañ Frest til Ydranar/ sem
ad Fiølda Giæpaña sambioode. Mun þier ei Þorf a ad læta þig
fiña af honum / sem øllu Stoorsyndurū/ Tollheimtumoñū og Puttū
hefur til sijn boded ? Reid þig ecke uppa Ølmusur Pharisæaña/jafn-
vel þoott Ølmusur sieu af Gude skipadar / þad heiter ad vilia kaupa
Saktmaalans Blood. Med Ydran og saññe Tru a hiñ Krossfesta
verdur þad feinged / eñ ecke med Femunum / þvi øll Verollden med
allre siñe Dijrd er liettare eñ Fis hiaa einum Dropa Guds Sonar
Bloods / og duger eckert til ad Endurkaupa Sæl Mañsens/ svo sem
Frelsareñ vottar/ Marc. 8. Lat þier þar fyrer allra mest hier um-
hugad vera/ þa munu hin ukvorkis Verkeñ siælfkrafa a epter fylgia.
Ydraneñ og Trueñ eru þær tvær Hendur/er þu att ad breida a moote
þijnum Lausnara / nær hañ fiñur þig Villuræfande a Eydemørku /
giør svo / þa munt þu Leidetamur verda til allra goodra Verka / þvi
sa sem hefur plagad Hiarta sitt med Miññingu siña Jllgiørda / hañ
mun skirrast vid/ ad vifia þad til hiñar raudu Vellingar/ Gen. 25. er
hiñ slæge Bragda-Refur Diøfulleñ vill kaupa hañs Frumgietningu

 med/

með/ að standa ut að nyiu slyka Plægu / er Syndenn hafde ablað: hønum / edur að pýnast eilýflega i Helvýte að ødrum Koste / og hann sem truer á Guds Son/ og er viss umm / að hønum eru svo margar Synder uppgiefnar/hann elskar meir enn svo/ að hann læte sier finnast hanns Boðorð þung/er hann svo heitt elskade/að hann bar alla Guds Reide/þa hnn var Saklaus kvalenn fyrer hanns Synder. Veit eg að hverugt þetta stendur i voru Valldе: Eingenn kann til JEsum að komast nema hnns Fader drage hann / Joh. 6. Og hier stendur i Guðspiallenu / að Maðurenn hafe leitað epter þessum týnda Sauð. Svo leitar JEsus að þier / það munde hann ei giøra/ nema hønum være Alvara að hiælpa þier/Hann leitar ecke Forgiefens að neinnu/ nema þeim sem ecke vill læta sig finna / eins og Pharisæi og Skriftlærder/ þar fyrer leitade hann að Tollheimtumønnum og Bersyndugum / sem voru tapader Sauder / þvi hann var komenn til að frelsa þ sem tapað var. Hann leitade ecke leinge að Matthæo/ ædur enn hann liet sig finna/ecke að Zachæo / ecke að hinne Bersyndugu / ecke að Hoorkonunne/ er hann aflettste i Musterenu eingu af þessum bægdu Syndernar fra að læta sig finna / enn Pharisæi mootstoodu H. Anda / Act. 7. Þvi geingu og Tollheimtumenn og Putur inn i Guds Ryke þar sem þeir voru utrekner. Maðurenn took þenna Sauð a herdar sier / hvar fyrer? Þvi að hann hafde svo leinge ræfað i Villunne / að hann hefur ei siælfur ganga kunnað. Svo giører og Gud við Syndarann/af þvi vier megnum eckert Gott af siælfum: oss að hugleiða/ aukhelldur að frammkvæma/þa ber hann oss a Høndum sier/ eins og einn Maður ber sinn Son/ sagde Moyses umm Guds Foolk i Eydemørkunne. Nu þar vier høfum svo Nædugann Gud / að hvar sem Syndenn yfergnæfer / þar yfergnæfer þo Nædenn miklu framar / og svo milldann/að hann vill siælfur giefa oss Krapt að þocknast sier/þa læt alldrei Synd þýna svo vaxa þier i Augum / að þu efest umm hanns Miskun / nie vantreyst svo þýnu Mættleyse / að þu ei strax fylger hønum epter/þvi hnns Kraptur er i breiskum Mættugur. Satt er þ/ að ÞRoltne milýkar Vondskann svo miøg/að eingenn Hlutur er ødrum svo gagnstædur/ Vatned er Elldsins Vinur/ og Ulfurenn Saudanna /

him

him þvi Naste / sem Gud hefur a þvi Illa / aňars munde haň ecke hafa uňed þad til ad forlijka Hiemeň vid sialfaň sig / ad ofurselia siň Eingieteň Son i svo bitrar Kvaler / þetta lætur haň oss skilia er haň seger. : Þo ad Moyses og Samuel stædu fraňe fyrer mier / þa være ecke mitt Siňe til þessa Foolks / Jer. 15. Eň hier er ecke Moyses nie Samuel / DRotteň miň / hier er eiň fatækur Syndare / eiň vesæl Saal / Eiň Narmþrungeň Ande / Eiň lijdur Saudur / er þiň Sonur hefur þo-aptur funded / hver ad er meire eň Moyses og Samuel / munt þu burtkasta hønum / DRotteň / nær haň fraňber þad dyra Giallð / er hňs Frelsare lauk fyrer hň a Trienu? Fiærre sie þad þier / Bruňur Giaffuňar / sň ecke villt Syndarans Dauda / þad see laangt fra þier / Konungur alls Landsins / ad þu straffer hiň gooda med þeim Vonda / sagde Abraham : Eň eg em goodur vordeň / þegar Sonar þijns Blood er utrunňed i mitt Taara-Flood / þ er laangt fra þier / sň eingaň villt burtu reka þaň ed til þijn kiemur / ad þu læter mig ecke niooka hňs Bæna / sň þu burturakst þegar hň kvaldest þ mijnar Synder / eda munt þu taka Giolld af bædum ockur ? Og þvi skylldu eg þa ei læta mig fiňa / nær miň Hyrder leitar ad mier / þott Synder mijnar være stærre eň Sodomæ og Gomorræ Synder / þvi mun eg vantreysta mier ad beta ra miň Lifnad / til ad fylgia hønum epter / þar eg megna alla Hlute med Paulo / fyrer haň sem mig Mattugaň giører Christum / Phil. 4. Og er viss umň / ad hvers eg bid Fodureň i haňs Nafne þad mun haň veita mier : Joh. 15. Þegar eg kiem fyrer Mangarans Bord / þa em eg þo ecke viss umň / ad eg fæe þad mig gyrner / Jafnvel þoott eg hafe noog fyrer ad gialda / stundum skorter haň Voruna / stundum verda Meň ecke Kaupsæller og þad ber til / ad aňar bijdur meira eň eg / vid þvi sem eg fala / eň þegar eg kiem fyrer þijnar Nædar Dyr / Herra miň / þa er ecke hætt vid þvi / ad eg fare Erendeslaus. Þess eru ecke Dæme / ad þar Bæner / sem eru i Himeneň sendar / hafe toomar aptur komed / eg kaupe þar med Skortenum / nær eg hefe eckert af sialfň mier fraň ad leggia / þa fæ eg alla Hlute fyrer alls eckert / þar þr-stur ecke þad hver gyrnest / þvi þar eru Nægter Guds Huss / þar skal eingeň hlaupa i Kaup

vid mig/ þvi þar er noog fyrer alla/ eins fyrer Manassem/ svo sm̄ fyrer David / eins sꝫ Ræningiañ a Krossenū / svo sm̄ fyrer Guds Mooður under Krossenum/ eins fyrer þañ sm̄ ecke hefur Erfidad nema eina Stund / Svo sem hiñ er boted hefur Hita og Þunga Dagsens / nær Meñ biooda þad med sundurknosudum Anda og Trumdu Hiarta/ sm̄ alleina fyrer Gude gyllder/ þad er hſ̄s Sonar Forþienusta/ J hveriu̅m honum vel þocknast. Honū med Fodur og Heilogū Anda sie Lof/ Prijs/ Rijke og Magt/ Styrkleike og Dyrd/ Fra þvi nu er og ad Eilijfu / A M E N.

# A Jons Messu Baptistæ.

Gudspialled/ Luc. 1. Cap.

OG þa ed sa Tijme var komeñ / þad Elizabeth skyllde fæda / og hun fædde Son. Og er Nagrañar heñar og Frændur heyrdu þad / ad DRotteñ hafde miklad Myskun sijna vid hana/ samglǫddust þeir heñe. Og þad skiede/ ad þeir komu a hinū ættunda Deige/ad umskiera Sveineñ/og nefndu hañ sijns Fodurs Nafne Zacharias. Eñ Mooder hañs svarade og sagde : Ongvaneigeñ / helldur skal hañ Johañes heita Og þeir sogdu til heñar : Þar er þo eingeñ i þiñe Ætt/ sem ad heiter þessu Nafne. Eñ þeir bendtu Fodur hſ̄s/ hvad hañ villde ad hañ hiete. Eñ hañ beiddest Knefa-Spiallds / skrifade og sagde : Johañes er hañs Heite. Og þeir undrudust aller. Eñ jafnsnart laukst hañs Muñur upp/og Tunga hañs leidriettist/ og hañ talade lofande Gud. Og Otte kom yfer alla þeirra Nagrana / og um̄ allar Fiallbygder i Judæa vijdfrægdust oll þesse Ord. Og aller þeir ed þad heyrdu / settu þad sier i Hiarta/og sogdu : Hvor grunar þig ad þesse Sveirn verde ꝫ Þviad Hond DRottens var med honum. Og Zacharias Fader hañs fylltest af Heilogum Anda/ spaade og sagde : Blessadur sie DRotteñ Gud Jsraels / þviad hañ vitiade og giorde Frelsan sijnu Foolke. Og hañ uppreiste oss eitt Hialpar Horn / i Huse Davids þioons sijns. So sem hañ hefur talad fyrer Muñ siña Heilagra Spamaña/ fra Alldodle. Hañ frelsade oss fra Ovinum vorum /

og

og af Hende allra þeirra sem oss hata. Hañ giørde og Myskun-semd vid Fedur vora / og miñtest a siñ Heilaga Sattmala. Og a þad Sære er hañ soor Fodur vorum Abraham/ ad hañ giæfe oss þad. Ad vier leyster af Hende Ovina vorra / þioonudum hønum an Otta / J Heilagleika og Riettlæte fyrer honum siælfum / alla vora Lijf-Daga. Og þu Sveirn munt kallast Spamadur hins Hædsta / þviad þu munt fyrer reña Augliti DRottens / ad tilbua hañs Vegu. Ad giefa hañs Foolke Skilning Sæluhiælparenar / i Fyrergiefningu Synda þeirra. Fyrer Myskunar Ydur Guds vors/ i hveriū hñ vitiade vor Vpprune af Hædum. Ad lijsa þm̄ sm̄ i Myrkrum og Dandans Skugga sitia/ til ad greida Fætur vorar fram̄ a Veg Fridarens.

## Exordium.

SJa Eg mun senda miñ Eingel fyrer mier / sa er tilreide Vegeñ undañ mier / segier DRottreñ hia Malach. 3. Cap. Ad þesse Spadoomur hlyde uppa hiñ fyrsta Nyia Testamentesins Spamañ / Johañem Skijrara / hvers Miñing vier i Dag hølldum / Þad er auðvitad af Vitnisburde sialfs Frelsarans / er ritadur stendur hia Matth. Cap. 11. hvar hañ berlega þyder hiñ sama uppa hañ / þad er og liooft / ad sins og Morgun Stiarnan geingur undañ Soolune / svo rañ þesse Guds Vinur undañ sijnum HErra / Lausnara Heimsins. Hañ var ædur gieteñ i Moodur Kvide / og ædur i Heimeñ fæddur / þvi lyser Eingelleñ / er hañ bodade Moodur DRottens Getnadeñ / Luc. 1. med þessum Ordum: Sia þu ad Elizabeth Frænd-Kona þijn hefur og Barn gieted i Elle siñe/ og þesse er siøtte Manudur heñar / sem kølld var Obyria. DRotteñ var i Heimeñ fæddur af Hreiñe og Oflecfadre Meyiu / og hvort þad være hid mesta Furduverk / sem Gud hefur nockurn Tijma giørt i øllu Nattwrunar Ryke/ þa var og þad miøg svo undarlegt / ad Johañes var aleñ med þeirre Konu / er svo miøg var til Ara komeñ. Johañes skyrde med Vatne til ad bua Christo Veg / sem epter hañ kom og skyrde med H. Anda og Elld/ Matth. 3. Johañes hoof siñ Lærdoom med Ydranar Predikun/ og Fyrergiefningar Syndaña/ þar hañ sagde: Giøred Ydran / þvi Guds Ryke er nalægt / Þetta var og Jñtaked i øllum Christi Lærdoome / er sijdañ a epter fylgde / og svo mun þad verda allt til Enda Veralldar / Þvi sagde hañ fordum vid Lærisveinana: Luc. 24. Svo er þad skrifad / og svo byriade Christo ad lijda / og upp aftur rijsa a þridia Deige / og predikast læta i sijnu Nafne Ydran og Syndaña Fyrergiefning hia øllum Þioodum / hver Nadar Bodskapur ad eirnig er til vor komeñ. Nu giefur Frelsareñ þessum sijnum Forgøngu Mañe þañ Vitnisburd hia Matth. Cap. 11. Ad hañ sie meire eñ nockur Spamadur. Og mætte þad sijnast / ad DRottens Alvijsa Forsiaa hafe sett þetta stoora Lioos i øndverda Christs Kyrkiu / þad er i Fordyre Nyia Testamentesins/ til ad sijna øllum þeim / sem þar iñe eru / edur iñganga vilia / hversu Veglegt

ad

ad sie Embætte Forlykurnareñar / sem Guds Þienurum er tiltrwad. Vil eg þvi a þessare blessudu Tiidsto taka mier fyrer Hendur ad yþervega. 1. Hversu Vyrduglegt ad þeirra Þioonusta eige af øllum hallden̄ ad vera. 2. Hversu miøg þeir eige fiælpa sig ad vanda.

Hiælpa oss hier til goode Gud fyrer JEsum Christum / AMEN.

## Vtleggingen̄.

OG þu SVein̄ Munt KAllast SPaamadur HIns HÆrsta: Þetta Embætte var miøg svo Veglegt a Døgū Gamla Testamentesens/ svo þ fylgde Kongdoomenum a stundum. Moyses var Spaamadur/og þo Høfdingie yfer Guds Foolke / David var Konungur yfer øllū Jsrael/og þo Spaamadur/sm̄ lioost er af hn̄s Psalmum/ Þeir voru og miøg svo Tignader af Gudhræddū Konungum/ svo var Nathan i Hæavegum hia David/ Hazaria hia Aza Konunge/og Esajas hia Ezechia. Nu eru þ Guds Kienemen̄ i Nyia Testamentenu/ sem ædur voru Spaamen̄erner / þvi þetta Ord ad SPaa/ merker ecke alltijd ad segia fyrer Okomna Hlute/svo sm̄ giørdu þr a Gamla Testamentesins Døgū / helldur i þvi / ad flytia Guds Eyrende og vijdfrægia hn̄s Nafn. Hver mun giefa mier/ ad allt þetta Foolk kynne ad spaa/ sagde Moyses / Num. 11. Syner ydar og Dætur munu spaa / sagde Joel/Cap. 2. Þad er/Gud dyrka/lofa og vegsama. Johan̄es Baptista verdur hier nefndur Spaamadur ens Hærsta/ z þo giefur ecke un̄ þ/ ad han̄ hafe fyrersagt Ovorna Hlute / DRotten̄ seger / Ad HAn̄ Sie MEJre En̄ Nockur SPaamadur / ᴂn Efa medal an̄ara þss vegna / ad aller Spaamen̄ spaadu til Christum/en̄ Johan̄es bente til hn̄s med Fyngrenum/ og synde Møn̄um Guds Son Holldenu Jklæddan̄. Han̄s Epterkomendur eru vorer Kienefedur/ þeir boda oss JEsum Christum dæen̄ fyrer vorar Synder / og uppresen̄ oss til Riettlætis/ þeir syna oss han̄ i Ritningun̄ fyrer Augunū afmaaladan̄ med øllum han̄s Astgiøfū og Velgiørningum. Hver er su Foorn Gamla Testamentesins/ er jafnast meige vid hn̄s dyrmæta Holld og Blood/ sm̄ hn̄s Þienarar utdeila i heiløgu Alltaresins Sacramento/ hvert er Valld svo miked a Jørdu/ svo sem ad leysa Syndena hiaa þm̄ Ydrande/og ad binda hana hiaa þeim / sem ecke vill ydrast nie af henne laata /

Joh.

Joh. 20. Siaed þa/ Brædur mÿner/ hverſu Veglegt ad er þetta Embætte/ ſem þo af morgum Dæra verdur ſÿtelſs meted. Ecke ſook Spamannſins Embætted ſvo mikla Virding af Valldſtioorneñe/ þoott eg fyrer ſkomñu ſegde/ ad Gud hefde ſamt hana med þvi/ nær honum ſvo lÿkade. Hverutveggiu eru hſñs Vmbodsmeñ a Jordune/ og eiga honum þar iñe ad þioona/ epter þvi ſem hañ hefur hvertum boded/ Þar voru og fleſter af Gamla Teſtamentſins Spamöñum/ ſem eingeñ Mikels Meñe voru fyrer Heimenum. Eliſæus var fra Ploognum tekeñ/ Jeremias var Vnglingur/ þa hañ var kalladur/ Amos ſeger i ſinar Bookar Cap. 7. Ei var eg Spamadur og ecke Spamañs Sonur/ helldur var eg Nauta Hyrder/ og leitade epter Morberium/ þvi tekur þetta Veglega Embætte eingañ Myndugleika af nockurs Mañs Perſoonu/ Ætt/ Atgiorfe/ Rÿkdoome nie odrum Veralldar Hlutum/ þar i er oll Sæmdeñ foolgeñ/ ad þeir eru DRottenſs Þienarar/ Allur Rÿkdoomureñ/ ad hañ vill vera þra Arfur/ Num. 18. Allur Myndugleikeñ i þvi/ ad þeir eru Raadsmeñ hſñs Leyndardooma: Og er þad ecke lÿted/ Born mÿn/ Hver ſem ælÿtur þad Okomna meir eñ þad Nærveranda. Eg þyekeſt vita/ ad þar er eingeñ af ydur ſæ er ei hallde Guds Son alls Heidurs verdugañ. Eñ hvad ſeger Chriſtur vid Poſtulana? Hver hañ forſmaaer ydur/ hañ forſmaer mig. Ad vÿſu er þad ſatt/ ad vorer Kieñefedurner ei Tæmum þangad/ ſem þeir hofdu Hælana/ ſvo ſem vier plogum ad ſegia. Mikedſkorter oſſ a vid þeirra Hugprÿde/ Þolenmæde/ Kiærleika/ Bindinde/ Rokſeme/ og adrar Kieñemañlegar Dygder/ þo eru þeir ſamt Chriſti Þienarar/ og þeir ed vaka yfer Salum ydrum/ nær þeir giora ſitt Embætte/ epter þeirre Raad/ ſem þeim veitt er/ med Koſtgiæfne: Muni þvi Chriſtur ecke hallda þañ Saklauſañ/ ſem vanvirder hañs aumaſta og veikaſta Þienara/ þvi hañ ſtendur og fellur ſÿnum Herra. Eg vil nu i þetta Siñ ecke fæ mier til Orda/ hverſu vier eigum þa ad elſka og virda fyrer þeirra eigeñ Perſonu/ þvi eg hefe einhveriu ſiñe ædur um þad talad/ þeim er þad og fyrer miſſÿlu/ ad þeir af ydur dæmder verde/ edur af Mañlegum Dege/ DRottenñ er ſa/ ſem dæmer þa/ 1. Cor. 4. Þeirra Dvirding

þia Mønnunum er þeim Neidur þia Gude/ þad Natur/ sem Verølldenn leggur a þa/ ablar þm̃ Elsku i Himnenum. Sa Afgrætkur/ er þm̃ skier i sijnum Tekium/ hañ verdur Rijkdoomur i Guds Fehyrdslu/ eiñ Peningur/ sem þa vantar hier / allar Hundrad Peninga þar / eñ um̃ hitt vil eg nu tala / ad þier ecke forsmæed þeirra Þioonustu / þoott þeir sieu lijtilmootleger i ydar Augum sumra hverra / þad er Kieñing-arnar og Ordsens Predikun/ þvi ef þier svo giøred/ þa forsmæed þier ecke þa / helldur þañ sem þa sende / Og ef þier hafed þa fyrer Gañ-leikañ/ þa hafed þier Sæler ydar/ og stofned þeim i hiñ mesta Voda. Eg bid ydur Brædur/ seger Paulus/ 1. Tess. 5. Ad þier þeckid þa sem erfida a medal ydar / og standa fyrer ydar Auglite og kieña ydur / ad þier hafed þa Yfermæta kiæra fyrer þra Verks Saker. Hvert er þad Verked/ Christner Menñ þad seger oss Zacharias hier i Guds-spiallenu / Ad TJLbua HAñs VEgu / hvers þa ? HJns ALLra HÆrsta / Þess Drottnarans / nær hañ kiemur til sijns Musteris / sem er þitt Hiarta/ þad er / nær hañ krefur þess/ og hin Heilaga Guds-doomsins Þreñing vill þar iñganga og Vistarveru hiaa þier giøra. Til þess eru Guds Þienarar setter/ Seg mier/ eru þr þa Jlls verder/ fyrer sitt Verk / nær þeir giøra þad trulega / og vilia fæ þier soddañ Gieste til Hysingar ? Eñ þetta skilst ecke hiñe vantruudu Kynslood / hun er eins og Skiækiañ / sem Terentius giefur um̃ i Skrøksøguñe / eins og hun sagde um̃ hiñ Dramblæta Stridsmañ/ad ei hefde leyfft vid hañ ad tala/ nema þad sem hañ hefde ædur fyrermælt. O jæ/ kalleð þad sem oss er þocknanlegt / epter þvi sem Eyrun klæia. Er ecke þad hid sama sm̃ DRottenñ seger hiaa Amos / Cap. 2. Þier haf-ed fyrerboded Spæmøñunñ / segiande : Þier skulud ei spæ : þesse Guds Madur mætte og af þvi seigia/ Amos 7. þegar Amatzia Jeroboams Prestur i Bethel sagde vid hañ : Þu Siæande / far burt i Gydinga Land og et þar Brand/ og Spæ þar / eñ hallt ecke æfrañ ad Spæ i Bethel/ þvi þad er Kongsens Helgedoomur / og hañs Hus. O þier Villudyr / þegar Leoned Øskrar / hver mun ecke skielfast ? Og þegar DRotteñ skipar / hver mun ecke Predika / Amos. 3. Eñ hañ skipar svo

svo opt sem ad hans Þienarar sia / ad ydar Glæper og Oguðlegar Afhafner kaka Yferhond / Enn hver af hans Trulyndum Þienurum mun skielfast fyrer ydar Opocka edur Reide-Svip/ nær Menn eru visser umm hans Vinattu / J hvers Hende þier erud / eins og hid funa Spamansens Bellte / sem þo alldrei hafde i Voll komed. Eg skal giøra mijn Ord i þijnum Munne svo sem Elld/ enn þetta Foolk svo sem Tre / þau er hann eyder / seger DRottenn fyrer Munn Jeremiæ Cap. 5. Enn þad Orded / sem Gudhrædder DRottens þienarar hafa i Munnenum / þad er og hans Ord. Enn svo sem þad ad Jerusalem ecke strax uppbrann vid Spamannsens Ord / samt var Bæl-Elldurenn ecke langt i burtu. Svo vite hinn Gudlause Heimur / sem ecke vill leysa þessum Ellde Jnngang i Hiarta sitt/ til ad kretta þar upp Sorp og Endeme Hollolegra Gyrnda / vite hann / sege eg / ad hins eilijfa Loga mun skammt ad bijda / sem umm Allder mun brenna þa / nema þeir ydrest af Hiarta. Aller lækumst vier til Kyrkiunnar koma/ aller heyrum vier Orded/og brukum Sacramenten/ og svo sem ein Herme-Kraka giørum oss Læte i Christendoomenum / Enn nær vier þetta hvad mest giørum / þa Gud giæfe / ad ecke ætte heima hia sumum af oss þad sem DRottenn seger umm Juda fyrer Munn Jeremiæ / Cap. 5. Þar byrkast Rangsnuner Menn a medal mijns Foolks/ þeir sem liggia til Lægis/og setia Snørur fyrer Foolked ad veida þad/svo sem þad Fuglarenn giører med sijnum Veide-Brellum/og þeirra Hus eru af Prettum full/ eins og eitt Fugla-Bur er fullt af Tæl-Fuglum / þar ut af verda þeir Megtuger og Rijker/ Feiter og Frialsleger/ þeir fara med Jllsku Þør/ þeir hallda eingenn Rietkinde / þeir frammkvæma ecke Malefne hins Fødurlausa / og þad luckast þeim. Og Almugenn er a Stundum ecke betre ad sijnu Leite. Þad er ad sønnu Grætlegt til ad vita / ad heiler Safnader heyra svo margar Predikaner / svo margar Aminningar af Guds Orde/enn þegar Menn krefia ad þeir giøre Grein a Tru sinne/ þa er varla Tijunde hver/ sem kunne ad giøra þ svo sem Christnum Manne byriar/ þad er eins og einn Okunnugur Hlutur fyrer þeim/og eins og Draumur Nebuchadnezars/ Dan. 2. er hann sagde: Ad Ord-

ed være horfed ſier. O hverſu lijted er þetta ad virda Embætte Forlijkunareñar ? Þu ſeger/ ad Orded ſie horfed þier/ þu gieter þvi ecke i Miñe hallded/ med þeſſu dæmer þu ſialfañ þig / Barn mitt/eingeñ er ſvo Miſñtsſlioor/ad hñ af ſvo mørgum Predikunum/ſvo mørgū Fortølum/hvar hid ſama verdur optſiñis itrekad/ ad hñ ei giete ſvo miked minſt/ef hañ vantar ecke Epterteckena/ ſem ad duga meige honum til Sæluhiałpar/ helldur vallda þvi Vmſvif Verallđareñar/ og Holldleger Þanckar/ ad Meñ ecke Jtreka med ſiałfum ſier/ edur brijna fyrer ſijnum Børnum og Hiuum þad ſem ſagt hefur vered / þvi kiemur Dioſulleñ og ſtelur Ordenu ur Hiartanu / ſvo under eins og þu flygur ut ur Kyrkiuñi/ſvo flygur þad ur Huga þier. Nær mun Tunglkomu Hatijdeñ lijda ad vier kuñū ad ſelia Fædſluna/ ſøgdu Gydingar fordum/ Amos. 8. Eñ þeſſ være Oſkande / ad nockrer Gmrungar ſegdu ecke i Hiarta ſijnu / nær Þr under Guds Orda Heyrn ſitia/ nær mun Þſſe Ord-Snæpur hætta/ſvo vier meigū fara ad ſkiemta oſſ med vorum Lijkum ? Hverſu vel verdur Predikunar Embætted virdt af ſvoddañ Vitſtola Mañeſkium ? Giæted þeſſ / Chriſtner Meñ/ ad þau Dijreñ voru i Gamla Teſtamentenu einaſta hrein køllud/ ſiñ ad iortrudu/ſiæ þu og til / ad þu helger Hvijldardageñ / eñ hverneg verdur hañ helgadur ? Ecke er eiñ Dagur af ſiałfum ſier ødrum helgare / helldur verda þeir ſvo epter Guds og Yfervalldſens Bode / eñ þu helgar hñ/ ef þu helgar ſiałfañ þig/ecke einaſta med þvi/ ad heyra Guds Ord / helldur og hinu / ad Jtreka þad med ſiałfum þier / er þu heyrt hefur / og vellter þvi fyrer þier eins og Dijreñ Foodrenu i Maganum og Muñenum / og vilier þu til fulls hallda þvi og alldrei ſleppa / þa breit epter þvi i Lifnadenum. Lát þad vera hiæ þier ſvo ſiñ eitt Moot / hvar i Giørder þeſſar jafnan ſteyptar ſieu / þa mun þad vera ſvo ſiñ Stafur ſa ſiñ a Bookfell er ritadur/ og þeſſar Giørder munu hrooſa þier/ſvo ſiñ eitt Bijlæte ur Gulle ſteypt/og nær þu ſvo giører/ þa kalla eg ad þu af Alvøru virder og elſker þetta heilaga Forlijkunareñar Embætte/ Og hvad ſtodar þad Mañeñ / ad hañ Orded heyre/ nama hañ alldungis legge þad uppa Hiartad/ og life þar epter / edur

mun

mun þetta heilaga Embætte vera Innstiptad fyrer Sida Saker/ edur eiga Guds Þienarar ad vera ydur eins og Børn/ þau a Strætū sætu og kølludu til hiña: Vier høfum fyrer ydur i Pijpur blaased / og þier hafed ecke dansad / vier þuldum ydur Harma vora / og þier hafed ecke grated? Luc. 7. Þeir Guds Ord heyra Athugalaust/og ecke hyrda um̃ ad færa Avøxt þar af/ þr draga sialfer sig Magnlega a Tælar/ ecke einasta i þvi/ ad þad mun rijsa upp i Doomenum a moote þeim a sijdasta Dege / Joh. 12. hvad þo er hid skielfelegasta / og vill giora þeirra Fordæming miklu hrædeligre eñ Sodomæ & Gomorræ/ helldur eru þeir Dærliger i þvi/ad þeir lia Eyru sijn til ad heyra þañ Hlut sem þeim er hiñ meste Leide ad / alleina til ad hræsna fyrer Møñum / og hafa þess þo einge Not i þessu Heime/ sem er þra Himmarijke/ eñ eilijf Giølld añars Heims/svo sem eg fyrer skømmu sagde. Giæted ad hvad þad er / sem Zacharjas seger framm veges um̃ þeña unga Svein: OG TIL AD GIEfa HAñs FOOLke SKILNING SAALVe hiælparenar Til FYRERgiefningar SYNDa ÞEIrra. Til þess hins sama eru ydur og Kiekenduiner settet / Br. M. ecke þad / ad þeir giefe ydur Skilningeñ helldur eñ Johañes. Hañ skijrde med Vatne alleina/Svo giora og þeir/ Pall mat planta svo sem hañ vill/og Apollo vøkva/ 1. Cor. 3. Eñ þad er þo forgiefens nema ad Gud Avøxteñ giefe / eñ samt fæda þeir Sæler ydar a þvi heilnæma Lijfsins Orde/ sem ad er Kraptur Guds til Sæluhiælpar øllum þeim sem trua/og þegar Guds Ande samteingest þvi i rieltt truudu Hiarta/ þa kañ Mañesskiañ ecke ad fara a Mis vid þad / ad vaxa epter fullekomnum Mæler Christi Alldurs/ sem Paulus ad Orde kiemst/ Eph. 4. Og þyker mier soo sem ad hañ ecke miøg elske Sælu sijna/sem ecke vill þad vita til ad heñe hoolped verde/ad þiggia Naudsynlega Uppfræding af Preste sijnum / og heyra hañ i Guds Stad talande med hiñe mestu Athygle: Ecke liggia Syndernar miøg þungt a hønum / sem ad ecke med allre Sælar og Lijfs Audmyktt og Christelegū Underbuninge framkiemur fyrer Gud i Skriptar-Stooleñ/ til ad þiggia af hønum Kvittun Synda siña fyrer Medalgøngu hañs Þienara/ Eñ

Gud Nade / ad þar er varla nockur Alukur sa / ed sumer Men hafe a hvilykan Vidbwod/svo sem a þessare Heilsusamlegu Þioonustu/svo nær ed annadhvert Hræsnen edur Ollen dregur þa under Guds Orda Neyrn / þa er pad svo sem þeir ætlu ad ganga til Pyslar/ adgiætande þad lyted/ ad þeir eiga þar ad fiska Sælum synum Foodur/so þr mege umflyia eilyfar Helvytes Pyslér. Enn seged mier þo/ef Cain/Achithophel / Judas og hinn ryke Sælgiælingur mætku eiga Kost a ad heerfa ur Kvølunni/og sitia under eirne Predikun/mundu þr ecke kalla þad hinn stærsta Velgiørning/ og Oska ad su Predikun alldrei þryte / hvilykur Qvarafkapur er þa ad framsælast þad medan Nædar-Tymenn er/ fyrer hvert Madur giefur kvilkur vorded vid þær Oumrædeligu Hørmungar / er þeir nu pynast i. Hlyded þvi Raust u Hroopandans i Eydemørku/ giøred Ydran/ þviad Guds Ryke er Nalægt / þackid Gude / ad hann hefur ecke sendt oss Eingla af Himne til ad fræda oss / hverra Nalægd vier mundum ei standast / helldur syndugan Menn vora Lyka / þar fyrer sa sem elskar Sælu syna / hann elskelsis Sælusorgara / og þigge hans Þioonustu med allre Hoogværd og Undergiefne/ og er þad nu svo umm hid fyrra utfalad.

Af Johanne hafa aller Christi Þienarar þad fyrst ad læra / ad forsmaa Heimenn med øllu þvi sem i hønum er / og sierdeilis Aud og Mannvirdingar. Johannes var noogu Ættstoor/ Burder hns voru til þess / ad hann kunne ad verda rykur Høfdinge medal syns Foolks: Fader hans var einn Kiennemadur / ia /ecke einn almennelegur Kiennemadur / helldur af Rød Abia(svo sem Lucas hier umm skrifar / Cap. 1.)hver ed var hinn ætkunde medal Nidia Eleazars Aarons Sonar Høfud-Prests / svo sem þar umm maa lesa 1. Cronicu Bookarennar. 24. Hans Mooder Elizabeth var og af Aarons Dætrum /svo sem Lucas einnig vottar/hverium Ættlid ad Kiennemanns-Skapuren fylgde / sem var ein stoor Tign medal Gydinganna. Nu þoott hn være svo Ættgøfugur/ sm sagt er/þa utvalde hn helldur ad þioona Gude i Eydemørku/helld ur enn ad bera Tign Fedra sinna. Ad vysu er þad satt/Brædur myner/ ad eingenn er skylldugur til þess / ad hafna øllum Tymanlegum Mun-

um/

DRottne/og Lof syngia þynu Nafne/þu hitt allra Næste/þvi þad er þad einasta/sem hañ af oss krefur/ ad vier dyrkū hñs Nafn med Orde og Verke. Veralldleger Konungar skilia sier ur sijnum Londum og Rijkiū þa Hluke / sem eru Fægiæter/ og nockrar Mækur eru a/ er vier køllū Regalia, edur Konungs Gierſemar/og er þad ecke uñ Eign ƀra/ sem Dag og Noott hafa Vmhyggiu fyrer svo margre Sælu/og þar ad auke eru prijdder med nockurskonar Lijkingu Guds Hätignar / eñ Konungur Konungañа hefur sier alleina Dijrdena skiled/ Hañs Þegn Skyllda var eingeñ øñur af Israel / eñ ad þeir skyllдu Ottast hañ og Elska/Devt.10. Og svo er hun eñ i Dag af hinū Andlega/þvi med svoddañ moote verdur honum riettelega Dijrdeñ giefeñ. Allt hvad Vegsamlegt er a Himne og Jordu/ þad er hñs vegna Veglegt/sem er sialf Dijrdeñ / og eckert utañ Dijrd og Vegsemd: Hiñ Vijse hroose sier ecke af sijnum Vijsdoome / og ecke hiñ Vollduge af sijnu Vallde / og hiñ Rijke hroose sier ecke af sijnum Rijkdoome/ helldur hver sem vill hroosa sier / hañ hroose sier af þvi hañ skilie og þecke mig / ad eg sie Jehova/sa ed fremie Goodgyrndena/Riettleñ z Riettvijsena a Jordu/ þt þar i hefe eg Velþocknan/seger Drottleñ/Jer.9. Hver vill þa eiga Tilkølu til nockurrar Vegsemdar fyrer utañ hñ/fyrst þeir meiga ecke hroosa sier / sem ad eru hvad Vegsamlegaster kallader hier a Jordu. Þessare Vegsemd/þessare Goodgirne/og þessare Riettvijse hins gooda Guds/Hroosar Maria i Lofkvædenu / er hun seger: DRAMblætum NRAtt Hañ Af STOOle/Eñ VPPhoof LIT Elæta. Skodeд hier ydur i Speigle/ O þier Stolltu Giædingar Veralldar Þiſarar/ og hversu fængter þier erud / nær þier villed troda Lijtelmagnañ under Ffootum/þañ sem Gude freyster/ Vited þier ecke/ ad þier færed Ner DRottne a Hendur / biooda ecke Løg vor / ad eiñ Fiærhallds Madur skule veria Søk Omaga sijns / og sækia ef vid þarf? Ætled þier ad Guds Fyrerheit mune binda hañ miña helldur eñ Løgeñ Skulldbinda ydur / hver þier riufed / nær sem ydur bijdur svo vid ad horfa / fyrer Avinnings edur Hakurs Saker / Eñ hversu opt lofar nu DRottleñ i sijnu Orde / ad hañ vilie vera Forsvar hins Munadarlausa? Svo ad

aller

aller Underþryckter / aller þeir ed Rangindenn lijda / þeir eru Omagar Drottens/ Er þar nockur Limur a vorum Lijkama / er oss sie vidkvæm are ein Augun/og þo sagde Gud uñ sijna Vesælinga/sem stundu under Ofrijke Heidingiaña i Babilon / sem er Lijking ydar Foostur-Moodur Veralldarennar / Hver ed snerter ydur /hañ snerter Siaallldur mijns Auga/ Zach. 2. Hugleided nu med ydur / O þier hin Skynlausu Børn eñ/vid hvern þier eiged ad skipta/ Ecke vid hañ/ sem þurfe ad setia sig nidur og reikna / hvert hañ med Tiju Þusundum giete mætt þeim sem kiemur a moote hønum med Tuttugu Þusund / Luc. 14. Þviad allar Sæler eru hañs/helldur vid hañ/vid hvers einasta Bendingu ad Sodoma brañ til Osku / Jericho hrapade / Jerusalem vard ad Stein-Hrugu / Tyrus hrunde i Grunn nidur/ Hver ed dreckte Pharaone med hañs Lide i Hafenu rauda / hver ed droo hañs Epterkomara ut ur sijnu Fliioote/med ollū þeim Fiskunum sem loddu i hñs Hreistre/Ezech. 29. Hver ed setti siñ Krook i Senacheribs brenande Naser / hver ed hañs Epterkomara Konungana af Assyria/ þeir ed voru eins og eiñ kostulegur Vijn-Vidur / svo ad allar Eykurnar i Gardenum Heden Ofundudu hañ/hver ed þa/sege eg/ upprætte a eiñe Stundu / hver ed fedur Fugla Loptsens og Dijr Merkurennar med Hollde Ovina siña/og uppfyller Dalena og Vatnsfolleñ med þeirra Blood / Ezech. 32. Og þoott þier ætla kuñed/ad þetta ei mune fram vid ydur koma / þa mæ ydur þad alkuñugt vera / ad hañ er sa sem Valld hefur til ad kasta Lijke og Sælu i eilijfañ Elld/ sem ber svo langt af þeirra Hørmungum / sem þier nidurdreped med Ofrijke ydar / svo sem Guds Barna Sæla / sem þeim er ætlud / ber af allre ydar Fullsælu. O hversu erud þier þa fæviijser / nær þier hefted Orløg a moote slijkum Herra. Vei ydur/þier munud Offra og Ylfra/ þier munud eta ydar Tungur ut af Ofraun / Apoc. 16. Nær hiner munu skijna svo sem Sool i Rijke sijns Fødur / O hversu gott være ydur þa / ad Lijkamer ydar / hveria þier svo Kappsamlega aled hafed a Bloode hins Volada / ad þeir / sege eg / alldrei upprise til Doomsins. Eñ nu er þvi ei svo vared/ þvi Gud seger fyrer Muñ Ezechielis/Cap. 32. Ad ydar Rang

læte liggie i ydar Beinum epter Daudan. Heyred þvi Ord DRottens / þier sem meined ad þier hafed bued ydur Hreydur i Skyunum / heyred / sege eg / Ord DRottens af Davids Munne / sem var miklu megtugre enn þier/og þo miklu lytelætare: Giefed DRottne Dyrdena/ þier Syner Hinna sterku/ Giefed DRottne Dyrdena og Pryssenn / Giefed DRottne Dyrdena hans Nafns/bugted ydur seigiande: DRottne sie Heidur i Pryðenne syns Helgedooms/ja/giøre svo øll Verølldenn/ hver og lægert. Hinn lytilmotlige Broder hroose sier i sinne Vpphefd/ þad er/ i þvi/ ad Gud hafe hann þess virdt/ad lyta hann Syne synum/ hver ed giørdest Fatækur þar hann var þo Rykur/ seger Postulenn / 2. Cor. 8. Enn sa hinn Ryke i Audmykt sinne / þvi eins og Bloomstur Grassens mun hann forganga/ seger Jacob. Og þannig giesum vier best DRottne Dyrdena/Christner Menn. Ecke er þ noog ad syngia honum Lof med Munnenum/enn afneita honum med Verkunum. Eg elska Rettenn/seger DRottenn/ Eg hata Rααned / þad sem teingest vid Brennefoornena / Esa. 61. Eingenn af oss / sem vill Hlut sinn vanda/ hann skeiter miøg umm þad / ad honum sie hroosad af einhverium Ordavøndum / og hvad mun Gud þa dyrkadur verda af Skalkenum / ef hann þylur honum eina Saung-Vyssu/ kann skie sialfum sier til Gamans / og til ad skiemta sier med Raustenne/ sem eg hygg/ þvi verr/ ad opt mune henda / jafnvel þa / sem ecke miøg vonder eru / enn Hiartad er þo ecke alltyd bued til Guds Dyrdar. Lof syng þu Ønd myn DRottne / og allt hvad i mier er hans heilaga Nafne/seger David: Þad er allt hvad oss fylger/og Gud hefur oss giefed / þad a ad pryssa Gud. Hiartad med Elskunne/Munnurenn med Ordunum og Raustenne / hiner adrer Limerner med ukvortis Vtrieltingum / svo ad allt hvad vier giørum med Ord og Verk / þad giørum vier i Nafne JEsu Christi / og þackum Fødurnum fyrer hann / jafnvel hiner Vngu Hrafnarner akalla DRottenn / seger David/ Ps. 147. af þvi hann hefur skapad þa / og munum vier þa ecke vera margra Hrafns-Vnga Virde/ sem ecke einasta vorum epter Guds Mynd i Fyrstu skapader / og eigum Kost a ad Endurnyast epter henne / helldur og med hans Sonar Dauda fra Helvyte

Endur-

Endurkeypter. A þessa Skylldu vora minner oss Paall seigiande 1. Cor. 6. Þier erud Verde keypter/dyrked þvi Gud i ydrū Lijkama/ og i ydrū Anda/hverier ad eru Guds/ Nu þar vier erum Guds Eign/ bæde epter Rietle Skøpunarenar og Endurlausnarenar/ þa erum vier hiner mestu Drottens Svikarar / ef vier ecke af fremsta Megne Kostgiæfum ad fylla þessa Skylldu vora : Eñ hvad er þa ad dyrka Gud i sijnum Lijkama ? Pad seger hañ oss Col. 3. Deyded ydar Jardneska Limu / Saurlijfe / Ohreinleika / vonda Gyrnd og Agyrne / sem er Skurgoda Dyrkan / og i einu Orde ad segia / ad Meñ stynge ut þad Augad/og af snyde þa Hønd edur Foot/ sem hneixlar/ þad er ad deyda fyrer Andañ Holldsens Gyrnder. Hvad er ad dyrka Gud i sijnum Anda ? Hier meinar Postulen Saalena / þvi hun maa fyrst og sijdarst heita Verde keypt/henar Dyrkun skilur Gud sier hvad mesta/þvi seger hin Heilaga Mey : MJn And MJklar DROtten / hun giørde og svo bæde med Orde og Verke/ þvi nema svo vered hefde/ þa munde ecke hin Alskigne Gud hafa valed henar Lijkama Syne sijnum til Bustadar/Nun Seger : ÞVi HANNs NAfn Er HEIlagt. Jhugan þessara Orda gagnar oss til tveggia Hluta / sem bæder eru Christnū Mañe Omissande. Pad er vitanligt/ ad med þessum Gudsdoomsins Hæstignar Eigenlegleika / Heilagleikanum / utmælar Ritningen optlega hans Yferburde yfer allar hans Skiepnur / þar fyrer kallast hañ sa Heilage i Israel : Þess vegna eru aller Hluter/ sem hønum vidkoma edur eignader eru/Heilager kallader/ svo sem er hans Ord/ hans Kyrkia / hans Frumburder i Gamla Testamentenu / þad er alltsamañ Heilagt kallad. Guds Dijrdarfullu Herskarar / sem þar uppe eru/ þeir hafa eingañ Lofsaung/sem vier af vitum/fegre eñ þeña : Heilagur/ Heilagur/ Heilagur ert þu DRotteñ Gud/ Esaj. 6. Nu / þar hñ er svo Heilagur/ad syndugra Mana Skynseme fær þad ei griped / þa m̄ þesse Jhugan ad gagna oss til ad dyrka hñs Hæstign med Blygdan vors Andlitis / og af-þvo Daglega vorn Saurugleika med Tarū Ydrunar vorrar / þar vier Daglega framkoma skulū med vorar Bænar-Foorner fyrer þeña forklaranda Elld / vid hvern

 eckert

eckert Saurugt mæ bua/ og i odru Lage/ þar hn̄ svo Heilagur er/sem adur er sagt/ þa meigum vier kañast vid Skylldu vora / ad oss byriar af fremsta Megne ad burtkasta ollum Ohreinleika/ef vier viljum hn̄s Pioonar vera / sem svo Yfermæla Hreiñ og Heilagur er / og ad vier lifum Hoossamlega/Riettvijslega og Gudrækelega i Heime þsn̄/Tit. 2. HAñ ENDurmiñkest MYstunar SIñar / Og MEDtook SIñ PIoon ISrael/ seger Guds Mooder: Pad giorde sa Blessade Herra/þegar hañ sende siñ Son i Heimeñ til ad frelsa pad sem tapad var/ til ad giora hina Blindu Heilskigna / til ad lækna hina Holltu / hreinsa hina Lijkþraa / til ad giefa Daufum Heyrn / og til ad uppreisa hina Daudu / eñ allra hellst til ad Predika Fatækum Evangelium. Lætu nu og siæ til/ ad vier miñumst vorra Heit-Orda/ er vier giordum i Skijrnar Sattmaalanum / ad trua a hina Heilögu Guddoomsins Preñingu / eñ afneyta Diøflenum og ollum hañs Svikum og Vielū. Ef vier nu þtta med allre Kostgiæfne og Alvoru hølldum/ ad svo miklu Leite sem vier afkastad faañ fyrer Adstod H. Anda/ þa vegsømum vier DRottenn riettelega i vorum Lijkama og i vorum Anda / og eigum fulla Von a med Jomfru Mariu / ad gledia oss i Gude vorum Heilsugiafara/hvar uñ nu framveiges er nockud ad tala. MJñ ANde GLEdst J GUde HEJLSUgiafara MJJNum: Pessa er Sælareñar Glede/ Born mijn/ eñ ecke Lijkamans Sælgiæte/ pad er i Gude/ seger hin blessada Mey / hver ad er Bruñur og Uppspretta allrar Sælu / og siaalfur alleina sæll/ þvi kalla eg hañ alleina fullsælañ/ eñ eingañ añañ/ sem smackad hefur hvad sætur ad hañ er. Hvad eru vorar Osker i Heimenum? Margar eru þær / og flestallar heimskulegar/ Skadsamar/ fullar af Sorg og Armædu/eñ allar luka þær þaangad ad. Vier bidium uñ þa Hlute / sem oss epterlangar. Eñ hvad seger David? Haf þijna Unadsemd i DRottne / og mun hañ giefa þier hvad þitt Hiarta girnest / hvad er pad / Born mijn? Eckert añad eñ hañ siaalfur / þvi svo sem Holldlegar Gyrnder verda alldrei saddar/Fylleñ ablar þeim/er þær elska / æ meira Hungurs/svo er og Launguneñ epter DRottne þvert a moote sijn eigeñ Sadning /

og þeir ed vellka sier i Holldlegum Munade / þr gyrnast nu þetta/ nu hitt / þegar Sadningeñ ablar þeim Leida a einum Hlut / svo længar þa i añañ/ eñ sa s̃ er i Gude gladur/ z til fulls hefur smackad Krapt epterkomande Alldar / Heb. 6. Nañ gyrnest ecke añad eñ Gud / hañs Matur og Dryckur er ad giøra hañs Vilia / sem hañ elska um̃fram̃ alla Hlute / þvi þar er allut sem uner / seger Ordshæittur gamall. Verølldeñ kallar Aud / Metord / Sælgiæte / og añad þvilijkt hina mestu Sælu / eñ eg hefe ædur nockrum Sinum med Røkum synt/ ad i þ̃ssu er eingeñ riett kølluд Sæla/ helldur blønduð med Angre/ Erfide / Hugsyke / Otta / Þrældoome / og jafnvel hiñ mesta Sælar Hæska / vidteingslud. Eñ hvad seger David? Psalm. 1. Sæll er sa Madur sm̃ hefur sijna Lyst i Løgmæle DRottens/og talar um̃ hñs Vegu Daga og Nætur. Hvar fyrer / Brædur mijner ? Þvi hañ sem ad Guds Ord og hñs Rietkinde svo miøg Jdkar/og svo miøg kiær hefur/ hañ gietur ecke fared a Mis vid þ ad elska Gud/ hiæ hveriu allur añar Fognudur og Gladvære er Sorg z Armæda ad reikna/ þvi sa er þ̃ssu Hlutskipte næd hefur/ þm̃ heiter Lausnareñ/ ad hñ og hñs Fader vilie til hñs koma og Vistarveru hiæ hønum giøra/ Joh. 14. O hverneg mæ þar vanta alla Gnoogt Fagnadarens / hvar þvilijker Giester eru ad Heimbode/ Jafnvel þott einhver være i Daniels Lioona-Grøf. Þeir Hebresku Sveinar Chananja / Misael og Hazarja / hverier ad Leyfe Stallarans i hinu Babiloniska Hofe neitku alleina Jardar Avaxta / svo ad ecke briku þeir a moote sijns Guds Løgmæle / þeir urdu þo Sællegre og fegre Jlits eñ adrer / Dan. 1. Svo eru og þeir sem i Hiarta sijnu lijta Guds Asioonu / yfer hverra Enni Mañ hun fegur skijn / eñ nockur Dreyndur kañ nærre ad gieta / jafnvel þoott þa vante Epterlæte Heims þessa / og sijnest Aumer og Sorgbitner/ samt bua þr vid hiñ mesta Føgnud og Rooseme Hiartans/ sm̃ eingeñ mæ af þm̃ taka. Þegar DRotteñ Gud sætte Mañkyned vid sialfañ sig i añad Siñ/ þa til bioo hañ siñ Boga i Skyenu/ til eins Sættmæls a mille sijn og Jardareñar/ Gen. 9. Þad er allra þeirra/ sem a Jordu bua. Ezechiel seger/ Cap. 1. ad Lijking Dijrdar Drott

ens/er hañ sa vid Flioofed Cedarts / hafe vered eins og Boge sa/ sem verdur i Skyunū þegar rigner. Dyrdleg var þesse Openberan/er Spa madureñ sa / eñ miklu er su Beglegre/Adre/ z Jñdælle / sem byrtest i christens Mañs Hiarta/nær hñ sier Gud nædugañ/nær hñ gledur sig i þm Sættmalanū/s̄ gierdt er a millū hñs z Drottens i Guds eingiet nū Syne/ hvers Buninge Johañes Regnboganū samlijker/Apoc. 10. hvør ed giører hañ þess fulloruggañ/ad hñs Synder sieu hønū fyrer giefnar. Drotteñ seger/Gen. 9. ad hñ vilie miñast sijns Sættmala / þegar Bogeñ siest i Skyenu / Eñ hversu feigeñ mun Syndareñ verda/ DRotteñ miñ/ þegar hñs Augu rigna Tarū Ydranareñar/og þiñ Nadar Sættmale myndast i þessu Skye fyrer Verkan H. Anda / sem ber hañs Anda Vitne um/ ad hañ sie Guds Barn / sem kallar Abba / þad er Fader / sem hroopar / Vert þu Nughraustur Sonur/þier eru þijnar Synder fyrergiefnar. Þegar Guds Meñ sau þessar Dyrdlegu Siooner/þa urdu þr Mættlaust/svo þar var ei Megn i þm framar/ svo s̄m Daniel um sig talar i hañs Mala-Bookar 10. Cap. Eñ þegar Guds Nadar-Liome skijn i Ydrande Mañs Hiarta/þa fær hñ nyiañ Dug/þad geingur hm̄ eins og þad gieck Ezechiel/ er hñ sa þessa miklu Syn/ er eg fyrer skøm̄u um̄gat/ ad hñ lifnade vid aptur/ og stood upp a sijnar Fætur þegar DRotteñ baud honum/eins bregdur Sañ-Ydrande Mañe vid Guds Anda Blijdlætis Avarp / nær hñ kelur hønū Tru um̄/ ad hvar sem ad Syndeñ yfergnæfer / þar yfergnæfe þo Nadeñ miklu framar. Hiñ nye Madur sprettur upp af Fagnade i hñs Hiarta / eins og Johañes i Moodur-Kvide / nær hønum til Eyrna kiemur þesse Kvedia / og kañ eingeñ Jardneskur Fognudur ad komast i nockurn Samjøfnud vid þessa Himnesku Glede/ Eg ma vel kalla hana Himneska / ecke einasta þess vegna / ad hun fra Himnum kiemur/helldur og hiñs/ ad meire Glede er i Himnenum yfer einū Syndara s̄m Ydran giører / helldur eñ yfer niju og nijutju Riettlatū. Mooder DRottens seger hier Orsøkena til þessa Guddoomlega Fagnadar: ÞVi HAñ LEit a LÆGing AMbattar SJñar. Stoora Orsøk hafde hun til þessa / þvi margar mundu hafa gøfugre

og meire-hæltkar vered eñ hun / sem ecke var meir meteñ af Heimenum eñ svo/ ad hun ei fieck añad Rum i Giestaz Herbergenu/ helldur eñ eitt Stall til ad leggia i Himens og Jardar Skapara / Hun mætte segia eins og Gedeon Fordum sagde vid Eingeleñ: Jud. 6. Hverneg skal eg frelsa Jsrael/ þar mijn Ætt er hiñ miñsta i Manasse Kyne/ og eg hiñ Miñste i Huse mijns Fodur. Ecke er þad Offsogum sagt um hiñ Mattuga Gud/sem Petur seger/ad Dramblætum mootstendur hañ/ eñ upphefur Lijtelæta. Hversu morg Dæme hofũ vier þar uppa/ ad hañ hefur utvaled þad/ sem eckert er fyrer Heimenum/svo sem hañ valde Gedeon/til ad frelsa Jsrael af Hende Madianitaña/sem var hiñ miñste medal sijns Foolks/svo kiore hañ og þissa orsnauda og fæmda Stulku til Moodur allrar Veralldareñar Frelsara/og var þvi oll Von/ ad hun fagnade slijkre Vpphefd/ hiin hverre allrar Veralldareñar Hofdingskapur er Prældoomur ad reikna/eñ hverneg sem þessu er vared / þa hugsa med þier / syndugur Madur / hversu Audvirdeleg ad sie Sæla þijn i Guds Auglite / þegar þu giorer hana ad Præl Andskotans med Jdkun verstu Slæpa og Misgiorda / sem upptendra Guds riettferduga Reide. Gud næde/ad hun giefur ei sagt/eins og Maria vid Eingeleñ sagde : EG Em AMbatt DROttens / VERde MJer EPTer ORde Þijnu / helldur verdur hun ad jæta / Eg hefe vered Fridla Satans/ og drygt Hooraner med morgũ Elskuga/straffa mig ecke i Reide þiñe/og typta mig ecke i þiñe Bræde. Seg mier / hver er þa svo lang sem Sæl þijn / og hver hefur meire Vppreist hloted eñ hun/nær hañ seger til heñar ? Kom þu aptur til mijn/ þoott ad Synder þijnar sieu raudar sem Blood / þa skal eg giora þær hvijtar sem Snio / og þoott þær sieu Purpura raudar / skal eg þær Ull-hvijtar giora / Esa. 1. O hversu miklu meire Ordsok hefur þu þa til ad glediast i Hiarta þijnu / helldur eñ Guds Mooder/ af þvi ad hun var hañs Lijkamleg Mooder / hun var alltijd Guds Barn / þu hefur optlega giort þig ad Diofulsins Barne/Hañ var heñar Hollogieteñ Sonur / eñ hañ bijdur þier / ef þu villt læta af Jllu / og læra Goott ad giora/ad hañ vilie myndast i þier aptur ad nyu/ sem Paulus ad Orde

kiemst/ Gal. 4. Svo þu verder hns andleg Mooder/ og er þsse Fögnudur ædre øllum Skÿlninge / Ef þu kant vid ad taka og med ad fara svo sm̃ Guds Barn/ Þetta voltar hn̄ sialfur/ er hañ sagde fordum vid Konuna/ er prÿsade Salu Moodur hañs / Hvad um̃ þad ? Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau. Nu svo sm̃ þesse Fögnudur i Gude er svo gott Alutskipte/ ad eckert er þvilÿkt/ þa er þad ecke i hvers Mañs Hiarta ad fiña / þvi Trueñ er ecke allra / seger Paulus/ 2. Tess. 3. Jafnvel þott þad stande øllu̅ til Boda/ sem vilia þad til þess vita/ ad hafna Glede Veralldareñar / og ecke selia þessa Sælu fyrer stundlegt Epterlæte Syndareñar. Þad er ecke nog/ Christner Meñ/ ad vilia na þessum Fögnudi / Miked skal til mikels viña/ seger hiñ forne Ordskvidur. Kieppist vid ad ganga iñ um̃ hid þraungva Hlided / seger Frelsareñ/ Luc. 13. Þvi eg sege ydur/ marger vilia þar iñganga og fa þad ei komest. O hversu miøg syndgum vier / jafnvel i voru Gudrækms Verke/ margur hver. Ef ad Gud veiter oss ein hvern Lÿkamlegañ Velgiørning / sem hañ Daglega giører / þa elska þeir hañ kañ skie / og þacka hønum þar fyrer/ sem Gudhrædder vera vilia/ og er þad skylldugt ad søñu/ Eñ þau Himnesku Dasemdarverkeñ/ svo sem Vtsending hañs Sonar / Afgiafer Heilags Anda/ Fyrergiefning Syndañа / þetta allt / sege eg / svo miked sem þad er / sem þo er yfer allañ Maata miked / þad orkar ecke svo mikils hia oss/ ad vier fyrer hañs Skulld / er oss allt þetta hefur Giefens veitt / villum forsma alla Veralldar Mune/ hvad ælle þier ad hiñ Alskigne/ hvad ælle þier ad Hiartnañа z Nyrnañа Rañsakare mune dæma um̃ svodd an Gudrækne ? Eg vil segia þad eg meina / ad hañ vill segia vid þa / sem alleina fiñist til þess sem Kroppnum gagnar / og duger til ad lifa vel og Rÿkmañliga i þessum Heime/ eñ meta lÿtels þad sem þar uppe er/ þau Stoormerke Guddoomligrar Elsku/ sem ei mætte afreka nema med hañs Sonar Dauda / vid þa vill hañ segia / sege eg / eins og vid Pharisæos fordum. Matth. 23. Vei ydur Skriftlærdu̅ og Pharisæis þier Hræsnarar/ þier ed Tÿunded Myntu/ Anis og Cumen/ eñ gleymed þvi sem meira er i Løgmalenu / Truñe / Doomnum og Myskunsemeñe/

semenñe/ þetta byrtar ad giøra/ eñ hilt ecke epter ad skilia. Svo eigū vier Gude ad þacka/ hañ ad elska og dyrka fyrer Lijkamlega Hlute/ og þad af allre Alud/ eñ þo længstum framar ad miekla hañ/ elska/ heidra/ og gledia oss i hønum fyrer þau dijru Sloormerke hañs Fødurlegrar Giæsku/ fyrer hver hañ hefur þrifed Sæler vorar ut af Andskotans Vallde. Heyred hvad DRotteñ seger fyrer Muñ Hoseæ/ Cap. 7. Þeir ækalla mig ecke af Hiarta / þegar þeir emia i Svefn-Husum sijnū/ fyrer Korned og Mustena samañsafnast þeir/ eñ eru mier þo O-hlijduger/ Hid sama er ad segia uṁ alla adra Guds Þioonustu/ er vier lætumst veita hønum / alleina fyrer Tijmanlega Mune / svo blanda Meñ samañ Guds Þioonustu og Mamonæ/ Vatne og Vidsmiøre/ sem alldrei kuña ad þijdast hvert añad. Meñ sverta vid Nafn Drott-eñs/ og þo under eins Malcom/ eins og Judar/ og dyrkum Gud i hañs Kyrkiu / eñ sierhver færer Foorner sijnu Skurgode a Hædunum / eins og þr/ þ er sierhverium þm Hlut/ er hñ metur meir edur jafnt vid Gud. Svoddañ Christeñdoomur er lijkur Fooskuñi a Nebuchadnezars Lijkn-eskiu/ er sumpart var af Leyre/ z sumpart af Jærne. Drotteñ sagde vid Ezechiel: Cap. 44. Þessar Dyr (hañ meinte hins allra Helgasta) skulu læstar vera / eingeñ gange iñ uṁ þar / þvi ad DRotteñ Israels Gud hefur þar uṁ iñgeinged. Þu skallt og miñast þess / sem ert eiñ Andlegur Israels Madur / hvad Gud lofad hefur uṁ siñar Kyrkiu Vijgslu / sem er þitt Hiarta / Eg skal giefa ydur nijtt Hiarta / og eiñ nijañ Anda skal eg setia medal ydar. Þetta ender Gud ad vijsu vid alla þa sem hønum eru helgader i Skijrneñe / og ecke saurga aptur hañs Mustere med Ydrunarlausu Framferde / Eñ sijdañ þu hefur hañs Hæsæte/ og Stad hañs Foota/ Ezech. 43. Þad er Guds Rijke/ iñe hia þier/ þa luk þeim Dyrum aptur/ hvar hañ iñgieck/ og leif eingū þar iñ ad koma til Gistingar/ nema hønū og hañs Christe/ sem er hiñ ædste Prestur/ og hñs Vmbods-Mønū (þvi hinū ypparsta Preste/ og hñs Vmbods-Mañe/ leyfdest iñ ad ganga i þad allra Helg-asta) Lát þar þvi iñkoma Gudrækelegar Aminingar / og holla Lær-doma Guds Ords Þienara / og añarra Gudhræddra Mañā : Med

þvi.

Þvilykum Gestū maa hañ giarna Sess eiga. Þu munt kañskie seg-
ia/ hverneg maa eg faa þvi vidkomed/ ad hugsa eckert añad eñ um̄ Gud/
a medañ eg ber epter mier þetta veika Holld? Hallt kyrru um̄ Stund/
Barn mitt. J Jerusalems Mustere voru Stader Heidingiunū ætlad-
er/ fyrer utañ þañ Mid-Veggeñ/ er DRottiñ nidurbraut/ þegar hañ
kom til syns Musteris/ þar var og Stadur fyrer þa/ sem Gydingar
høfdu giørst/ fyrer Foolkid/ og fyrer Levitana og Kieñemeñena/ sem
voru af hiñe lægre Rød/ eñ hiñ ypparste Prestur/ edur og hañs Um̄-
bods-Madur/ gieck alleina iñ i þad allra Helgasta/ Þar eru og i Guds
Mustere/ sem er þitt Hiarta/ margar Verur/ þar kañ ad vera fyrer
Hiegooma Veralldareñar/ er þu Daglega heyrer/ Laat þær alldrei kom
ast iñ fyrer Mid-Veggeñ/ helldur hallt þær fyrer eiñ Heidingia/ sem
ei meige saurga Guds Mustere/ þar er og Stadur fyrer Naudsynlega
Um̄hyggiu þessa fallvallta Lyfs/ fyrer Naunganum/ og fyrer Em-
bættis Utrielkingū voril/ eñ hid iñsta af Hiarta þynu skallt þu Drott
ne helga/ þad skallt þu Daglega hreinsa med sañre Ydran/ þad skallt
þu uppfylla med Reykelse Bænareñar/ þ skallt þu pryda med Skar-
te Bonareñar/ Truareñar/ Kiærleikans/ Eñ um̄ alla Hlute fram̄ med
Elskuñe til hañs/ þa vill hañ til þyn koma/ og Vistarveru hia þier
giøra/ þar munt þu sia hañs Dyrd/ svo sem i nockurskonar Skugg-
sia/ þar mun hañ læra þig smacka hvad sætur hañ er/ og þar mun hañ
jafnvel i hinu mesta Volæde kieña þier/ ad Mootlætingar þessara
Tyma sieu ecke verdar þeirrar Dyrdar/ sem vid oss mun fram̄koma i
eilyfu Lyfe/ Hverrar niootande ad verda/ oss uñe z veite hiñ Naad
uge Konungur eilyfrar Dyrdar/ fyrer JEsū Christū/ Amen.

## Fimta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled/ Luc. 5. Cap.

A Þañ Tyma, Og þad skiede / þa ed Folked flycktest ad
honum til ad heyra GUds Ord / Og hañ sialfur stod vid
Siooeñ Genezareth/ og hañ leit tvo Skip standa vid Sioo-
eñ. Eñ Fiskararner voru stigner af Skipunum og þvoodu
Neteñ. Hañ stie þa uppa añad Skiped / þad sem var Simonar /

Og bad hañ ad draga nockud fra Lande. Og hañ sat og kiende Foolkenu af Skipenu. Og sem hañ gaf upp ad kienna / sagde hañ til Simonar: Drag þu ut a Diuped / og leysed upp ydar Net til Fiskedrættar. Simon svarade og sagde til hañs: Meistare / i alla Nott høfum vier erfidad / og feingum eckert / Eñ i þijnu Orde mun eg Netenu ut kasta / og þa er þeir høfdu þetta giørt / inelucktu þeir mikla mergd Fiska / so ad þeirra Net rifnudu. Og þeir bentu sijnum Fieløgum sem voru a hinu ødru Skipenu / ad þeir kiæme þar / og hialpudu þeim. Og þeir komu og hloodu bæde Skipeñ full / so ad þau suctu ad mestu. Þa ed Simon Petur sa þetta / fiell hañ til Kniaña JEsu / og sagde: Gack fra mier Lavardur / þviad eg em Madur syndugur / af þvi ad Felmtur var yfer hañ komeñ / og alla þa sem med hønum voru af þeim Fiskedrætte er þeir feingu til samans / Slijka og eirneñ yfer Jacobum og Johañem / Sonu Zebedæi / sem ad voru Lagsmeñ Simonar. Og JEsus sagde til Simonar: Otkast þu eige / þviad hiedañ i fra skalltu Meñ veida. Og þeir droogu sijn Skip ad Lande / yfergæfu alltsamañ / og fylgdu hønum epter.

## Exordium.

BLEssan DRottens giører Rijkañ fyrer utañ Mædu / seiger Salomon / Prov. 10. Ecke meinte hiñ Vijse Konungur þad / ad ei skylldu synduger Meñ hafa Omak og Erfide fyrer Næringu siñe / þad var ecke hañs / ad raska þvi Løgmaale / er hiñ Alvallde Konungur sette strax epter Synda-Falled / ad med Erfide skyllde Madureñ sig af Jørduñe næra / og i Sveita sijns Andlitis Brauds sijns neyta / Gen. 3. Hitt er hañs Meining / ad hvert sem hiñ goode Gud lætur einum Aud edur Armood tilfalla / þa sie hañ samt Rijkur / ef hañ Ottast DRotteñ / leitar hañs Blessunar / og Næringar siñar i hañs Nafne / Hiñ Rijke ad señu / þvi þoott hønum Audur blotnest / þa fester hañ ecke Hiarta sitt þar vid / svo sem David bydur / Ps. 62. Ef hañ er Guds Barn / helldur stundar epter ad vera Rijkur i goodum Verkum / svo sem Paulus fyrer mæler / 1. Tim. 6. Og etur svo Braud sitt med Glede / og goodre Samvitsku / Hañs Erfide fellur hønum liett / og hañ þiggur Blessan DRottens med Audmykt og Þacklæte / af hañs ørlætes Hende: Svo giørde Abraham / Jsaac / og Jacob Forfedur / og marger af þeirra Nidium hafa fetad i þeirra Spor. Eins er hinum Fatæka vared / ef hañ elskar Gud / hañ stundar ad verda i hønum Rijkur / þegar hañ hefur DRotteñ / þa skeiter hañ hverke um Himen nie Jørd / hønum þyker sier borged vera / þegar hañ hefur eignast hañ / sem alla Verølldena hefur ad

Ærþdum teked / Chriſtum / Pſalm. 2. Þvi temur hañ ſier med Paulo / bæde hæt og lægur ad vera / bæde Noog ad hafa / og Skort ad lijda : Þañiñ hrooſar hiñ Audvirdelege Brooder ſier i Upphefd ſiñe / og hiñ Ryke i ſiñe Nidurlægingu/ Jac. 1. Dæme uppa ſvoddañ Rijkdoom og Fatækt høfum vier i þeſſa Dags H. Evangelio / a St. Petre og hañs Felögum / þar þeir høfdu alla Noottena erfidt ad / og eckert veinged / Eñ ſijdañ iællucktu þeir mikla Mergd Fiſka. Hier wt af vil eg Tvent athuga i þetta Siñ. 1. Ad oſſ byrie Poleñmoodum ad vera i Orbyrgdeñe. 2. Packlætum og Audmiwkum i Velgeingneñe.

Hiælpa oſſ til ad Hugleida þetta ſo ſem ber / þu alleina Ryke Konungur / og Skapare Himens og Jardar / fyrer JEſum Chriſtum / AMEN.

# Utleggingeñ.

JALLA NOTT HOFum Vier ERFidad / Og FEingum Eckert / ſeger Petur. Textiñ brukar hier þad Ord / ſem merker ad erfida ſig þreitkañ / og fyrer þvi hefur Guds Madur hier nockra Affſøkun / z vilde ſvo ſem hafa ſig undañþeigeñ / ad reyna til framar/ nema DRottiñ hefde høñu þad boded. Vidlijk Freiſtne hender jafnvel margañ þañ ſem vill Ottaſt og elſka Gud/ þegar hañs Erfide og Athafner luckaſt ecke/hañ þeinker med ſier/ Eg viñ Bake brotnu Eg bid Gud mier tel hiælpar / Eg ſlæ eingeñ Vindhøgg i mynum Atburdum / ſvo eg ſkyniad fæe/og er fræſneiddur allre Oradvendne/ad eg vilie taka myns Naunga Braud fra hañs Muñe / edur eta mitt Braud i añarra Sveita / þo Luckaſt ecke mitt Verk/Eñ añarra ſem midur bera ſig ad / hefur goodañ Frañgang / og þeim morkaſt / þoott þeir yrke ecke/ og hiñ Almattuge hñ elur þa ſofande/ Gud muñ mier æn Efa reidur vera / og hañ ſetur mynar heimuglegar Synder fyrer ſitt Auglite. Þvilijkt kañ Møñum i Hug ad fliuga/ Jafnvel þoott Guds Viner ſieu / þegar ecke verdur frañgeingt þad þeir hyggia ſier til beſtu Nota. Eñ lærid þ af Dæme Peturs/chriſtner Meñ/ og hñs Verkanauta/ad þier ei læted ſlijka Þanka koma i ydar Hiørtu. J ødrum af þeſſum Fiſke-Batum var Petur/ og Brooder hñs Andreas/eñ i ødrum þeir Zebedæi Syner Frændur DRottiñs/Marc. 1. Hverſu dætt hñ hafe elſkad þeſſa Fiſkara / þad gaf ſlijdar Raun Vitne uñ/og medal añarra/ þegar hñ þvode Fætur þeirra/ þegar hñ talade fyrer þeim hina Hiartnæmu Predikun/ſem ritud ſtendur/Joh. 14.

14.15.16. Cap. Epter Kvølldmaaltijdena/ þegar hñ leifde þm̃ ad so-
ka og hvglast / þa hñ sveittest Bloodenu under þeirra og allra Maña
Syndum/ þegar hañ bad þeim Orlofs ur Mordingia Hondunum/ þeg
ar hañ leitade ad þm̃/ uppriseñ af Dauda/ er hñ þo skømu ædur yfer
giefed høfdu/ og sierdeilis Petre/ er mest hafde tilunñed/ þo lætur hañ
þa hier alla Nootkena Forgiefens erfida. Og ef hañ breytte svo vid
þa/ þvi meigum vier þa kuña hiñ Alvijsa fyrer þad/ ad hañ sijner oss
sømu Nææd/ sem hinu kiærustu Vinu sijnu/ hverra Skoopveinge vier
erũ ei verduger upp ad leysa/ edur ad þurka af Dupt Foota hra : Ætle
þvi eingeñ / ad sa mune vera hiñ beste Guds Vinur / sem hañ Lænar
mest af Veralldar-Munum/ eñ ad hañ hafe stoked hinum fraa sier/ er
hañ lætur þa vanta/ aññars hadade Nabal i Guds Skaute/ eñ David/
sem nærre þvi foor a Vonarvøl med Sveit siñe fyrer Ofrijke Sauls
Konungs/ hañ være utrekeñ fra hañs Auglite/ Lazarus være burtkast-
adur/ eñ hiñ rijke Sælkiere iñtekeñ i Guds Vinaattu. Dæmum þvi
ecke epter Holldenu/ Joh. 8. Christner Meñ/ helldur lærum af þessum
Guds Hektum/ad varpa allre vorre Ahyggiu uppa hañ/ þvi hañ mun
þvi vel til Vegar koma/ Ps. 37. Hvad sem hañ lætur oss til Handa
bera. Þad hiaalpar ecke til ad hlaupa/ ad vera skiootur/ ecke til Bar-
daga/ ad vera sterkur/ svo hiaalpar þad og ecke til Rijkdooms/ ad vera
Ahyggiusamur/ þvi þad er satt sem Syrach seger/ Cap. 11. ad Lucka
og Olucka/ Lijf og Daude kome af DRottne/ og hañ giefur þad hver-
ium hñ vill. Hver vill segia vid hñ/ Hvad giører þu? MEIstare/
I Þijnu NAfne Mun Eg NEtenu VTkasta / stendur i Gudspiall-
enu: þetta Ord MEISTare/ þijder Verkstioora/ epter Textan-
um/ edur og Høfdingia/ edur Forraada Mañ : Ef hañ er HErrañ /
maa þa bana hønum ad skipa mier ad erfida / jafnvel Forgiefens/ ef
hønum svo lijkar ? Eg aa ecke meira af Idiu miñe/ helldur eñ hñ mier
skamta vill/ svo sem ødrum Verk-Þræl/ eñ eg veit ad hañ er trur/ og
freistar einkis yfer Megn fraũ/ og ecke maa eg svo vid hñ breyta/ svo
sem sumer af vorum Verka Møñum vid Husbændur sijna / nær þeir
þykiast þreytter vera / vilia þeir eckert Verk framar viña : Ecke maa

 eg

eg helldur svo Ranngeyrdur vera/ ad sia Offsoonum yfer þvi/ ad hann lienar ødrum metre Namingiu i sijnu Erfide / þvi hann took þad ecke af mijnu/ sem hann gaf honum frekar enn mier / fierdelis þar eg veit ecke hans Tilgang/ hann hefur Tijma og Neinkugleika sett i sijnu Wallde // Act. 1. enn ecke mijnu /. Hver hefur nockurn Tijma hans Radgiafe vered? Rom. 9. Nu sie eg af Dæmum/ bæde Fornum og Nyium/ ad Gud lienar Audenn sumum Mønnum / til þess/ ad hans Þolenmæde og Giæska drage þa til Ydranar/ Enn nockrum/ þad er þeim Feitlingiunum/ sem upp hafa fyllt Mæler Syndanna/ til Straffs og Hegningar / svo sem Menn ala eitt Vxa til Slatrurs. Apkur mun þad peckia/ ad Gud svipter sijn Børn þessum Veralldar Riegooma/ til þess/ ad deyda þar med Holldsins Gyrnder/ til þess/ ad reina Stødugleik Truar þeirra/ eins og Jobs/ Ecke fyrer þvi/ ad hann þecke hun ecke siælfur best/ helldur ad þeir sem hann elskar // lære ad þeckia siælfa sig / og treysta ecke ofmiøg Mætte sijnum i Andlegum Efnum / og lære ad segia med Paulo: Þa eg em Veikur / þa em eg Mattlugur. Þad gioerer sa blessade Herra og svo til þess / ad venia oss af Briostum hinnar flærdu Skiæktu Veralldarennar/ og ad Menn þecke/ ad allt þad sem i Heimenum er/ þad er ecke annad enn Fysn Holldsens/ Lysting Augnanna/ og Drambsamt Lijferne/ 1. Joh. 2. Og lære ad skynia þad sem þar uppe er/ og ad vor Borgar-Riettur er a Himnum/ hvadan vier væntum Frelsarans JEsu Christi/ Phil. 3. Hver þott hun være rijkur/ seger Postulenn/ giordest hann Fatækur/ svo ad vier fyrer hans Fatækt rijker yrdum/ 2. Cor. 8. Þvi skyllda eg mogla a moote honum/ sem ad veit alla Hlute/ aller eru þeir opner og nakter fyrer honum/ seger Postulenn/ Eru ecke þetta Guds Sonar Ord hia Matth. 6. Ydar Himneskur Fader veit ad þier hafed alls þessa þorf? Og ecke einasta veit hann þad/ helldur og skorter hann ecke Mætt til ad hiælpa/ Er hans Hond nockud stutt orden/ svo hun er hiælpa kune? Esa. 59. Jorden er hins og allt hvad þar i er/ Jardar-Kringlann / og aller þeir ed a henne bua / Ps. 24. Nær hun talar/ So skiedur þad/ nær hann bydur verdur þad/ Ps. 33. Edur mun hun Giæskuna bresta til ad vilia hiælpa/ hafe hun

skapad

skapad Saal og Lijf/ og furdulega þm̄ vidhallded allt til þessa Dags/ og giefed oss þad besta er hn̄ atte/ sin̄ Eingietenn Son/ til ad frelsa oss ur Kvølunum/ sin̄ H. Anda til ad helga oss / ad hañ sie Pantur vorrar Arfleyfdar og eilijfs Lijfs / Mun hañ þa ecke giefa oss þad vier vidþurfum til þessa Lijfs Næringar/ þott hañ læte Stundum Misbrest a þvi verda/ þeirra Orsaka vegna/ er hañ sialfur veit/ en̄ vier fávijsar Manneskiur skiljum ecke / Eda seger ecke Postulenn berlega : Hañ sem gaf oss Soneñ / mun hañ ecke giefa oss alla Hlute med Honum ? Hañ hefur sialfur læted oss bua vid þañ Kost er hañ vill / er oss skapad / Endurleyst og helgad hefur. Ef hañ nu elur Fuglana under Himinenum / svo ad einn Titlingur af þm̄ fellur ecke a Jordu an hn̄s Vilia/ Ef hañ prijder Grased þad i Dag er a Akre / framar en̄ Salomon Konung i allre sinne Dijrd / og verdur þo a Morgun i Ofn kastad / Matth. 6. Munde hañs Giæska þa neita oss þess / er vier skulum neyta og klædast med / oss sem fyrer hañs Sonar dijra Blood og sarru Kvøl erum hañs Barn ordner ? Munde hn̄/ seger eg/ neita oss þessara Hluta / nema ad hañ visse ad oss gagnade ... Stundum ad missa þa / og jafnvel þott hn̄ tæke Lijfed af oss/ med hveriu Moote sem honum þocknast/ þa verum þess fullvrugger/ ad hn̄ giører þad til þess/ ad vier skulum finna þad eilijflega/ þvi þad skal skie / ad hver hn̄ trúer a Sonenn / þott hañ deye / þa skal hañ samt lifa / Joh. 11. Og høfum þad fyrer vijst / ad hverke Lijf nie Daude / hverke Einglar nie Høfdingia-Dæme / hverke hid Nalæga nie hid Epterkomanda / hverke Hæd nie Dypt / nie nockur annar skapadur Hlutur mune fa oss skiled vid Kiærleika Guds / sem ad er i Christo JESU DRottne vorum / Rom. 8. Hversu Ovænlega sem oss horfa þyker / Eñ þo ad Gude þocknest ad lata vort Erfide og Astundan misfalla / Christner Meñ / þa leikiumst ecke i þvi / ad hvad vier giørum / þad giørum vier i Nafne JESU Christi / og þockum Fodurnum fyrer hañ. Þoott Petur hefde ecke fiskad alla Nootkena/ nie hañs Felagar/ og voru svo afstigner Skipunum / Vrkula Vonar um frekare Fiske Veidar i þad Siñ / Samt heyrdu þeir Guds Ord/ og hina ægiætu DRottens Predikun: Breyt-

um og þanenn/ þo vort Erfide Luckest ecke m Stundum/ þa gleymum ecke Gude/ þvi eitt er Naudsynlegt/ Leitum þar fyrer hans Rykis/ og hans Riettlætis/ þa mun oss allt annad tilleggiast/ Matth. 6. Ef ecke svo sem vier villum/ þa svo sem hn vill/ hvers Vilie ad vier Daglega bidium ad verda skule / og giørum Verk vorrar Kallanar i Otta DRottens epter hns Bode/ Svo giørde Petur/ J ÞJNu ORDE/ þad er/ epter Skipan þinne/ Vil Eg NEtenu VTKASta. Mattugur var JEsus ad læta Fiskana hlaupa lifande upp i Skiped/ ecke sijdur enn ad læta Petur finna Peningenn i Fiskiarens Munne / Matth. 17. Þo skipade hn honum ad draga ut a Diuped/ epter þad hann hafde hlijdt Guds Orde. Tvent er hier ad læra: Eitt þad sem eg fyrer skømmu ammintest / ad Menn byrie øll syn Verk i Guds Nafne / og ad hønum med sier tilkølludum / svo giørde Petur/ þvi a Virkum Deige hefur þetta vered/ annars hefdu þeir ecke fared til Fiske-Veida: Hitt annad / ad Menn bruke þau Medøl / sem Gud hefur kient og boded / i Atvegum Næringar sinnar/ enn grijpe ecke til Oleifelegra Hluta/ þegar ecke vill ærkast. J ÞJNu ORDE VJL Eg NETenu VTKASTA. Net þijder marga Hlute i H. Ritningu / þad merker Svikræde og Vielar Oræduandra/ og Gudlausta Manna/ þr ed Stela/ Liuga / Svijkia / Ræna / Kuga / Hræsna og a Tælar draga Einfalldar Sæler / til Abata sier: Þesser kasta Netenu ut i Andskotans Nafne / og þo þad meige Luckast um Stund / þa munu þeir um sijder Oluckuna Veida. Um suma af þeim talar Salomon / Prov. 29. Sa sem Hræsnar fyrer Vin synum/ hann breider Net fyrer hns Gang. Enn David seger hver Utførenn mune verda / Ps. 9. J þvi Nete er þeir faled hafa/ er þo Fotur þeirra fangenn. Þad merker og Ofbellde þra/ er draga alla Hlute til syn/ med Vallde og Ofrijke/ so seger Ritningenn um Konungenn af Babilon/ Habac. 1. Ad hann hafe fært Foorner fyrer Nete synu / þad er / hann hafe þackad Magt sinne og Atburdum allann sinn Sigur / og þad Vallder hann feinged hafde yfer ødrum Konga Rykium/ hver ed hann droo til syn/ svo sem þegar Fiskarar veidder eru. Þesser kasta Netenu ut i synu eigenn Nafne / og eru

hinum

hinum fyrre eingu betre/ þvi þeir gleima Gude Himnaña / fra hveriū ad Sigureñ kiemur/ eñ treista a Maatt siñ og Meigeñ. Þetta Ord þyder og Guds Bræda Nefnd / yfer hinum Stollta Veralldar Sonū/ hver ed yfer þa kiemur a Skundum / nær þeir minst hyggia / svo sem Neted yfer Fiskeñ / svo sem Jood-Sootf yfer Olietta Konu/ 1. Tess. 5. Þetta Net er vijst øllum þeim er upphefia sig a moote Gude / og ecke giefa hønum Dijrdena / þess giefur hiæ Ezech. 17. Þar ed seger : Eg skal utþenia mitt Net yfer hñ / og hañ skal i mijnu Nete fangeñ verda / þvi vil eg nu i hinum sijdara Partenum med færstu Ordū Nugleida/ hversu ad vier eigū i Medlætenu audmiuker & þackläter ad vera.

Gudspialled seger : Ad þegar þr feingu þetta mikla Fiske-Drætt / þa hafe Petur kroped ad Knium JEsu. Þetta var Þacklætis Merke hañs / añad hafde hañ ecke Guds Syne ad giallda / añars kiefur hañ ecke helldur af neinum / þvi hañ er einkis Þurfe. Þad synde hañ Oplega / jafnvel i hans Lærngar Stande / þegar hañ villde bruka Vallð sitt/ og þad ecke skiost med þessare Dijrdlegu Jardteikn. Svo sm̄ þ Gud seger fyrer Davids Muñ / Psalm. 50. Ad hañ vilie ecke segia Mañeskiuñe til ef hañ hungrar/ Þviad allt Silfur og Gull sie hañs/ og øll Trien a Mørkeñe / og øll Dijreñ a Skogunum. Svo er af þessu Dæme liooft/ ad DRottenñ JEsus hefur/ epter Mañdoomenū / þeged af sijnum Fødur Valld yfer øllū Skiepnū Guds / og allt hvad vier medtøkum af Guds Nende / þad veitest oss fyrer hañs Skulld / a hønum þar fyrer skylldugar þacker ad giallda / og i hañs Nafne ad bidia uñ allt þad vier þiggia þurfum af hiñe Almæktugu Nende/ þar fyrer seger Paulus/1. Tess. 5. Bidied Daflætañlega/og gøred Þacker i øllum Klutum/ þvi þad er Vilie Guds fyrer Christum JEsum i øllu vid ydur. Petur var svo þacklætur vid DRotteñ fyrer eitt Fiske-Drætt / Eñ hvad marga høfum vier nu þeged? Satt er þad/ad hiñ Stoore Allsheriar DROTTeñ hefur lated Eitt edur Tvø Ar a Stundum vorar Fiske-Veidar misfalla/ eins og Peturs i þetta Siñ / uñ Nootlena fyrer þetta mikla Napp/eñ sijdañ hefur hañ yferfliootanlega a mørgum Arum uppfyllt oss med Blessan sine af Sioonum / svo

ſvo ad hefdum vier haft Framſyne Josephs / og ſafnad a þeim goodu Tijmunum / þad oſſ og Naunganum hefde kunnad ad hiaalpa a þeim vondu / er vier ſvo køllum / þa hefdu ecke þær hinar mogru Kyrnar uppeted þær feitu : Enn hvert Þacklæte høfum vier nu gollded Gude þar fyrer ? Þad finnur hver einn / þegar hann athugar grandgiæfelega med ſiaalfum ſier / hverſu lijtt hønum hafe vered hugad umm / ad Offra DRottne Lofgiørdenne / þegar hann hvad meſta Bleſſan hefur af hanns Nende medteked / Jafnvel þoott ad aller Chriſtner Menn vite / ad þeir ſieu ſkyllduger til ad þacka hønum / eins vel fyrer Mootlæte ſem Medlæte. Seged mier / Er hann nockrum nockud ſkylldugur ? Hver hefur hønum giefed ? Hver hefur hønum laanad ad fyrra Bragde ? Og hvad ſege eg / ad fyrra Bragde / Hver hefur hønum nockud nockurn Tijma giefed ? Þvi þad er vier læætumſt utdeila vid þa er hann ſkipad hefur / þad tøkum vier þo ecke af voru / helldur af hanns / ſem bæde a oſſ / og allt þad er vier køllum vort : Hvillijkt er þa ſu Fáviſka : Ad vier ecke Daglega ſkulum ad Guds Kniaam kriupa / til ad Offra hønum Þacklætenu / fyrer þær Ometanlegu Velgiørder / er vier a hverre Stundu þyggium af hanns Orlætes Nende / ecke einungis Lijkamlegar / er oſſ þyker meſt tilkoma / helldur og Andlegar / ſem eru miklu dijrare / ef vier hefdum Rakt edur Vitsmune moote ad taka. Ecke þoockte DRottne ſvo miktilsverdt umm þeſſa Fiſke-Abla / þvi hiet hann Petre ødru ſem var miklu magiæfara / er hann ſagde : HJER EPTER SKAlltu MEnn VEJda. Eg ſkal giøra yckur ad Manna Fiſkurum ſagde hann ſkømmu ſijdar vid þa Zebedæi Sonu / þad er / ad þeir ſkylldu bæde ſig og ſijna Tilheyrendur hoolpna giøra / ſvo ſem Paulus ſagde vid Timotheum / 1. Tim. 1. Þeſſa høfum vær adnoted / þar Hlioomur þeirra er og oſſ til Eyrna komenn / Vier ſem buum hier a Vtſkiækle Veralldarennar / Vtlæger / ſvo ad ſegia / fra ødrum Løndum / og þar fyrer eigum vier hinum gooda Gude hvad meſtar Þacker ad giallda / og ecke einaſta ad heidra hann fyrer Korned og Muſtena / þad er fyrer Mat og Dryck / Epter hveriu ad leita heidnar Þiooder / Matth. 6. Helldur fyrer þad Lijfſins Brauд / ſem er af Himnum ofannkomed.

og fyrer þad Vakn / epter hvert ad eingañ mun þyrsta / þañ sem af þvi dreckur/Joh. 4. Þad er sialfur JEsus/ sem Guð hefur Mönnunum giefed/ Upphfareñ i Nædernar: Eñ þad er ecke noog ad læmast þacka Gude med Munenum alleina / Niartad a ad fylgia med / og hin mesta Audmykt/ og Undergiefne Andans. Þegar þeir Petur hofdu feinged þeña mikla Fiske-Drætt/ þa stendur i Gudspiallenu / ad hañ hafe sagt vid JEsum: Vyk FRa MJer LAVARDur: Munde hañ nockud kvedia honum Bygd svo sem Gadareni / Matth. 8. edur yfergiefa hañ svo sem Capernaums Borgarmeñ / Joh. 6. edur uthyßa honum svo sem hiner Samariskn / er hañ ferdadest til Jerusalem giegnum Bygd þeirra: Fiærre er þvi. Hin mesta Niartans Audmykt og Þeking sijns Overdugleika hefur þryst honum til ad tala þesse Ord/ þad er audsært af Orsøkeñe / er hañ færer hier til / ÞVi Ad Eg Em Madur SYNDugur. Svo er nu Mañleg Nattura veik / ad hun stendst ecke Guddoomsens Nalægd: Hun ælijtur helldur i fyrstu siñ Overdugleika/ helldur eñ Lausnarans Forþienustu. J heillt Ar hafde Petur þeckt JEsum/og heyrt hñs Kienningar/ þegar þesse dyra Jardteikn var giør/og þo var hier svo sem hñ mistreiste i Fyrstuñe hañs Nad / er honum þo skømu ædur hafde svo Nadugur vered. Þu ert iñgeingeñ til mijn Guds Madur / sagde Eckiañ i Sarepta / til ad miñast Ranglætinga miña / og deyda Son miñ / 1. Reg. 17. Hvar fyrer: Þviad hun kalde sig Overduga / vegna Synda siña / og þookkest ecke svo lifad hafa / sem hæfde Guds Sendeboda. Manoah sagde vid Husfreiu sijna / Jud. 13. Vid munum vissulega deya / þvi vid hofum sied DRotteñ. Hvad velldur þessu? Þviad Samvitskañ/nær hun er skielfd og ængrud vegna Syndaña/ þa gleim er hun Forþienustu Medalgængarans / eñ hugleider Gud alleina / svo sem strængañ Doomara og Hegnara Ranglætesins: Svo meinte og Petur i þetta Siñ/ ad Rietklaater einer mættu bua med Christo/hinu ødrum være hñ eirn fortærande Eilldur/jafnvel þott hñ være i Heimeñ komeñ til ad kalla Synduga/og ecke Rietlæta til Ydranar. Þetta verkar nu. Umþeinking Syndaña og Rietlætesins i Fyrstuñe hiaa

Guds Børnũ/og þoott ad i slyku sie Veikleike nockur/ þa þienar hañ/ svo sem allt añad/ þeim til Gooda sem Ottast Gud. Fyrer þvi nær þu framkiemur i þiñ Bæna-Stad / til ad þacka Gude fyrer Velgiørder sijnar / edur ad bidia nockurs af honum / þa ber samañ hañs Hæfign og þitt Volæde / hañs Giædsku / og þijna Vondsku / hañs Riettlæte / og þijnar mørgu Synder / hañs Þolenmæde / og þijna Þvermoodsku/ hñs Almætte og þiñ Vanmætt/og mun bradlega Felmtur yfer þig koma/ecke sijdur eñ þa Petur/ z þitt Hiarta smellta i þier/ so sem añad Vax/ af Tilfiñingu Guds Reide yfer Syndunum og Helvijtis Kvala/sẽ þær hafa uñed til/og nær þu þañeg staddur ert millũ Vonar og Otta/ þa muntu heyra med Petre/ af Guds Alfu/ OTTast Ecke/ jaa/ vertu Hughraustur Sonur/ þier eru þijnar Synder fyrergiefnar. O vor Gud/ Nær hin kallda og bitra Daudans Stund oss ad Høndũ ber/ og Samvitskañ tekur ad æklaga oss/ Miñing Syndaña ofbijdur oss/ Diøfulleñ hreller oss/ med þra Miñingu/ og giører hvad mest ur þeim / eñ lijted ur þijns Sonar Verdskulldan / sem þo er øllu meire/ þa læt þiñ H. Anda mæla þesse føgru Ord i Hiarta voru/ og bera vorũ Anda Vitnisburd þar uñ / ad vier sieũ Guds Børn. Bænheyr þad Himneske Fader fyrer JEsu Blessada Forþienustu/ Amen.

## Siøtta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Matth. 5. Cap.

Þañ Tijma. JEsus sagde til sijña Lærisveina: Eg sege ydur/ Nema so sie/ ad ydvart Riettlæte yfergnæfe meir eñ þad hiña Skriftlærdu og Phariseaña/ þa munud þier eige iñganga i Himnarijke. Þier hafed heyrt hvad sagt er til þeirra gømlu. Ecke skalltu Mañ vega. Eñ hvør hañ vegur Mañ/ sa verdur Dooms sekur. Eñ eg seige ydur þad / hvør hañ reidest Broodur sijnum / sa verdur Dooms sekur. Eñ hvør sem ad seger til Broodur sijns / Raka / hañ verdur Raads sekur. Eñ hvør sem seiger/ þu Afglape/ hañ verdur sekur Helvijtes Ellds. Þar fyrer / nær ed þu Offrar þijna Gafu til Altaris/ og þier kiemur þar til Hugar/ þ þitt

Brooder

Brooder hafe nockud a moote þier / þa lættu þar þÿna Gæfu fyrer Altarenu / og far ædur ad sætta þig vid Broodur þiñ / og kom þa ad Offra þÿna Gæfu. Verdu snarlega sampyckur þÿnum Mootstødu maññe/a medañ þu ert eñ a Veige med hønum/so ad eige selie hañ þig þiñ Mootstødumadur Doomaranum/ Doomareñ selie þig Þienaranum / og verder so i Dyblissu kastadur. Sañlega seige eg þier/ ad eige muntu þadañ ut fara/ þangad til þu hefur borgad hiñ sijdasta Pening.

## Exordium.

ÞJer villest / þar þier vited ecke Ritningarnar / sagde DRotteñ vid Sadducæos/ Matth. 22. Med vidlijku Moote ævarpade hañ Phariseos / Marc. 7. Þier Onyted Guds Bodord / svo ad þier halldeð Setninga ydar / og þad gjører hañ satt / bæde i greindum Capitula Marci / og svo hinum 23. Matthæi. Þad er hvertu Orde sañara / sem Paall skrifar / ad Holldlegur Madur skynie ecke hvad Guds Anda er / og þad sie hønum Heimska / 1. Cor. 2. Þad er liooft af Dæme hiña Skriftlærdu / er kølludu sig ad hafa Likel Vitskuñar / eñ utløgdu þo Ritninguna epter sijnum eigeñ Þootta. Þad auglijser hiñ stoore Biskup med þa vellærdu Tunguna i þessa 6. Dags Evangelio/ þar hañ sialfur utleggur Løgmaaled lÿngtum ødruvijs eñ Gydingaña Vitringar hielldu : Hver hañs Utskyring ad næstu Letre er vidtekeñ af flestum þeim ed Christner kallast / þo er þar i ein Grein / sem ecke kiemur øllum samañ uñ / Þad er þesse: VERtu SNARlega SAMþyckur ÞJnum MOOTstødu MAñe / A MEDañ þu Ert Eñ A VEige Med HONum / Svo Ad Eige SElie Þig Þiñ MOOTstødu Madur DOOMaranum / Og DOOMareñ SElie Þig ÞJENaranum / Og VErder Þu Svo i DYblissu KAstadur. Ut af þessum Ordum DRottens hafa Einþycker og Skynhelger Meñ þad spuñed / ad ei leifest Christnum Møñum ad eigast Løg vid fyrer sijnu Yfervallde / og þvi verr / ad i Lande voru eru þeir / er leggia þad ut a hiñ versta Veg / ef nockur er Vandlætingarsamur i þvi / ad sækia Guds og Konungsins Riett / Ad forsvara Virdingu sijna og Fiaar-Hlute fyrer Asælne vondra Maña / ad styrkia Mallefne Eckuñar / og hiñs Fødurlausa / og kalla / ad þad kome ecke einum vid / og jafnvel þoott ad Løgræningureñ sie høñum Vandabundeñ / og nefna slijkt Oroon og Fridar Spiller. Eñ eg mun med þeim Ordum sijna / ad ei sie þad Lausnarans Meining/ ad baña Christnum Møñum ad sækia Riett siñ : Og þar hiaa / ad vor Riettargængur eige ad vera aan alls Haturs og Reide.

Þu Riettlaate Fridarens Gud / Gief oss Naad þijns Anda þar til / ad þetta Hyrende vel Luckast meige / fyrer JEsum Christum / AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞOtt ad ecke væru adrar Røgsemder til þess / ad Lausnareñ ei tale hier uñ Veralldlegañ Rett / hellldur uñ þad Riettlæte / sem

fyrer Gude gyllder / þa er su noog / ad hañ seger i Undverdu Gudspiallenu : NEMA ad Ydar RJettlæte YFergnæfe FRamar Eñ Hiña SKriftlærdu og Phariseaña / þa Kuñed þJer Ecke Jñ ad GANga i GUDS Ryke. Vitanlegt er þad af Gudspialls Søgunum / ad ecke høfdust þesser Skynhelgu Meñ þa Hlute ad / sem Veralldar Rietktur kyñe ad fella þa fyrer / eñ fyrer þvi / ad Guds Doomar eru ecke eins og Maña Doomar / þeir dæma epter Gøgnū og Vitnum / eñ hñ ecke epter þvi sem hañs Auga ser / edur hñs Eyra heyrer / helldur rañsakar hañ Hiørtuñ og Nyruñ / Ps. 7. Fyrer þvi / sege eg / tekur Lausnareñ til ad utskyra hid Fimta Bodord fyrst / og syner / ad ecke einasta Mañdrap edur utvortis Mispyrmingar sieu fyrer Gude Saknæmar / helldur og Reideñ i Hiartanu / z Ovyrdingar Ord þau / er framkoma af Muñenum. Ef Meñ nu þetta fyrer satt hallda / sem eg hygg ad aller giøra mune / sem þessa Ritningu vel rañsaka / Hver vill þa segia / ad Frelsareñ meine i þessum Capitula fyrr edur sydar / Veralldlegañ Rettar-Gang ? Ad þessu lytur þad / er sydar stendur i Gudspiallenu : NÆR þu OFFrar þyna GAfu FYRer ALtarenu / Og þJer kJemur þar Til Hugar / þad þiñ BRooder Hafe NOckud a Moote þier / þa Lætku þar þyna Gæfu Fyrer Altarenu / og Far adur ad Sætta þig Vid BRoodur þiñ / og Kom þa ad Offra þyna Gæfu. Seged mier / hver a ad þiggia Offred / Gud edur Syslumadureñ ? Hvada Doomare mun þa meintur i þessum Ordum : AD Ecke OFurselie HAñ þig DOMaranum ? Eg meina Gud / þvi a Myskunseme hefur hañ þocknan / og ecke a Offre / Hos. 6. Eñ Veralldar Høfdingiar / þvi verr / þeir hafa margur hver þocknan a Offre / eñ ecke a Myskun / nær þeir taka Fe til ad Riettlæta hiñ Ranglæta / eñ fordæma hiñ Saklausa an allrar Vægdar og Myskunar / og svo sem þad DRottne ecke þocknadest Offur hiña Heimsku / Eccl. 5. odruvyse eñ svo hañ seger / Esa. 66. Ad hver hañ slatrar Naute / þad er sem hañ slæe Mañ i Hel / Hver hañ loogar Saud / þad er sem hañ Afhøfdade eiñ Hund / hver hañ færer Foorn / so sem Offrade hañ Svyns-Bloode / sa ed Reykelse breñer / so sem hañ

giæfe

giære þad Skurgode / so vill og Frelsarenn segia / ad øll Guds Þioonusta þess/sem er missættur vid siñ Naunga/þañ er hñ hefur afgiørt vid / hun sie Andstygd fyrer Gude / ef hañ mæ aftars Sacktum næ / og þvi ælyktar hañ med þessare Grein: VErt SÆTTAnlega SAMþyckur ÞJJNum MOOTstødumañe / A MEDañ Þu Ert Eñ A VEge MED HOnum / SVO Ad EJGe SEtie Þig Þiñ MOOTstødumadur DOOMaranum/etc. Ad Doomareñ sie Gud/ Allsheriar Konungur / þar er eingeñ Efe a / hañ eirn a Valld a ad kasta þeim hañ Fordæmer i þad Fængelsed / hvadañ ecke er Endurlausn/ sem er Helvijte/ og ad þad sie hier meint/ vottar Epterlijkingeñ um hiñ vonda Þioon/er rikud stendur/Matth. 18. Hañ æ og alleina Himnarijkes Valld. Fyrer hvers Riettlæte vier iñgaungum i Guds Rijke/ er alkuñugt/ ecke Phariseæaña/ ecke vort eiged / edur Heilagra Maña/helldur hñs/ sm̃ er Jehova vort Riettlæte/Christus/eñ hañs Riettlæte mæ eingeñ næ fyrer utañ þad / ad hañ sie vid siñ Broodur sættur i sijnu Hiarta/ad miñsta Koste/og vilie ofgiørt hafa þ afgiørt var. Nu er eingeñ heilvita Madur sæ/ ad ef hñ hefur misgiørt vid nockurn/ad hañ ecke helldur leite Sætta til hañs/ helldur eñ ad mæta fyrer Doomaranum/ hver ed auk Þegnsens Riettar/feller a hañ Konungsins Sok/sier deilis þar Konungarner hafa epterlæted slijkar Sæt er / nær Mælunn er svo hættad / ad ecke snerter Guds Æru / nie Tign þra. Nu hygg eg su sie Meining DRottens i þessare Grein / þad sem Framsyne þyker i Veralldlegum Mælum/þvi skyllde þad ei þykia i Efne Sæluhiælpar ydar i Frær Veralldlegum Doome mæ komast a einhvern Hætt/Einhver kañ ad gæmga i Borgun fyrer mig/ miter kañ Arfur til ad falla/ svo eg giete loked Skulld mijna/ Viner og Naungar giefa Fridstillt miñ Mootstødumañ/ Eñ fræ Guds Doome eingañ veigeñ / nema eg verde sættur vid miñ Mootstødumañ / a medañ eg er eñ þa a Vege med honum / þad er / a medañ eg life / ædur eñ eg kiem fyrer hiñ stræmga Allsheriar Doom / og verd i Myrkvastofu kastadur / hvadañ eg mun ecke utfara / þængad til eg hefe borgad hiñ sijdarsta Penning / Þad er alldrei / þvi ur Helvijte er eingeñ Endurlausn-

Þar fyrer er einfælt ad sættast vid Naungann medan Tijmenn er/ flere deilis þar eg veit ecke hvad myked er epter Begarens / Gud rædur mijnum skijdarsta Natur-Stad / og ecke sialfur eg / Og hier af hygg eg þad audsært/ ad ei tale Frelsaren i þessum Stad umm Veralldlegann Riett. Veit eg ad DRottenn seger i þessum sama Capitula. Ef nockur vill vid þig Løg preyta/ og þijna Yferhøfn af þier taka/ lát hønum og þitt Kyrtel epter. Eg vil nu ei fáa mier þad til Orda/ ad marger Lærder Menn leggia þetta svo ut. Vilie nockur Kieppa vid þig umm Yferhofn þijna. Þad er / taka hana af þier med Ofbellde/ Eg vil láta hitt standa/ samt hefur þo Drottenn ecke i þessum Ordum Laga-Riettenn fyrerboded/ þad var ecke hans ad banna Mosium Løg og Riett/ sem ad er Nøfundur Riettar og Laga/ hvers ad er Doomarenn/ hver z er medal Doomarana i Doomunum/ ad Vitne Josaphats Konungs/ 2. Cron. 19. helldur þeirra sem neita Mosium riettra Laga/ Tradka Mølum Manna med Flækium og Rangsleitne / Spilla Løglegum Vitnum og Stefnum ad Raunalausu/ hveria DRottenn vill skijdann dæma. Enn eg vil aptur taka til hins fyrra Mals. Eingum bann ar DRottenn i þessare Grein ad beidast Riettar sijns : þad er alkunnugt / ad Frelsarenn talar i Ordskvidum og Epterlijkingum þrælega i Kienningum sijnum/ Hann samlijker Christnena Vijngarde/ Akre/ Brud kaupe / þo er Christnenn hverke Vijngardur / Akur nie Brudkaup. Hann kallar Herodem Ref/ munde hann þar fyrer Refur vera? þa Johannem og Jakobum þrumu Syne / mundu þeir þa ecke vera Zebedæi Syner ? Hann seger ad hægra sie Vlfalldanum ad ganga i giegnum Nalarauga/ helldur enn rijkum Manne inn i Himnarijke/ Matth. 19. Nu er þad Omøgulegt / Hvar munu þa Abraham / Isaac og Jacob vera ? I þessum sama Capitula Matthæi seger hann : Ef þijn Hond edur Footur hneixlar þig/ þa snijd þau af/ og snara þeim fra þier/ Mun hann þa vilia ad Menn skule meida sig edur vana eins og Baals Prestar ? og ecke miklu helldur ad þeir skule Krossfesta sitt Hold / og deyda sijna Jardnesku Limu/ svo sem Paulus ad Orde kiemst/ Col. 3. Hann seger og i sama Capitula : Ef nockur slær þig a þijna hægre Kynn / þa

snu

snu ad hønum hiñe añare / Eñ ef hañ slær a hina vinstre fyrst / þa hefur þu ecke adra vinstre Kyñ ad bioода/ seger Augustinus/og Lucas getur hverke um̃ hægre nie vinstre Kyñ / þvi meiga Meñ ecke alltyd hænga i Ordum Rikningarennar/ helldur leita ad Meiningunne/hvet ad i þessum Ordum er eingeñ añur eñ su/ ad Meñ ei skulu hefna sialfer syn/helldur lyda Oriettenn med Þolennmæde/og Naturslaust/þad vil eg satt giøra med Frelsarans eigeñ Dæme/hver þegar hñ var Kyñ-Nesta sleigeñ/ Joh. 18. þa baud hñ ecke hina adra Kyñ / helldur enn kallde med Hoogværd þañ er hñ sloo/Ei helldur St. Pall/nær Prestahøfdingen baud ad slæ hañ fyrer Doome / helldur beitte hañ Løgum fyrer sig/ og sagde: Gud straffe þig þu forfægade Veggur/ þu situr og dæmer mig epter Løgunum / og byдur ad slæ mig a moote Løgmalenu / Act. 23. Sama vil eg nu segia um̃ þad / ad læta þeim sitt Kyrtil epter / er vill þrætta vid nockurn um̃ hñs Yferhøfn/ þeirra Orda er eingeñ Meining añur eñ su/ad miñs hyggiu/ ad nær Madur lydur nockurn Oriett/ skule hañ ecke hefna syn sialfur/ helldur skule vera svo Skape fareñ / ad hañ sie bueñ til ad þola añañ stærre/ Reide og Naturslaust/ ef hañ nær ecke Riette hiä Valldstioornenne/ þviad af Sialfs hefndenne kiemur Tydum stærre Olucka. Elldurenn verdur ecke med Ellde slockfur / helldur med Vatne/svo er þad eingeñ Lækning Oriettarens/ ad giallda Illu Illt/ helldur ad leita Valldstiettarennar/ hveria Gud hefur sett hinū Froomu til Forsvars / eñ Ranglætū til Hegningar / eñ þo Reidelaust / þvi Madur a ad snua Vanganū i Hiartanu / og ecke a Høfdenu: Fyrer þvi bañar Frelsareñ i þessare Grein / Ecke Løglegañ Riettargang / helldur eñ Paulus þooft hañ sege / 1. Cor. 6. Vogar nockur af ydur / sæ ed æ Søk vid einhvern/ad eiga Doom under Ranglatū/ og ecke under Heilogum / ad sonu er Brestur hia ydur / ad þier hafed Dooma medal ydar/ þvi lyded þier ecke helldur Oriettenn/ þvi take þier ei helldur Skada? Ecke bañar Paulus hier Riettargangenn / helldur ad eiga Søk fyrer Ranglatum/ (svo kallar hañ Heidingia / eñ Heilaga nefner hañ hier Christna Meñ / eins og vyдar ) svo vill hañ þa ecke allañ Riettargang bañad hafa / helldur ad eiga Mal fyrer

Heiding

Heidingium/hvar fyrer? Svo ad eingum giæfu þeir neina Hneixlan/ ad Þioonustugiørdeñ ei løstud yrde / 2. Cor. 6. og þeirra Hoogværd kusug øllum Mønnum/ Phil. 4. Eñ Vitne til þess/ad hñ ecke villde hafa Kielkargangeñ afmaadañ/ er þad/ ad hañ ei bañar/ad eigast Løg vid fyrer Christnū/og skinest læta þ epter/ef vid þarf/þar hañ seger: Er eingeñ sa a medal ydar sem Vited hefur / sa ed kuñe ad dæma millū Brædra siña: Og fyrer þvi/ad Christner høfdu þa eckert Vallð til ad dæma Opeñberlega um̄ Veralldar Maal/þa skinest/ad hañ villé ad þr nefne Meñ af siaalfum sier / til ad dæma Maal sijn / helldur eñ ad bera þau under Vantruada/ edur þola Orietteñ ella/ helldur eñ ad giøra Þrætur skinar Aughoosar þeim/ er høfudu Christeñdoomeñ / z løgdu þeim allt til Lijsa/er þa Tru og Þioonustu teked høfdu/og svo sem Frelsareñ seger hier i Gudspiallenu: NEma YDar RJETT-LÆTE YFERgnæfe MEir Eñ HJña SKRJÞTlærdu Og ÞHARJsæaña / Þa KVNNed ÞJer Ecke Jñ Ad GANga J GVDs RJJKE. Svo vill og Þall / ad hiner Christnu skijna skule svo sem Lioos a mille Rangsnueñar Heidingiaña Kynsloodar. Þesse same Guds Madur seger i ødrum Stad: Lated ei sigrast af hinū Jlla / helldur yfervinñed hid Jlla med Goodu / Rom. 12. Eñ hver vogar ad kalla Skipan hiñs Almaattuga vonda? Edur er Valldstiooerneñ ecke af Gude sett? Er hun nockud svo sem añad Bijlæte tñsett i Christs Kyrkiu / til Þrijdes alleina? Langt er fra þvi / helldur til ad skipa Riettindū Maña/fyrer þvi kalla eg hañ sigra hid Vonda med Goodu / sem nær Riette sijnum fyrer Løglegum Doome/ eñ poler eñ Naturs og Møglunar / þoott af þvi bere. ÞMotteñ seger i Løgmaalenu / Exod. 21. Auga fyrer Auga / Toñ fyrer Toñ / þar fyrer hefur hñ þo ecke leift þeim er Augad miste/ ad stijnga ut Augad a hønum er stack / ecke helldur hefur hañ teked Sverded af Doomaranum / þoott hañ bañe þad Þegnenum. Eckert nijtt Løgmaal hefur Christur sett i þessum Greinū/þvi Sialfs hefndeñ er og bøñud i Løgmaalenu/sæ sem sagde Doomaranum/Deut. 19. Þitt Auga skal ecke þyrma hønum / Lijf fyrer Lijf / Auga fyrer Auga / Toñ fyrer Toñ/

Tonn / Hond fyrer Hond/ Foot fyrer Foot : Han hefur og sagt hver-ium einum þar fyrer ukan/ Lev.19. Þu skallt ecke sækia epter Hefnd enne / og ecke vera Minnugur Orietkarens. Han ed seger i greindum Capitula Deut. um hin falska Vott : Þier skulud alldeilis giøra honum so sem han leitadest vid ad giøra sijnum Broodur : Hin same hefur talad fyrer Munn Salomonis / Prov 20. Þesse Ord / um alla þa sem ecke hafa Guds Umbod i Doomara Sæte : Þu skallt ecke segia / Eg skal Endurgiallda Illt / bijd epter DRottne / han mun frelsa þig. Þessu er Paall samþyckur er han seger/Rom.12. Þier eiged ecke ad hefna siaalfer ydar / þvi skrifad er / Mijn er Hefnden / eg vil Endurgiallda : En þegar Valldstietten hegner vondra Verka a þeim sem giørt hefur a annars Hlut/þa frelsar Gud hinn Saklausa/ þvi hun er hans Þienare til Hegningar/þeim er Illt adhafast / Rom. 13. Hvervetna þar sem hinn stoore Allsheriar Doomare hefur Vallds stioornenne Riettenn i Hendur feinged / þar hefur han med þad sama leift sierhverium/ sem vanhalldenn er / ad sækia Riett sinn fyrer henne / þvi hun ber ecke Sverded forgiefens/ seger Paulus : Og Petur bijdur ad Menn sieu undergiefner Stioornendunum/svo sem þeim af Konung-enum eru sender / til Straffs hinum Glæpafullu / enn til Lofs hinum sem Gott adhafast/1.Pet.2. Mun nu ecke þessa vid þurfa/Christ-ner Menn ? Edur er Verølldenn svo Emlit / ad ecke finnest i henne bæde Svart og Hvijtt?Svo heilog/ad ei finnest bæde Vonder og Goder? Þvi er einsætt fyrer þa sem Ranginden þola/ad leita Forsvars hia Vallds stiettenne / Edur munde ecke Paulus leita Lids i Løgunum / þegar Lysias villde hafa refst honum / Act.22. Munde han ecke skioota sier under Keysarans Doom / þegar han Otkadest Ofbellde Gydinga/ Eg þore framar ad tala / þad er ecke Guds þægt / og gagnar ecke til hans Dijrdar/ad Menn alltijd giefe Riett sinn epter/þvi þ giører Ohlut-vanda Menn opkast þess verre og ænælnare/ svo ad þ maa siqnast/ ad sa eble Illsku þeirra/ sem lætur Hlut sinn fyrer þim/ef hn maa naa honum med Løgum og Riette / Sa sem vill taka fra mier Æru mijna og gott Mannord / mun þad Guds a mooke / ad eg forsvare mig Løglega fyrer

A-austre hüs? Han lÿgur uppa mig Lÿtu og Skömm/sem eg alldeilis ecke er valldur af / Mun mier ei Leifelegt ad bera Hond fyrer Höfud mitt/þar svo æstendur/ Einhver ræner mig Fiærhlutu mÿnu/Odols og Arfa-Gotse / edur ödru þvi/ sem eg er vel ad komen/ og þad an ad-hvert med Ofrÿke/edur Yfervarpe Laga og Rietkinda/svo eg lÿd Skort á Forsorgun minne/ og þeirra sem mier eru Vandabundner/ Konu/ Barna og Hiua/hefe ecke þad eg meige Fatækum giefa/ og biarga Naudstoddum med/ en hn brukar Fe mitt til Ohoofs og Ofmetnadar/ þvi svo giora þr opkast/ er læta þienara sÿna stockva yfer hvern Proseullo/ til ad fylla Hus Drottna sinna med Ræne og Svikum/ Zoph. 1. Mun Gud bana mier ad verta mitt med Logum a moote slÿkum Ofstopa? Fiærre sie þvi/ annars hefde hn ecke gyrdt i krÿngu Frelse mitt/ og Eigur mÿnar med Lagana Muur: Ecke sie eg ad Ritningen legge þad Nabot til Lÿta/þott hn neitade Achab um sin Vÿngard/ En sa giører hid sama/ sm ver sitt med riettu Logu. Gud hefur boded mier / ad eg skule elska min Naunga sem sialfan mig/en ecke framar. Oskande være/ad Men giæfu þad vel hallded/ þad heyrer Gude einum til/ ad elska han framar øllum Hlutum / og jafnvel Lÿfenu / þad a og ad giøra vid Brædurnar/ seger Johannes/ hans vegna/ 1. Joh. 3. En su Elska er i þvi foolgen/ ad hiælpa hønum og forsvara fyrer Omilldum Mønnum/ en ecke i þvi/ ad læta Skælken ræna sig og Fefletta/ ef eg maa Lagana niota / þad er eingu betra/ en ad forsmaa Guds Gafur/er hn veiter mier til Upphelldis/en eg vil þær ecke nyta. Eg veit og/ ad eg er skylldugur ad styrkia Maal Eckiunnar og hinns Fødurlausa / mun eg þa ei meiga ganga i Rett fyrer þau/kunne þm þar med Hoolped ad vera / ef mier þad Løgen leifa? Af øllu þessu hygg eg nu audsært vera/ad þ ecke einasta er Leifelegt/helldur og gott Verk a Stundum / ad leita Laga og Rettar a moote Araasum vondra Manna/ En þ a ad skie med allre Hoogværd / an Haturs og Reide / svo sem ædur er sagt/þvi hn sm Retten sett hefur / hn hefur og sagt: Elsked Ovinte ydar/ Matth. 5. og nær þad ecke sÿdur til Rettargangsins / helldur en til hvers annars Vidskiptis vors/og Umgeingnis i Heimenum. Sa

sem

sem elskar Ovin sin/hann elskar sialfann sig/ þvi under eins og hann fyrergiefur sijnum Broodur hanns Misgiörder / þa auglijser hann sig þar med ad vera Barn sijns Födur/sem a Himnum er/hann tekur under eins Aflaat og Kvittun af Gude fyrer sijnar eigenn Synder / ef hann giörer þad af Hiarta/Marc. 11. Drottenn hefur ecke bannad sialfann Hlutenn/ helldur ranga Atferd Hlutarens/ þad er/ ad bruka Riettenn til ad hefna sijn/ enn ecke til ad naa Rette sijnum/ ad bera Fe i Dooma/ad uktvega fölsk Vitne / ad bruka Laga-Krooka / og adskilianlega Ranga-Leitne / Ad erta upp illt Skap med Brygxlum og Skut-Yrdum/ jafnvel i riettu Maale/ til þess / ad faa meire Hefnd yfer sijnum Mootstödu-Manne / enn hann i fyrstu hafde tilunned / allt svoddann er af hinum vonda / þad hefur Gud og alldrei leift i neinum Rietkargange ad bruka / helldur streingelega bannad / enn allra hellst ad hatast vid sinn Mootstödu-Mann/ og sa þ giörer/ hann verdur eins sekur fyrer Gude/svo sem hinn/ þoott alldrei eige hann svo gott Maal/ og hvad hefe eg þa gott af þvi/ad eg spille Myskun Guds yfer mier/ til ad hatast vid hann/er vid mig afgiörde/þvi Gud kann ad myskuna hönum / ef hann ydrast / enn eg a eingrar Vægdar Von/svo leinge sem eg el Hatur til hanns. Drottenn seger og ad sönu hier i Gudspiallenu/ ad sa sem hefur giört a annars Hlut/hann skule sættast vid Broodur sinn/adur hann offrar Gaafu sijna/ Enn umm hinn sem misgiört er vid/ seger hann med sliku Moote/ Marc. 11. Og þegar þier standed buner til ad bidiast fyrer(þad er ad offra Gude Bæn sinne)þa tilgiefed / ef þier hafed nockud a moote einhverium/ svo ad ydar Fader/ sem a Himnum er / Forlaate ydur ydar Misgiörder / Skyllda eg þa bera Hatur til hanns / sem eg a Maalstad vid / þoott alldrei ætte eg umm svo sart ad binda/þad være ærs Manns Ade/ og ecke þess/sem heilvita er i sijnum Christendoome/þar eg a Daglega ad bidia þessa Bæn : FYRERgief Oss VORar SKullder/SVo Sem VIer FYRergiefum VOrum SKulldunautum / og veit / ad eg ecke fæ Kvittun Synda minna/ a medann eg höndla ecke Reidelaust vid minn Naunga/hvert þad er i Rettargange/ edur utann Rettargangs : þad er og vijst/ad vor beste Rettur/ er eingenn Rettur fyrer Gude/ ef hann vill

dæma epter ſijnu Riettlæte/ſvo ſeger Job/ Cap. 9. Eg veit vel/ad eingeñ Mañeſkia kañ Riettlæt ad ſtandaſt fyrer Gude/ og þvi ſkyllda eg þa hafa Ovin miñ/ fyrſt hñ hefur ſkipad mier ad elſka hañ/ſem æ ſvo mikil Rææd a mier/ad hñ giefur Fordæmt mig/nær hñ vill. Þeſſ er og ad gæta / ad ecke hlaupe Meñ til Doomarans um̃ hvern Hiegooma/þad kieñer Agyrne og Oroa/ad vilia þrætta um̃ Smæmune/ og ſæmer ecke þm̃/ſm̃ vill læta ſig Hugprudañ kalla/aukhelldur Rett-Chriſtnum Mañe / hverium ad byriar ad vera Liufum æ ad ſættaſt / jafnvel med nockrum Skada ſijnum / helldur eñ ad draga ſiñ Mootpart fyrer Doomarañ/ hønū til meire Skada/ og Hneiſu þrar/er hiñ hefur ecke Gagn af / þoott ei hafe Meñ alltijd halldeñ Hlut/ ſierdeilis ef ad kieppa er um̃ þa Hlute/ ſem Lijfs Næringu et vidvijkia/hveria Paulus ſijneſt ei vilia hafa under Doom Heidingiaña / 1. Cor. 6. Einkum þar Frelſareñ hefur bañad oſſ ad ſyrgia fyrer heñe/ Luc. 21. og brukar þad ſama Ord i þeim Stad / ſem Poſtuleñ hier / og þvi æmiñer hañ alla Chriſtna Meñ med þeſſum Ordum/Col. 3. Iklæde eſt ſvo ſem Utvalder Guds Heilager og Elſkanleger Hiartgrooeñe Myſkunſeme/ Lijtelætenu / Hoogværdeñe / Þolenmædeñe / um̃berande hver añañ / og fyrergiefande hver ødrum / Ef nockur hefur a moote einhverium Aklæru / ſvo ſem Chriſtur hefur ydur fyrergiefed / ſvo giøred og þier. Gud giefe øllum ſijnū Børnū þetta Hiartalag ad ſtunda/og þvi faſt ad hallda/þar til vier komū fyrer hiñ Stoora Allsheriar Dom/hvar vorer ſtærſtu Oviner/Synd/Daude/Diøfull & Hel vijte ſkulu oſſ eckert Mein giøra/ aukhelldur nockur Veralldar Magt/ þvi hver vill føra Klæru-Mææl i giegn Utvølldū Guds / þar Gud er ſa ſem Riettlæter/Chriſtur er ſæ ſem Dæmeñ er/ jæ/eñ framar Uppriſeñ/hvør og er a hægre Hønd Gude/hvør og er Medalgængare ꝥ oſſ/Rom. 8. Þeſſa Hlutſkiptes uñ þu oſſ ad niooka eilijfe Komungur Dijrdareñar/ꝥ hñs Forþienuſtu/ſm̃ er alls Holldo Doomare/JEſus Chriſtus/Amen.

## Siøunda Sun̄udag epter Trinitatis.

Gudſpialled / Marc. 8. Cap.

A þeim

J þeim Døgum. Þa þar var eñ margt Foolk komed saman/ og hafde ecke til Matar. Kallade JEsus sijna Læresveina til sijn / og sagde til þeirra : Mig aumkar yfer Foolked/ þviad i þriu Daga hafa þeir hiaa mier vered/ og eckert til Matar haft. Og ef eg læt þa fastande heim til sijn fara/ þa vanmegnast þeir a Leideñe. Þviad suñer voru langt ad komner. Og hans Læresveinar svørudu honum : Hvadañ faaum vier þau Braud / hier a Eydemørku / so ad vier faaum þa mettad ? Og hañ spurde þa ad. Hvørsu mørg Braud hafed þier ? Þeir søgdu honum Sio. Og hañ skipade Foolkenu nidur ad setiast a Jordena. Og took þau Sio Braudeñ / þackade / braut / og fieck sijnum Læresveinum / ad þeir legdu þau fram. Og þeir legdu þau fram fyrer Foolked. Þeir høfdu og fæeina Smaafiska / og þa hina sømu blessade hañ / og baud fram ad leggia. Eñ þeir neyttu/ og urdu metter. Og þeir tooku upp þad yfer var sio Karfer med Afgangs Leyfar. Eñ þr sē neyttt høfdu/ voru nær fiorar Þusunder/ z hñ liet þa i burt fara.

## Exordium.

MAdureñ mun ecke lifa af einusamañ Braude / helldur af sierhverju Orde/ sem framgeingur af Guds Muñe / sagde Moyses vid Jsrael fordum / Deut. 8. Þessum sømu Ordum kastade Frelsareñ Andskotanum i Naser / þegar hañ freistade hañs / til ad giøra Steina ad Braudum/ Matth. 4. Þau eru og sañ / svo sem aller adrer Guds Vitnesburder / þvi þad maa ei Lijf kalla / sem er aan Guds Orda / siafnvel þoott eiñ hafe Holld og Hamsa / og lifte nøgu sællega wt. Christi Ord eru Lijf og Ande / og aan þeirra er Madureñ eins og Pall seiger um Ekkiuna / þa i Gyrndum lifer / hañ er lifande daudur/ Þo hefur Gud giefed Mañenum Fæduna / svo sem añad Medal / til ad lifa af / þar fyrer stendur hier : Ecke af einusamañ Braude. Vitanlegt er þad / ad Gude er ecke um Megn ad hallda Lijkømum vorum vid aan Matar og Dryckiar / þad sijna oss Dæme Moysis / Dæme Elia / Lausnarans / er føstudu i heila 40. Daga / og maa sijnast / ad þeir Moyses og Elias hafe vered DRottens Fyrermyndan i þessu / og þvi skyllde hañ er kuña ad ala Mañeñ aan Fædsluñar / sem ad i Eyde-Mørku sadde 5000. Mañs med Fim Bygg Braudum og Tveim Fiskum/ Joh. 6. Og i þessa Dags H. Evangelio heyrum vier / ad hañs mikla Almættis Hønd mettar 4000. med eiñu litlum Koste. Vt af þvi fyrsta Kraptaverkenu hefe eg nockud ædur talad i þessare Book / um þad / hverneg vier i Guds Otta eigum ad leita Næringar vorrar / hvad eg Oska ad fiñe goodañ Stad i Hiørtum þeirra sem lesa edur heyra. Eñ nu vil eg wt af þessu H. Gudspialle alleina þar um tala/ hvad

oss eige ad styrkia i Truñe til ad treysta Gude / og varpa allre vorre Ahyggiu uppa hañ / nær oss vantar þessarar Veralldar Mune.

Hiælpa oss til þessa / DRottiñ miñ / Fyrer þitt Dyra Nafn og Sonarens Forþienustu / A M E N.

# Vtleggingeñ.

ÞAD er Grækfleg til ad vita / hversu ad Nockura Mañsins epter Spillinguna er bæg til ad treysta Gude / þegar þad er ecke fyrer Augunum sem eta skal. Moyses sloo a Kletteñ i Noreb / og þar flaut Vatn ut af / svo ad allur Jsrael drack / Exod. 17. Eñ er Gud baud hönum i Eydemørku Zin ad giøra hid sama i añad Siñ / þa efadest hñ/og sloo Tvisvar a Biarged / Num. 20. Nañ sa Daglega / ad Gud fædde þa med Manna af Himnum ofañ / Eñ er Foolked møglade / og beidde um Kiøt / eñ hañ bar þad fyrer Gud / sem hiet ad giefa þm Kiøt ad eta allt til Leidenda / þa var þo ecke Truen sterkare hia sialfum Moyse / eñ svo / ad hañ sagde / Num. 11. Þetta Foolk er Sex Hundrud Þusund Mañs / og þu seger / eg skal giefa þm Kiøt / svo þeir ete i heilañ Mañud. Læresveinarner høfdu sied þad mikla Kraptaverk / er JEsus hafde giort skømu adur eñ þesse Jarteikn skiede / nærre þvi i þessum sama Stad / Er hañ sadde 5000. Mañs med Fim Bygg-Braudum og Tveim Fiskum / Joh. 6. Þa talde Philippus Tormerke a Spurningu DRottens / og sagde: Braud fyrer 200. Peninga næger þeim ecke / Eñ hier foor ecke betur / nema midur være. HVADañ FAum VJer Þau BRaud HJer A EYde-MOrku / Ad VJer FAum Þa MEttad. Og epter þad þeir høfdu sied bæde þesse Krapta-Verk / og mørg øñur fleire / þa atludu þeir hñ munde Brauds-Þurfe vera / er hñ took þeim Vara fyrer Sur-Deige Herodis og Phariseaña a Skipenu / svo sm lesa ma i þssu sama 8. Cap. Marci. Af hverium og rada ma / ad þ hafe skied strax epter þessa dyrdlegu Jardteikn. Gud betre / ad þad hender oss a Stundum Christna Meñ / sm Lausnareñ seger um Heidingiana / Matth. 6. Hvad eigu vier ad eta? Eda hvad eigum vier ad drecka? Edur hveriu eigu vier ad klædast? Eñ þar til verdur ei betur svarad / eñ sialfur hañ svarad hefur: Er ecke Lyfed meir eñ Fædslañ / og Lykameñ meir eñ Klæd-

Klædnadurenn? Seg þu mier/ Guds Barn/ skoop hann þig ecke Dm-samlega i Moodurlyfe? Gaf hann þier ecke Sæl og Lijkama? Endurleyste hann þig ecke med syns Sonar dyra Bloode? Hefur hann ecke Endurgieted þig daudann i Syndunum? Hefur hann ecke foostrad þig med sijnu H. Orde? Hefur hann ecke aled þig a syns Sonar Holde og Bloode? Helldur hann ecke ollu þessu vid magt enn nu dasamlega/ og undrunarlega a Stundum? Eg vil taka til þess sem dyrast og dasamlegast er. Hafe hann giefed oss Sonenn/ þvi mun hann þa ecke giefa oss alla Hlute med honum? Og ef hann giefur oss alla Hlute/ þa giefur hann oss einnin Forsorgun Lijkamans. Hafe hann aled Þinn fyrer oss/ bæde i Moodurlyfe/ og allt upp þadann/ i Andlegann og Lijkamlegann Mata/ mun hann þa Onyta sitt eiged Verk? Nema ad Mannesk ian giorde Guds Almætte Vanmattugt a sier med Truarleysune/ eins og Lærefoedmarner/ er þeir gætu ecke lacknad hinn Tunglsiuka. Þu seger/ Eg finn oft Brest a Atvinnu minne: Hungur og Dyrtijd meiga Menn Stundum þola/ hvad velldur þvi? Spyr Ezechiel ad/ hann mun svara þier Ordum DRottens. Ef eitt Land syndgar miog a moote mier/ þa vil eg utrietta mijna Hond yfer þad sama/ og i burt svipta Brauds-Nægtunum/ og eg vil senda þangad Hallære/ og upprickia þar inne bæde Monnum og Fenade/ Ezech. 14. Mun þad nockud rasta Sannsøgle DRottens/ þoott Menn giore sig hans Orlætis Overduga? Þegar ad allra Handa Løster og Klæker/ Guds Ords Foragtun/ Vanbrukun hans Hvijldar-Daga/ Ranglæte/ Meinsære/ Lygar/ Vioofnadur/ Agyrne/ Drambseme/ Ofbellde/ Agg/ Reide/ Præta/ Svik/ og Vnderferle/ og annad þessu lijkt/ Þegar allt þetta geingur Fiollunum hærra i Landenu/ er þa ad furda/ þoott hann apturlyke sinne milldu Hond a stundum? Eda seger ecke Paulus/ ad fyrer þess-hattar Glæpe kome Guds Reide yfer Born Vantruarennar/ Col. 3. Hver vill þa skyllda hann til/ ad hann skule Naadugur vera? Leitum þvi Drottens a medann hann er ad finna/ kollum a hann a medann hann er nalægur/ Sa hinn Ogudlege laate af sijnum Vege/ og Illvirkenn af sinne Hugsan/ og snue sier til DRottens/ þa mun hann myskunna honum/ og til Guds vors/ þviad hia honum er mikil Fyrer-

giefning.

giefning/ Es. 55. Eg skal endurgiallda ydur þau Aren/ sem Gras Hoppan/ Kal-Ormuren / Tre-Madkuren og Gras-Madkuren hafa fra ydur teked/ seger DROTTENN/ Joel 2. O minn Gud/ hver hefur þier nockurn Tijma giefed? Hver hefur þier lanad/ þad þu skyllder hønum endurgiallda? Þad meigum vier jata i þessu fataka Lande / ad hafe Gud einhveriu Sinne straffad Synder vorar med Aaran nockurre / þa hefur hans Millde oss þad endurgolldeð med mikille Ar-Giaf u / bæde til Siovs og Lands. Enn hvad fylger a epter hiä Spamannenum i sama Capitula? Nær þier eted Oaflatanlega / og erud metter / þa munud þier lofa Nafn DROTTENS Guds ydar/ Enn sinn til/ hvert Fader Mysk unsemdasta mune ecke hafa funded Skort a þessu hiä morgum af oss/ og hvert þ mune ecke miklu helldur eiga heima hiä sumum / er stendur hiä Hoseam/ Cap. 13. Under eins og þeir metter urdu / þa er Hiarta þra upphafed/ og hafa gleimt mier. Einhver vill seigia: Eg finn ecke þessa Glæpe hiä mier / Eg Ottast Gud og Elska / svo sem mier er møgulegt/ og giøre hønum þacker / samt nu eg og mijner þola Hungur og Þorsta/ Kulda og Klædleyse. Heyr mier um Stund/ Barn mitt/ Muntu vera sa einaste af Guds Børnum/ sem hann leggur þvilijkt uppa? Mattu ecke þu Abraham / Isaac og Jacob verda Landflootta fyrer Hungurs Saker? Gen. 12. 26. og 46. Matte ecke Elias fasta i 40. Daga? 1. Reg. 19. Hvad margt seger Pall hafa mott Illt þola fyrer Evangelium? Enn þetta mattu þeir lijda til þess/ ad þeir vissu hvad þeir væru/ sem er syndugar Manneskiur/ hvar þeir væru/ þad er i Heimenum / I Utlegdenne / og ecke i Fødurlandenu / hvernenn þeir vera skylldu/ sem er stoduger i Trunne/ þolenmooder i Hørmungenne/ og glader i Vonenne / Sama giører hann vid þig / þvi ecke er hiä hønum Mannegreinar Alit/ Act. 10. Þyker þu nu betre enn svo / ad þier sie fullgott ad hafa lijkann Kost med þessum Guds Kappum / þvi angrar sig þa Sala þijn / og þvi er hun Orooleg i þier? Vona þu a DROTTENN/ þvi þu munt enn nu prijsa hann/ Psalm. 42. Edur villtu ecke helldur hafa Þyngan med Guds Folke/ eins og Moyses / helldur enn lifa i allskins Sælu med Heimenum / og fyrerfarast med hønum? Hversu betra er

þier

Þier / ad þu gyrnest ad sediast af Molum þeim / er detta af Bordum þins Rijka hier i Heimenum / en ad þig lange epter einum Vatns-Dropa af Fijngre Lazari i Helvijte og Kvølunum? Og hvad veitstu/ hversu leinge DRottenn vill lata þenna þinn Skort vara / Hann er einn stoor Konungur / Ecke er hann leingur Rijkann enn Fatækann ad giøra. Jacob foor med einn Staf ut af sijns Fødurs Huse / Gen. 32. Enn hvad mikenn Fiølda Nauta og Sauda / Geita / Asna / Þræla og Ambætta kom hann heim aptur med. Dæme þessa Folks mæ furdanlegt þykia nu a þessare køllðu og Vankruudu Olld / þeir fylgdu Christo epter a Eydemørku / til ad heyra Kienningar hans / jafnvel Heidingiar af Tyro og Sidon / og eckert tooku þeir med sier ad neyta / svo sem sia ma af Evangelio: Einhver mun segia / ad þeir hafe ei buest vid svo længre Dvøl i Mørkenne / þo fannst eingenn sem aptursnere / svo Menn vite / og ad vijsu voru hier 4000. Manns / sem neyttu / þad ma sijnast / ad DRottens Ord hafe svo vel smackast þm i Hiartanu / ad þeir hafe ei funded til Hungursins i Maganum / og valla gietur þad ødruvijsse vered / enn ad þeir hafe treyst þvi / ad JEsus munde a einhvern Hatt sia þeim Farborda / þar til hefur an Efa hialpad hid fyrra Krapta Verked / sem enn þa hefur øllum i ferstu Minne vered / Enn i þvi gietur Johannes ecke umm Tijmaleingdena / Hier af kalla eg þad satt / er David seger / Ps. 32. Augu DRottens lijta til þra sem hann elska og vona a hans Giæsku / og þo finnast þeir / æ þvi verr / a medal Christenna Manna / sem vidlijkt eru lynder og Høfuds-Madurenn i Samaria / er sagde: Þo ad DRottenn giøre Glugga a Himenenn / þa kann þetta ecke ad ske / 2. Reg. 7. Afiars mundu Menn bijda epter DRottne / enn ecke hlaupa til ad Ræna / Stela / Liuga / Svijkia / Hripsa Brauded ut af Munningans Munne / og bruka adskiliannlega Rangsleitne i Kaupum og Sølum / og annarre Vidhondlan. MJG AVMkar Yder FOLKed / seger DRottenn: ÞVi J ÞRJm DAga HAfa ÞEir HJa MJer VERed / Og Ecke TJl MATar HAft. Margur fastar skemur / adur hann verdur Opolenmoodur. MJg AVMkar Yder FOLKed / seger hin Eilijfa Giæska / hans Myskunar Ydur


komust

komust vid i hønū / ſvo ſem i Nøfud-Sprokenu ſtendur / ſvo haň hlaut þm̄ Nædugur ad vera : Pad ſeger ecke hier / ad þr hafe kvark ad um̄ Hungur / haň viſſe vel / ad þr høfdu þeſſa þørf : Eň ſeged mier nu / Børn mȳn / Munu Ydur hańs Myſkunar um̄breitt vera? Mun hin rȳka Vrlætis Hønd ſtutt vordeň? Fiærre ſie þvi / ſamur er Gud z hň̄ hefur vered/ Eň ef vier vilium ſømu Medaumkunar niota/ þa lærum Tvent hier af : Eitt af Folkenu/ Añad af Lauſnaranū. Af Folkenu ad heyra Guds Ord liuflega / meta pad øllu Tȳmañ legu framar/ og ad treyſta Gude/ og þacka hønum midt i Skorkenum og Orbyrgdenie. Af Frelſaranum / ad ſiæ Aumur a hinum Volada og Naudþurftuga / Ad brioota Hungrudū vort Braud / Ecke af For dild / edur ad ukvega oſſ Nafn par med / ſvo ſem Hræſnarar þeir ed giøra Olmuſur ſȳnar fyrer Møňum / helldur af Truñe/ af Chriſte legre Medaumkan / af Elſkuñe til Guds og Næungans. Breyte nu nockur paňveg/ad haň heyrer Guds Ord/ og vardveiter pau/treyſt er Gude i øllum ſȳnū Vandrædum / og leitar Næringar ſiňar i Guds Otta / þa vil eg pad ſegia / ad fyrr munu Einglarner færa hønum Braud af Himnum ofaň/fyrr munu Hrafnarner bera hønum Fædſlu/ fyrr munu Steinar ad Braudū verda/ og Fiſkarner flytia hønū Gull og Silfur i Muñenum/ Ia/ Chriſtur mā fyrr afneita ſiælfum ſier / hvad Paulus kallar Omøgulegt / helldur eň ad haň læte Sæl hiňs Riettlæta Hungur þola/ Prov. 10. Nema haň vilie reyna haň par med / og ſiæ hønum pad fyrer einhveriu Goodu verda. Miň Mat ur og Dryckur er/ad giøra hańs Vilia/er mig ſende/ſagde Frelſareň/ Ioh. 4. Eň ef pad er hańs Vilie / ad þu lȳder um̄ Hrȳd Skort a Næringu þiñe/þa vert eins lyndur og þiň Lauſnare var/ og ætla þig ecke yfergiefeň / þott þu meger ad Guds Vilia nockud Illt lȳda / er vier ſvo køllum/ Eň pad er alldrei Illt/ſem Gott af ſier gefur. Ecke verda Vȳn-Bereň ſamaňleſeň af Þyrnunū edur Fȳkiurnar af Þiſt lunum/ Luc. 6. Giæt ad Dæmum Heilagra. Hverſu ſærlega klagar Iob i ſȳnū Mať-Raunū / er hň̄ ſeger / Iob. 30. Þu ert vordeň hard udigur a moote mier/ epter Styrkleika Handar þiňar brukar þu grim̄t

Natur

Nakur i giegn mier. Munde Gud þar fyrer hafa yfergiefed hañ? Fiærre var þvi / hiñ Ferkugaste og Fyrste Capitule somu Bookar hñ ber þar uñ liooſaſt Vitne/ og ſiælfur Guds Madur ſmkar Veikleika ſiñ og Fævitſku i þvi/ad þeckia Guds Ræd/nær hñ Endurvitkadeſt / og kom til ſiælfs ſyns apkur / med þeſſū Ordum / Iob. 42. Eg Aug lyſe ad eg ſkilda þad ecke/þad var furdanlega hæſt fyrer ofañ mig/ſvo eg gat ecke þeckt þad / þvi ydrar mig i Molld og Oſku. Eins var Da vid lyndur/ þvi ſeger hañ/ Pſ. 77. Mun DRottiñ þa Eilyflega burt kaſta/og einga Næd framar audſyna? Eñ nockru þar epter vegſam ar hañ Gud med Fagnade/ſegiande: Pſ. 103. Hañ hefur frelſad mitt Lyf ut af Fordiorfuneñe / og mig med Næd og Myſkunſeme Coron ad/þvi ſkyllde eingeñ orvænta uñ Guds Vinættu/ þoott ei leike allt i Lynde/þar vier ſiæum hier/ad hañs beſtu Viner hafa mætt þvilykt reyna. Edur meined þier/chriſtner Meñ/ad Faderen hafe miña elſk ad ſiñ Son/þegar hñ hroopade a Kroſſenū: Gud miñ / Gud miñ / þvi hefur þu yfergiefed mig? helldur eñ þegar Chriſtur ſtood a Jordan ar Bockū/og Roddeñ af Himne ſagde: þeſſe er miñ Elſkulegur Son ur i hvertum mier Velþocknaſt/ Matth. 3. Nei/Brædur myner/ þa hafde hañ i honū hvad meſta Velþocknan ſyna/ er hañ a Galganum hieck/þvi fyrer hañs Dauda erum vier vid Gud forlykter/ſeger Paulus/Rom. 5. Fyrer hñs ſaru Kvol og bitrañ Dauda hefur hañ elſkad oſſ i ſynum Elſkulega/ Eph. 1. Gud hafde Velþocknan a ſynum Syne fra Upphafe Vega ſiña / og i ollum Chriſto fra hinu fyrſta Augnablike Gietnadarens fyrer Einingu Guddooms og Mañdooms. Eñ fyrer Chriſti Dauda a ollum þeim ſem a hñs Nafn trua/ hvertum hañ hefur og Magt giefed Guds Bornum ad verda/ ſeger Joh. Cap. 1. Og fyrſt hñ hefur nu þannveg yfergiefed hñ uñ Stundarſaker/ Eñ ſydañ apkur med Dyrd og Heidre Coronad/ Vilied þier þa læta ydur þad undra/ þoott hañ breyte med ſama Hætte vid ydur/ſem i honum/ og fyrer hañ erud Arfleidder til eilyfs Lyfs? Nei/Chriſtner Meñ / ecke þoott ad Mootlæted og Skortureñ ætte ad vara alla Æfe vora: Þvi hun er ſvo lyted ad reikna hia Eilyfdeñe/og þad vier lydum

hier ad Guds Vilia/ þad verdur oss Endurgolldeð med Omælanlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd/ 2. Cor. 4. Mootlætingar þessarra Tijma eru ei verdar þeirrar Vegsemdar / sem vid oss mun framkoma i eilijfu Lijfe. Þad er vijst / ad hiñ Naduge Gud speñer alldrei sijn Børn fyrer sijns Sonar Ok/nema til þess/ad þau drage þ a þa Leid/sem til Himnarijkes liggur/ þess meiga og øll hañs Børn fullørugg vera/ ad añadhvert burttekur hañ Mootlæted / edur linar þvi / edur giefur oss Krapta til ad bera þad / þvi hñ er Trur og freistar einkis yfer Megn fram/1.Cor.10. Seged mier/ Er hñ þa Amæles verdur fyrer þad/ ad hañ synir eilijfre Fyrerdæmingu i Tijmanlegañ Krossburd / til ad afreka oss Eilijfa Glede? Eiñ Fader sender Son siñ i eitt framande Land/Ein Mooder lætur Barn sitt i Skoola/ til ad lijda Jllt/svo þad verde ad Mañe/ Munu þau þar fyrer hafa gleymt þm ? Kañ nockud Mooðureñ ad gleyma Barne sijnu / Avexte sijns Kvidar ? Og þo þær gleyme / þa skal eg samt-þier ecke gleyma / seger Afgruñ Myskunar-eñar/hia Esajam.Cap.49. Gull-Smidureñ kastar Malmenum i Elldeñ/ so hañ hreinsadur verde/ og giorer þar af sijdañ hinar kostulegustu Gersemar/Svo breyter Gud vid sijn Børn/hñ sikur og bræder/ og Sylfred hreinsar/og hrein giorer Børn Levi/Mal.3. Þad er hiñ Andlega Kirkiemañskap / so ad Reynsla Truar vorrar miklu dijrmætare funden verde Gullsens Reinsslu / hvert ed forgeingur/ og verdur þo med Elldenū reint/til Lofs og Dijrdar & Heidurs/nær JEsus Christus Opeñberast / 1.Pet.1. Þetta er nu svo talad til Huggunar þeim/ er lijda Skort a Atvinu sine / og meina sig þar fyrer vera af Gude yfergiefna/ vegna Synda siña og Overdugleika. Eñ þar eru nockrer sem ecke eru anægder þar med / ad þeir hafa þad þeir skulu eta og drecka/og þad þeir meiga klædast med/hvad þo Paulus bijdur Christnum Mañe ad hañ skule læta sier nægia / 1.Tim.6. Vid þessa vil eg fatt eitt talad hafa. Þad er satt sem hiñ Vijse Syrach skrifar i 11. Cap. Ad Audlegd og Fatækt koma af DRottne / Eñ þau koma af Gude / hver vill þa segia vid hñ / hvad giorer þu? Seger nockud Leyr-Kiered til Smidsens / þvi giorder þu mig svo ? Rom. 9. Vill nockur

efast

efast um Vitsku hañs/ ad hañ ei skyne/ hvad hañs Børnũ er hagleg-
ast/ edur klaga yfer hñs Riettsyne/ þad hañ giøre einũ Orett ? Visse
Gud þad/ ad þier gagnade Rÿkdoomureñ betur eñ Fatækteñ/ þa munde
hañ þig audugañ giørt hafa / rañsaka Skap þitt/ hvert þu munder
hæfare vera til Guds Rÿkis / þoott þu hefder meira eñ Daglegt
Braud / Gud giørde vel / ad hañ gaf ecke Ægum Vyra Horn / seger e
Ordshattenum / margur munde bruka Audeñ til Ofmetnadar / Of-
rÿkis / Ohoofs / til ad hefna sÿn / og brioota adra under sig / ef hañ
rÿkur være / sem ad lætur hægt/ af þvi hañ er fatækur. Eñ þoott
ad Gud giefe Audeñ vondum Mønnum a stundum / hvad kiemur þad
vid þig? Fylg þu Christo epter/ hver þoott hñ rÿkur være/ giørdest hñ
fatækur / 2. Cor. 8. Villtu vina þad til Audsins / ad vera svo sem
eiñ af þeim ? Visse Gud ad þier Audur gagnade / sege eg eñ apftur /
munde hñ ecke giefa þier hañ? sem hefur giefed þier þ sem er langtũ
betra. Eiñ Nadugur Gud / good Samvitska/heilvisa Sal/ Otte
DRottens med þvi Nugarfare /sem lætur sier sÿna Luckũ nægia/ er þ
ecke noogu stoor Audlegd ? Adrer Ottast fyrer þvi / ad þeir kuñe ad
missa Fiar-Eh lute sÿna/ eñ kyñe nockur þessar Guds Gafur af mier
ad taka/ þa villda eg fyrst græta / þa villda eg bera mig hørmulega /
þvi a medañ eg þad hefe / þa hefe eg allt / og nær eg misse þad / þa
misse eg allt/ jafnvel i Allsnægtum/ þvi seger David/ Ps. 34. Hina
Rÿku brast/ og þr sulltu/ eñ þa sem ad DRottne leita/ muñ eckert gott
vanta. Late Gud mig ecke eta hvern Dag skÿnande Kræser/ þa er
eg þo Ofsdkeñ/ eg une betur vid Daglega Fædu/ helldur eñ Sælkier-
iñ vid hñs Vlvollsu Kitte. Skorturiñ gjører mier a stundũ Mateñ
sætañ/ eg þarf ecke ad kaupa hñ dÿrt/ Eñ Fylleñ giører hønum þad
leidt / sem hañ kostade til dÿrum Doomum. Vefie Gud mig ecke i
Pelle og Purpura / þa er mier eins heitt i miñe Klæda-Vod / svo sem
hønũ i sÿnu Skarlate. Fatækteñ hefur stoor Fyrerheit i Guds Orde/
Er sa ecke noogu rÿkur/ sem hefur Gud fyrer Fiarhallds Mañ ? Eñ
hvad seger David / Ps. 9. Hañ er Forsvar hiña Fatæku / For-
svar i Neydeñe/ hañ gleymer ecke Hroope hins Fatæka. Hvad seger


hañ

hñ eñ þa aptur ? Hañ mun frelſa hiñ Fatæka nær hñ kallar/og hiñ Auma/þañ er eingañ Hiaalpar Mañ hefur/ Pſ.72. Og ſvo ſeger ſialfur DRottēñ/ Pſ.132. Eg vil bleſſa Fædſlu þeirra/og þeirra Fatækum anægianlegt Braud giefa. Gud giæfe ad Meñ villdu ſkilia hvad mikill Skattur ad er ein Ærleg Fatækt/þeim ſem una vel vid þañ Koſt/ er DRottēñ lætur þm̄ hlotnaſt/hun varnar vid mørgū Syndū/ Drambſeme/Ohoofe/Stalfhælne/Reide/Ofrijke/ og ſialfre Agyrndeñe/þvi alldrei verdur hiñ Rijke ſaddur/ſa ed feſt hefur Hiarta ſitt vid Audeñ/vid Buſorg z Ahyggiu/ſ̄ draga mañeñ fra Gude i Snø rur Diøfulſins/z þyngia Hiarta hñs mz Offanū ad miſſa Eig: ſijn*/ þvi ſa griet alldrei ꝥ Gull/ſm̄ ecke atte ꝥ/ hun giører Reikningſkapeñ audvelldare fyrer hinū Ædſta og ſtranga Doomara/ þvi jafnvel þoott ad øllum verde hañ noogu torvelldur/ þa ecke þeim þo ſijdſt/ſem hafa gleymt Gude og Naunganum i Velmagt ſiñe / eñ ſett Gull-Hnøtteñ fyrer ſitt Athvarf. O þu eilijfe Gud/Dyrdarenar Konungur/hialpa oſſ a þeirre ſtraungu Tijd/lat oſſ ei þyngia Hiarta vort med Sorgum þſſarar Næringar/metta oſſ mz þm̄ Molū/er detta af þijnu Nadborde/ Dryckia oſſ med Sætleik epterkomande Alldar/ſvo ad ei vanmegnumſt vier a Veigenum til Fødurlandſens / og nær vier erum ad þrotū kom- ner/ og tøkū hin ſijduſtu Andvørp/ þa dreip þu a vora Ørmæddu Saal med þvi Vatnenu/ epter hvert eingañ mun þyrſta ad Eilijfu. Bænheyr þad/Naaduge Fader/ fyrer Lauſnar- ans JEſu Chriſti Skulld/A M E N.

# Attunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudſpialled/Matth. 7. Cap.

A þañ Tijma. JEſus ſagde til ſiña Læreſveina : Vakt- ed ydur fyrer Fals Spamøñū/ ſem koma til ydar i Sauda- Klædum/ eñ hid iñra eru þeir glepſande Vargar. Vt af þeirra Avøxtum meiged þier þeckia þa. Verda nockud Vijnbereñ ſamañleſeñ af Þyrnunum / eda Fijkiurnar af Þiſtlunum? So ber og hvørt gott Trie goodañ Avøxt/ eñ hvørt roted Trie vond añ Avøxt. Goott Trie gietur ecke bært vondañ Avøxt/og ei helldur

Giefur goodañ Avoxt. Og hverk þad Trie sem ecke giører goodañ Avoxt/ skal upphøggvast og i Elld kastast. Þar fyrer meiged þier uk af þeirra Avoxtum þeckia þa. Þeir munu ei aller sem til mijn segia/ DRottEñ/ DRottEñ/ inngaunga i Guds Rijke/ helldur þeir sem giøra Vilia mijns Fødurs / þess a Himnum er. Marger munu til mijn segia a þeim Deige / HErra / HErra / høfum vier ecke spaad i þijnu Nafne / høfum vier ecke i þijnu Nafne Diøfla utreked/ z giørdum i þijnu Nafne mørg Kraptaverk? Og eg mun þa jatta þeim/ad alldrei þeckta eg ydur / Fared fra mier aller Illgiørda Meñ.

# Exordium.

Spaamadur nefnest i H. Ritningu / ecke einasta sa / sem ad Ovordna Hlute fyrer seiger / helldur og sierhver eirn / sa ed kieñer riettañ Lærdoom : Svo sagde Gud vid Abimelech um Abraham / Hañ skal bidia fyrer þier / þvi hañ er Spaamadur/ Gen. 20. Sa er spaaer / hañ talar fyrer Møñunum til Uppbyggingar / til Aminningar og Huggunar / seiger Paulus/ 1. Cor. 14. Þeirra Apar voru Fals-Spaamenerner / hverja Frelsareñ bijdur ad Meñ varast skule hier i Guds spiallenu / þvi þeir kome i Sauda-Klædum / eñ hid Iñra sieu þeir glepsande Vargar / og er eingeñ Efe a þvi / ad Skriftlærder og Phariseær hafa ad nockru Leite att Sneid þessa / eñ þo ecke ad øllu / þvi ecke voru þeir af Christi Sauda-Huse / helldur meinar og DRotteñ hier med þa / er sijdar uppkomu / og spilltu Ritningu Guds i Christendoomenum / þa nefner Paulus falska Brædur / 2. Cor. 11. og til Galat: Cap. 2. talar hañ um heimuglega inñsmogna falska Brædur / sem ad villdu reyna Frelse þad / er þeir Truudu høfdu i JEsu Christo / svo ad þeir hneptu þa i Þrældoom. Soddañ Illgrese sæde Fiandmadureñ nidur medal Hveitesins i Christi Akre fram epter Olldunum / svo sem af Christeñdooms Søgunum lioost er / og sæer eñ nu vijda i Heiminum / eñ þar fyrer faaum vier alldrei Gude fullþackad / ad vier vitum ecke af slijku ad seigia. Eingeñ er sa / ed leitest vid ad spilla riettre Trw i Lande voru / þad er stoor Velgiørningur DRottens / ad hañ hefur unt oss ad verta Saluhiaalp vora i Einfalldleika vors Hiarta / þvi vil eg ecke hier um framar tala i þetta Siñ / helldur taka mier fyrer Hendur / ad wtskijra þa Grein af Evangelio / sem øllum ætte Hugføst ad vera / sem er þesse : ÞEIR munu ecke aller / sem til mijn seigia / HErra / HErra/ Inngangat Guds Rijke/ helldur þeir/ sem giøra Vilia mijns Fødur/þess a Himnum er: Og af heñe Tveñt Hugleida. 1. Hvad þad merke ad kalla HERRA / HERRA. 2. Hvad þad sie ad giøra Guds Villa.

Styrk oss hier til/ miñ Gud fyrer JEsum Christum/med Naad H. Anda/ Amen.

# Utleggingeñ.

Þad

ÞAD er ágiætt / sem ad Bernhardus Lærefader seger i einum Stad. Christner hafa af Christo Nafn feinged: Þad være mikils verdt / ad svo sem þeir eru Erfingiar Nafnsins / svo væru þeir og heilagleikans. Eingeñ Nafn-Book er fegre / eingeñ stærre / eñ ad heita Christeñ / ef nockur ber hana riettelega. Christeñ og heilagur var sama Nafn / á medañ Christeñdoomureñ var eñ þa i Blooma-skñu / Heilsed øllum Heiløgum / seger Paulus / þad er øllum Christnum / Eñ ef eingeñ Renta fylger þessu veglega Nafne / þa er sá ecke heilagre sem þad ber / helldur eñ Vyned edur Vidsmiøred / edur einhver Matur vard heilagur af þvi i gamla Testamentenu / þoott ad einhver snerte þad / sá ed bar helgad Kiøt i Kiool-Lafe synu / Hagg. 2. Sá sem ecke hefur Christi Anda / seger Paulus / hañ er ecke hañs / Rom. 8. Hver ed prydder sig med hinu fagra Christeñdooms Nafne / eñ lifer þo ecke Christelegu Lyferne / hañ er lykur Eyk þeirre / er hefur græn Blød og frijd / eñ Avexte einga / þvi seger Lausnareñ i Gudspiallenu: AF ÞEirra AVøxtum SKulud ÞIer ÞEckia Þa. Og svo sem DRotteñ formællte Trienu þvi / er eingar voru Fykiur á / og ecke nema Blødeñ toom / Matth. 21. Svo vill hñ og til hiña segia / er Rang-læted æfa / á hinum efsta Dege / Alldrei þeckta eg ydur / svo sem hier stendur i Gudspiallenu. ÞEir Muñu Ecke ALLer Sem Til Myn SEGia / HErra / HErra / Jñganga i GUds Ryke / seger DRotteñ. Þegar ad Ritningeñ tvytekur eitt Ord / þa vill hun láta skiliast Eitthvert Merkelegt þar med / þeir segia / HErra / HErra / Svo eru þeir ákafer i hiñe utvortis Þioonustu. Ecke vantade Gud nie hañs Christ fagra Titla hiá Gydingum / þeir nefndu Fødur hñs siñ Gud / eñ þecktu hñ þo ecke / þeir kølludu DRotteñ Rabbi edur Meistara siñ / eñ søktu þo epter ad Lyflaata hañ / þeir tijdkudu langar Bæner i Samkundunum / z á Gatnamootum / eñ under Hilmingu þeirra utsugu þeir Hus Ecckna og Fødurlausra / Matth. 23. Þad verdur valla med Ordum sagt / hversu ad Hræsneñ giører alla Guds Þioonkan Onyta i hñs Auglite / þeir føstudu tvisvar i Viku / og gáfu Tijunder af øllu þvi þeir áttu / eñ lietu þad þo Ogiørt / sm þyngra var i Løgmálenu /

Doomeñ /

Doomen/Myskunseme og Truna/Matth. 23. Pad elle þvi/od svo sem þeir afmyndudu Asiœner sijnar/nær þeir fostudu/til þess/ ad læta sia / ad þeir væru Fastande / Svo afmyndade Hræsnen þeirra bestu Verk fyrer Gude / svo ad Frelsaren seger / ad þeir hafe sijn Laun i burtu teked/ Matth. 6. Pad er/ad þeir Aluter/er i sialfsu sier good-er voru / og hofdu Fyrerheit goodra Launa hia Gude / ef þeir af Truñe giorder væru/þeir skylldu til eingra Launa vinna Hræsneñar og Yferdrepskaparens vegna/ miklu helldur abla þeim Dooms Afellis/ er vanvirda þoñveg hiñ alskigna Gud / med toomre utvortis Hegdan og Lætade / Svo sem Von er a / Þviad oll Hræsne er Lyge / Eñ Gud er sialfur Sañleikureñ / kañ honum þvi eckert svo gagnstædt ad vera/Edur hvad seger DRottenn um þessa Hræsnara/Matth. 23. Þar fyrer munud þier fa þess þyngre Fordæmingu. Nu hofum vier heyrt Doomeñ yfer Gydingum / Christner Meñ / af alls Hollds Doomara/Eñ ef þvilijkt og skyllde finnast a medal vor/mun vor Dom ur lietkare verda eñ þra ? Fiærre sie þvi / ef Gud þyrmde ecke hinum Nattturlegu Kvistunum/mun hañ þa oss þyrma/ Rom. 11. Ef vier uppfyllum þra Mæling? Eingen er Von a þvi/hvad giora þeir þa/ed ganga i Guds Hus / og heyra hañs Ord / forsooma valla nockra Predikun/og hafa þad i Muñe/og tala um hañs Vegu/ allt þetta er gott i sialfu sier/ Eñ hvar eru nu Avexterner/þegar þeirra leitad verdur/ hia allmorgum ? Þegar hiñ Volade Naud lijdur / byrgia Meñ sitt Andlit fyrer honum/þegar Meñ sia eitthvad gyrnelegt/hætta sumer ecke fyrr eñ þeir hafa svælt þad under sig / þegar einhver liooslar upp Ohroodre um Naungañ/þa taka Meñ i þañ Streingeñ/sie nockrum af Yferbodurunum / edur Forelldrunum eitthvad boded / hversu moglunarsamer / Hversu treger eru Meñ i ad hlijda þvi / Hvad toomlæter eru Forelldrarner sumer hverier i þvi/ad færa Bornen til JEsum? Til Kyrkiuñar koma þau ad sofu/ þar i er ei svo mikill Brestur/Eñ hversu sumum sie umgiefed / ad bryna fyrer þeim þad er þau heyrdu i Kyrkiuñe / þar ber Raun Vitne um / nær þau eiga ad giora Grein a sijnum Christendoome/ Oskande være/ad ei fyndust þr er valla hafa

nockud annad fyrer þeim / en skammarleg Ord og skÿbslegt Hial / sem sialfer þeir eru vaner til. Eingillenn sagde vid Abraham / er hann ætlade ad Offra Syne sijnum / hallt þinne Hende fra Sveinenum / þvi nu veit eg ad þu Ottast Gud / ad þu þyrmder ecke þijnum eigenn Syne / Enn Andskotenn giefur og sagt vid marga hveria / sem ecke þyrma Afkvæme sijnu vid eilijfum Pijslum / helldur læta þad uppalast i hanns Skoola / Nu sie eg ad þu elskar mig / þar eg sie ad þu svo uppelur Son þinn / ad hann giefe orded einhvern Tijma mijn Foorn / hallt þvi ecke Hendenne fra Sveinenum / þar til hann verdur fullur og feitur / og hæfur til ad Offra. Menn blessa Gud og læfast lofa hann og dÿrka / enn giora þo ecke þad hann boded hefur / enn Andskotanum formæla Menn / og afyrda hann / enn giora þo hanns Verk / er ecke þetta ad segia / Herra / Herra / enn giora þo ecke Fodursins Vilia ? Er þad ecke ad kalla Gud sinn Fodur / enn ræna hann þo Heidre sijnum ? Menn ganga til Heilags Alltaresins Sacramentis þrisvar / Fioorumsinnum a Are hveriu / Þar ætlumst vier til / ad forlijka oss vid Gud / og taka Sætt af honum fyrer Afbrot vor / z bioodum honum i Sektena Guds Sonar Dauda / og hanns Forþienustu / enn þess er vel ad giæta / ad Menn take ecke þangad med sier Gieste þa / er hann ecke ma eiga Sess med / allra sijst Natur til Naungans / enn ad þad hende þa suma / er aud sied af þvi Hatre og Ulfbud / er kijdkast Manna a medal a stundum / ecke Laungu epter þ Menn hafa minnst vid Christ / Er ecke slijkt ad kalla / HErra / HErra / enn gleyma hanns Bode / er hann sagde hia Marcum Cap. 11. Þegar þier standed buner til ad bidiast fyrer / þa tilgiefed / ef þier hafed nockud a moote einhveriu / svo ad ydar Fader / sem a Himnum er forlæte ydur ydar Misgiorder / Er þad ecke / sege eg ad bidia umm Frid med reiddu Sverde ? Er þ ecke ad skÿdurstu / ad segia / Heill vertu Rabbi / enn hafa Bak vid sig Sverd og Stænger ? Mun þad nu noog / Christner Menn / ad kalla / HErra / HErra / þad er / ad læfast Gude þiena / enn fremia þo allt þetta Vondskunnar Athæfe / þar eru eingenn Ber a þessum Vijn-Vide / eingar Fijkiur a þessu Fijktu-Trie / jafnvel sialf Blodenn eru niдurdottenn / allt hvad eg legg vid þau / er

For-

Forgiefens/seger DRottenn/ Jer. 8. Hvad mørg Ar hefur þu komed/ DRotten min / og leitad Avaxtar af oss / og eingan funded? Hversu krøpfuglega hefur Sonur þin fyrer oss beded / ad vier mættum enn þa eitt Ar standa? Fyrer hans Arnan er þad sked / ad vier ecke med øllu erum uppræktter: Þar fyrer/ Christner Menn/ taked Vara a ydar Vit iunar Tijma/ Giøred Ydran medan Guds Rijke er nælægt / Oxenn er sett til Rootar Trianna/ hvert þad Trie sem ecke ber Avøxt/ þad skal upphøggvast/og i Elld kastast/ Matth. 3. Bijdum ecke epter Jeru-salems Hegningu / um hveria Gud sagde vid Spamannenn / Þu skallt ecke bidia fyrer þessu Foolke / og ecke upphefia Raust edur Bæn/ edur forþijda fyrer þa / þvi eg munde einganveigenn Bænheyra þig / Jer. 7. Med mikille Alvøru og Gaumgiæfne byriar Manne ad rannsaka siælfan sig/hvert ad hann hefur Vitnisburd Heilags Anda/ad hann sie Guds Barn/ edur ad hann leidest af falskre Innbirlingu/um Arfa-Riett Guds Barna / hvad margann hendt hefur/ sem Gud Nade / og er þad audsært/ecke einasta af Dæme Phariseanna/og hinna Skriftlærdu/ um hveria sialfur Frelsarenn vitnar / hvad fiarlæger þeir vered hafe Guds Rijke / helldur margra annarra / sem ad eckert efast um Guds Nad / enn lifa þo hverge nærre svo sem Christnum ber/ jafnvel þoll ad ei sieu þeir verstu Klækium hladner / hverium eckert er betra Rad / enn þad sem Paulus giefur / er hann seger / 2. Cor. 13. Reyned hvert þier erud i Trunne/ hvad ei giefur med betra Moote stied/ helldurenn ef vier rann-sokum vora Eyfernis Hællu/ þvi Truenn er alldrei Avaxtarlaus/helld-ur verkar hun fyrer Kiærleikann / allar Christelegar Dygder hefur hun i sier foolgnar/hvar um eg vil nockud framar tala i sijdare Greinenne / enn læta um hid fyrra uttalad ad svo støddu.

St. Petur sagde/ ad hiia Gude være ecke Manngreinar Alit/helld-ur a øllu Foolke/af sierhverre Þiood/sem giører hans Vilia/hefde hann Velþocknan/ Act. 10. Nu er þad Omøgulegt Syndugu Hollde/ ad giøra Guds Vilia ad fullu/þvi þad er hid sama og ad uppfylla Løg-mæled/enn þad er oss um Megn/sem ad i Syndenne erum giefner/hverrar Spilling ad Daglega brijtur sig ut um þenna Daudlega Lijkama / svo

 ad

ad þegar vier viljum giora hid Gooda / þa lóder hid Vonda vid oss / þad jatar Paulus um̃ sig / Rom. 7. Med mikille Narmaklæguh/og mun eingum af oss betur vared / Nu heyre eg DRottenn tala a þa Leid hier i Gudspiallenu / ad sa meige eingenn inn i Guds Rÿke koma / sem ei giorer Fodursins Vilia / Enn hvert mun þa hoolpenn verda? Giat þess nu / Barn mitt / er Paulus seger / Rom. 8. Hann same Paulus sem kallde Vankvæde sijn a / ad uppfylla Logmaaled / hann seger : Þad sem Logmalenu var Omøgulegt / af þvi þad veiktest fyrer Holldeð / þad hefur Gud giort / sendande sinn Son i Lÿkingu syndugs Hollds / og fyrer Syndena fordæmt Syndena i Holldenu / til þessarar Rettarboot-ar vÿsar DRottenn oss sialfur hia Johanem / Cap. 6. Þad er Vilie hans er mig sende / ad hver sa ed sier Sonenn og truer a hann / hann hafe eilÿft Lÿf / sum er hid sama og ad inganga i Himnarÿke / Guds Vilia er Omøgulegt ad giora / svo honum lÿke / þoott þier giordud allt þad þier ættud ad giora / seger Frelsarenn / þa jated samt / Onÿtter þioonar erum vier / Luc. 17. Enn hversu mikeð oss breste a þad / til þess finna aller þeir / ed rannsaka sinn Lifnad / og bera hann samann vid Guds H. Logmaal / sasnvel hiner Riettlaatu / er vier svo kollum. Noe / Abra-ham / Isaac / Jacob / Elias / Samúel / Job / Daniel / meiga Forlaats bidia / þegar Gud helldur Doomenn / J hvers Augum þad Himnanna Himnar ecke hreiner eru / Truenn a Guds Son er þad alleina / sem oss riettlæter / þvi sagde Petur fordum / ad þar være eckert annad Nafn und-er Himnenum Monnunum giefed / i hveriu oss byrtade Saaluhoolpnu ad verda. Være ecke aller affallner / og allur Heimurenn Sakfallenn fyrer Gude / Rom. 3. þa være ecke hanns Sonur i Heimenn komenn / ad kalla Synduga og ecke Riettlaata til Ydranar / Enn alla hefur hann kallad / ollum segia laated fyrer Johanem / Giored Ydran / þviad Guds Rÿke er nalægt / Matth. 3. Ollum hefur hann i sijnu Nafne Predika laated Ydran og Syndanna Fyrergiefning / er þann Hlioom heyrt hafa / sem ut er geingenn um̃ alla Heimsbygdena / ollum hefur hann boda laated / Giored Ydran / og trued Evangelio / Marc. 1. Þesse er minn Elsku-legur Sonur i hvorium mier Velþocknast / sagde Guds Fodurs Raust

af

af Almum vid Aana Jordan/ Matth. 3. Par fyrer er sier hver sæl vel þockadur hia honum/ sem truer a Nafn Eingetens Sonar Guds/ og hann kiemur ecke til Doomsens/ Joh. 5. Pad er hann verdur ecke fordæmdur/ þvi hann hefur elskad oss i hinum Elskulega/ og þesse er Lögmalsens Uppfylling: Þesse er sa Guds Vilie/ er Frelsarenn talar um i Gudspiallenu/ ad trua a hann/ enn med hvilkre Tru/ Christner Menn? Ecke hans/ sem truer ad Gud er til alleina/ þvi trua og Dioflarner / og skielfast þar af / ecke hans/ sem kallar sig trua a Gud/ enn nær hann sier Broodur edur Systur Skort lijda/ gefur hann þeim þo ecke pad sem Lijkamanum gagnar/ Jac. 2. Jafnvel þott hann hafe Audlegd Heimsins/ þvi sa sem segest elska Gud/ enn hatar sinn Broodur/ seger Johannes/ hann er Lygare/ þvi ef hann ecke sinn Broodur elskar/ þann er hann sier/ hverneg ma hann Gud elska/ þann er hann sier ecke/ 1. Joh. 4. Sa dregur sig a Tálar/ er hann meinar sig ad trua a Gud/ enn synner einga Truarennar Avexte. Paall seger / ad i Christo gyllde hverke Umskurn nie Yferhud / helldur Tru su/ sem verkar fyrer Kiærleikann/ enn Kiærleikurenn er Lögmalsens Uppfylling/ Rom. 13. Pad er hann innebyndur i sier allt pad/ sem i Lögmalenu boded er/ enn þott hann sie Ofullkomenn hia oss/ þa verkar Truenn pad i honum/ ad hann gyllder i hans Auglite/ sem hefur sett JEsum Christum til eins Nadarstools i hans Bloode/ til ad auglijsa sitt Rettlæte/ ad hann sialfur sie rettlatur/ og rettlætande þann/ sem er af Trunne JEsu Christi/ Rom. 3. Pad er/ sialfur rettlatur/ i þvi ad taka eckert Ofullkomed fyrer gylldt/ enn rettlætande þo Ranglatann fyrer Truna a Christum/ og giørande þau Verkenn gylld/ sem af henne framkoma / og i Gude giørd eru / Og ma hier af sia / hvilkre þeirre Tru byrjar ad vera / sem er epter Guds Vilia / J einu Orde ad segia: Syned mier Lioos fyrer utann Birte/ Sool fyrer utann Lioosma / og eina Manneskiu fyrer utann Saal / og skal eg sijna ydur riettа Tru fyrer utann Avexte. Tvøfalldt er Embætte Truarennar/ Eitt er pad/ ad trua þvi/ ad Gud sie Negnare vondra Verka / Annad/ ad forlata sig þar uppa / ad Gud mune Synndernar fyrergiefa / Enn pad er valla mögulegt/ ad sa true hinu fyrra/ sem ad framfer i Glæpunum

Ydrunarlaust/ þvi seger David/ ad hiñ Heimske seige i Hiarta sijnu/ þar er eingeñ Gud/ Ps. 14. z hñ truer Forgiefens/ ad sier verde Syndernar uppgiefnar/ sem liggur i þeim Vñ-vitande/ hafande einga Vidleitne edur Atburde til ad Kroßfesta sitt Holld / med þß Girndum og Tilhneigingum / Oftraust er þad Guds Nædar / eñ ecke su Tru / er Maneñ hoolpeñ giører. Þu seger: Mijn Tru er veik / þvi velldur Fiollde Synda miña/ ad eg er ecke aldeilis Fulltrua uñ/ ad Gud mune sijns Riettlætes vegna giefa fyrergiefed mier þar; eñ eg er ecke einasta Ofullkomeñ / helldur Oßødugur i mijnu Apturhvarfe / og i þvi/ ad giøra Guds Vilia. Heyr mier Barn / Er Lausnareñ þa komeñ til ad kalla Riettlæta og ecke Syndugä til Ydrunar? Þijnar Synder eru Dioffulsins Verk / Mun ei Guds Sonur komeñ til ad niduibriota þau? 1. Joh. 3. Þetta Mistraust er eitt af þm̃/ þad mun Gude Sonur fyrer hvørn Mun i burt taka/ þvi hañ veit/ ad a þvi rijdur Saaluhiælp þijn/ ad trua a Gud / og þañ er hañ sende JEsum Christum/ Mun ecke Nædeñ yfergnæfa þar/ sem Syndeñ yfergnæfer? Rom. 5. Hefur ecke Gud alla under Ohlijdneñe iñelukt / (þad er under Þeckingu Syndareñar) uppa þad hañ myskunade øllũ? Rom. 11. Ef þu nu þecker Synd þijna / og villt hana af Hiarta ofgiørt hafa/ hvørnen kañtu þa ad efast uñ Guds Myskunseme / edur Fyrergiefningu Syndaña / þar Gud vill ecke / ad nockur Madur tapest / helldur komest til Sañleikßins Vidurkteñingar? 1. Tim. 2. Eñ þo ad Trueñ sie veik/ þa er þad þo Tru/ Eiñ Neyste er eins vel Elldur/ svo sem myked Baal/ Eiñ Drope er eins vel Vatn / svo sem allur Stooreñ / svo var og Tru Fødur hiñs Tunglsiuka eins vel Tru/ svo sem hiñar Canaanisku/ svo sem hiñar Bloodfallsiuku/ svo sem Hundrads Høfdingians. Bid med Lærefveinunum/ HErra/ auk þu oß Truna/ Luc. 17. og med Fødur hiñs Tunglsiuka/ er eg strax uñgat: Eg true ad søñu Herra/ eñ hiælpa þu Vantru miñe/ Marc. 9. Eñ þott ei bregde strax vid/ sem þu bidur / þa læt þier a medañ nægiast Guds Raad med Paulo/ þvi hañs Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum/ 2. Cor. 12. og visse Gud / ad þier ecke nægde uñ Siñ þad lijted / sem þu hafa þykest/ þa

munde

munde hañ an Efa / ad Skyndingu vidauka / þvi ān Truarekar er Omøgulegt Gude ad þocknast. Truen er Verk H. Anda / eñ ecke þitt / kalla þ alldrei lyted / sm̃ Gud hefur giørt / Giæt þss z / Barn mitt / ad hiñ Naaduge Gud heimter þad ecke af syndugum Mañe i Evangelio / sem høñu er um̃ Megn. Þar er eingeñ af øllũ Adams Nidiũ / sem ad fullu hefur Guds Vilia giørt / nema hiñ añar Adam / sem er Gud af Himnũ / sa ed i Heimeñ er komeñ / ad giøra hañs Vilia / hañ er anægdur med Gudrækne Hiartans / og alvarlega Vidleitne / til ad lifa epter synum Vilia / þvi þeir / sem eru i Christo JEsu / þeir eru ecke under Løgmalenu / Rom. 6. og ecke er Fordæming i þeim / Rom. 8. Gud høndlar vid þa svo sem Børn / og ei svo sem Þræla / þvi hañ veit hvada Verkefne vier erum / og þeinker a þad vier erum Mollð / Ps. 103. Sagde ecke Eingilleñ vid Abraham : Eg veit ad þu Ottast Gud / þo hafde hañ syna Breste / er hañ Tvisvarsiñum Missagde um̃ Konu syna / ad hun være hañs Syster. Jacob / er hñ a Talar droo siñ blinda Fødur / og hversu miøg kvartar Paulus um̃ þa Synd / sem i hønum bioo / Rom. 7. Þesse Dæme hefur Ande DRottens uppteikna lated til Huggunar þm̃ / sem af Efasemeñe freistader verda / af þvi þeir fiña Skort a þeirre Hroosan / sem þ̃ Gude gyllder. Vier høfum i Christo þañ Høfud-Prest / sem kañ ad samþyknast Veikleika vorum / Hebr. 5. Hañ er Bruñur þess Vatns / sem ad upp vellur til eilyfs Lyfs / Joh. 4. Af hañs Fyllingu høfum vier aller medteked Naad fyrer Naad / Joh. 1. J høñu fiñur hiñ strange allsheriar Doomare allt þad hñ brestur hia oss. Hañ er oss af Gude giefeñ til Riettlætis / til Helgunar / og til Endurlausnar. Høñu med Fødur og Heilogum Anda / sie Vellde og Kraptur / Ryke og Maltur / Dyrd og Heidur / fra eirnre Eilyfd til añarrar / Amen.

## Nijunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Luc. 16. Cap.

Þeim Tijma. JEsus sagde til siña Lærésveina: Nockur Madur audugur var þar / sa ed hafde eirn Raadsmañ / sa same var Ofrægdur vid hañ / so sem hefde hañ eidt hañs Gotze. Og hañ kallade hañ sama til sijn / og sagde til hañs: Hvad heyre eg þetta af þier? Giør þu Reikningskap af þijne Raadsmeñsku. Þviad þu mꜳtt eige leingur Raadsmeñsku hafa. Eñ Raadsmadureñ sagde med sialfum sier. Hvad skal eg til giøra / miñ Herra svipter af mier Raadsmeñskuñe? Eg duge ecke til ad grafa / eñ eg skamast mijn ad bidia. Eg veit hvad eg skal giøra nær ed eg verd settur af Raadsmeñskuñe / so ad þeir medtake mig i sijn Hus. Þar fyrer samañkallade hañ eirn og sierhvørn Skulldamañ sijns Herra / og sagde til hins Fyrsta: Hvørsu miked ertu skylldugur mijnum Herra? Eñ hñ sagde: Hundrad Tuñur Vidsmiørs. Og hañ sagde þa til hañs: Tak þitt Brief og sett þig nidur / og skrifa snarlega Fimtijger / Epter þad sagde hañ til hins aññars / eñ hvørsu miked ertu skylldugur? Sa sagde: Hundrad Mælekiørolld Hveitis. Þa sagde hañ til hañs: Tak þitt Brief og skrifa attatijge. Og Herrañ lofade þañ Rangláta Raadsmañ / þad hñ hafde giørt so forsiálega. Þvi þeßa Heims Børn eru kiænare Sonum Liossens i þeirra Kynslood. Og eg seige ydur: Giored ydur Vine af þeim Rangláta Mammona / So ad nær ydur þrijtur / ad þeir medtake ydur i eilijfar Tialldbuder.

## Exordium.

MARta / Marta / þu ert Ahyggiusøm / og mædest i mørgu / eñ eins er þørf / Maria hefur wtvaled þad Gooda Hlutskipted / sem ecke skal fra heñe takast / sagde Lausnareñ fordum / Luc. 10. Þad eru stoor Vanhellende Saalareñar hiaa oß Daudlegum Møñum / ad hun syrger svo mióg fyrer Lijkamanum / eñ lijted fyrer sialfre sier / og verdur þvi ecke a moote sagt / ad hun velltest nærsta mióg wr Tign siñe / þegar svo ber vid / þvi hvad er Kroppureñ hiaa heñe ad reikna / hañ er Molld og Aska / hun er eiñ lifande Ande / hañ skyniar eckert af sialfum sier / hun er full Raads og Skilnings / hañ deyr og rotnar i Grøfeñe / þar liggur hañ til þeß hun vitiar hañs aptur epter Guds alvijsu Raadstøfun / og sijdañ skulu þau bæde þeß Not edur Giólld hafa / sem hun hefur sied fyrer sialfre sier og hønum a medañ þau voru bæde samañ i Lijfenu. Eñ Frelsareñ seiger hiaa Matth. 16. Cap. Hvad gagnar þad Mañenum / ad hañ eignest allañ Heimeñ / og lijde Tiøpun a Saalu siñe. Þetta skilst ecke sumum Møñum /

svo eru þeir Ahyggiusamer um̃ þad Naalæga / en̄ syrgia lijtt fyrer hinu Epterkom-anda / og jafnvel finnst þesse Brestur hiaa þeim / sem Gud villa Ottast / hvetia og Frelsaren̄ kallar Lioossens Børn i þessa Dags Evangelio / af þvi þeir eru i Skyrn-en̄e Guds Børn vordner / hver ad er Fader Lioosan̄a / Jac. 1. Christi Brædur ept-er Endurgietninguñe / hver ad er Lioos Heimsins / og upplyser alla Men̄ / sem koma i þen̄a Heim / Joh. 1. og upplyster af H. Anda / sem er Lioossens Ande / og ecke Myrkursins / en̄ Toomlæte þeirra og Ofraamsyne strafar DRotten̄ hier i Gudspiallenu / med Epterlijkinguñe um̃ hin̄ ranglaata Raads-Man̄ / um̃ hverja Margur hefur margt talad / og fært hana heim uppa oss / sem a stundum erum Otrwer Raads-Men̄ yfer þvi Punde / sem Gud hefur oss til Medferdar fenged / og er þad ad sønu vel til funded / en̄ Asetningur Frelsarans er / ad kien̄a Børnum sijnum Gudrækelega Framsijne i þeirra Saaluhiaalpar Efnum / Þad syna oss þau Ord er sijdarst standa / OG Eg SEige YDur / GJøred YDur VJne Af þeim Ranglætis Mam̃ona / svo ad nær ydur þrijtur / ad þeir med-take ydur i Eilijfar Tialldbwder. Þesse Ord vil eg nockud giøra yfervega i þetta Sin̄. Hvar til hin̄ goode Gud virdest ad hiaalpa med Styrk sijns Anda / J JEsu Nafne / AMEN.

## Utleggingen̄.

HJer stendur medal an̄ars i Gudspiallenu / Ad HERRan̄ hafe LOfad HJn̄ RANGlaata RADSman̄ / Þad HAn̄ HAfe Svo FORSJALlega GJørt. Ecke er þad Meiningen̄ / ad Christur hroose þessum Ohlutvanda Man̄e / helldur seger han̄ fraa þvi i Epterlijkinguñe / ad han̄s Lanar-DRotten̄ hafe prijsad / ecke Rangsleitne han̄s eda Prettu / þvi eingen̄ af oss hroosar slijku a sijn-um Þienara / helldur Slægvitsku hn̄asi þvi / ad sia sier Farborda / nær han̄ være afsettur RADSmenskuñe / svo hverke þyrfte hn̄ ad erfida / nie fara a Bonar-Vøl / og þetta Dæme brukar Frelsaren̄ til ad egg-ia sijna Þienara a Christelega Framsijne i sijnu Gudræknis Eyrende / ad lijka svo sem þesse Veralldar Sonur var forsiaall i þvi / ad bua um̃ Tijmanlega Atvinnu sijna / svo skule þr og vera i þvi / ad sia sier borg-ed i Andlegum Efnum / Þvi fylger Epterlijkinguñe nockurskonar Umm̃vørtun / er svo hlioodar: ÞEssa HEJms BØrn Eru KJÆN-are SONum LJOSsens J ÞEJrra KYNslood / og þar a epter Bodord Frelsarans / hverneg þeir breita skule / sem vilia eiga Vist med Gude / og øllum Heiløgum i eilijfum Tialldbudum̄. GJØRed YDur VJne Af ÞEim RANGlætis MAMMona / seger Frelsaren̄:



Svo

Svo kallar hann Audlegd Heims þessa ; Þad ber til þess/ ad vallä er nockurt þad Ranglæte i Heimenum / sem ad Audurenn sie ecke vidrïdenn med einhvorriu Moote / Hvada Ranglæte hafa Menn ecke vid i þvi / ad abla hans i Kaupum og Sølum/med Yfervarpe Laga og Rettenda / til ad svæla under sig Eigur annara/med Feburde i Dooma/med Rane og Stulde/ med Ofrijke og Asælne / med Lygum og Prettvijse? Enn svo sem þad er ecke minna vert / ad giæta feingens Fiaar enn abla þess / svo skiedur og ecke minna Ranglæte i Medferd Audsens / helldur enn i Safnenu / Edur hvad giøra þeir ed bruka hann til Ofmetnadar / stæra sig þar af/ packa siälfum sier fyrer sitt Lucku-Lään/ færa Foorn-er fyrer sijnu eigenn Nefe / bruka Fe sitt til ad nidurdrepa hønum sem Ranginden lijdur/ til ad Riettlæta hinn Ranglaata / enn fella ranglæts ann Doom yfer hinn Saklausa/ til Ohoofs i Mat og Dryck/og annars Bijlijfes/ enn læta hinn Fatæka og nakta þorsta og Hungur lijda/ifie-hallda lænudu Fie/ og svijkia Daglaunarann/ og þann sem sleiged hefur Lønd hins Rijka umm sitt Verdkaup/svo ad þeirra Hroop er inngeinged i Eyru DRottenns Zebaoth ? Jac. 5. Eru þad þa Undur/ þott hier nefnest Ranglætis Mammona ? Og þott ecke æfe aller allt af þessu / þa er hver Partur þar af noogur til ad fordæma þann ed þad fremur/ þvi hvert ad einn tapar Lijfenu fyrer Lauslæte / eins og hann er sam-lagade sig Skiækiunne af Moabs Børnum / Num. 25. Edur fyrer Agyrne og Nijdsku / eins og Nabot / Edur fyrer Asna-Leikena / eins og Simei/ Edur Frumgetningu sinne med Laungunenne epter hinum fæta Rette/ eins og Esau / Edur Himnarijke fyrer Miyskunarleyse og Hard ydge / þa mæ einu gyllda / Litlu vardar umm hvern Veg ad einn steypper sier til Helvijtis. Nu er svo æstatt umm Audenn/sem eg sagt hefe/ecke þad / ad hann sie illur i siälfum sier / Guds Blessan er hann / og næsta þarfur þeim er vel vita med hann ad fara / og bruka hann Gude til Dijrd-ar / og Naunganum til Gagns / og til þess ad vera rijkur i goodum Verkum/ annars er hann skadlegur/ søkum Vanbrukunarennar/ og þvi seger Paulus/ ad þeir ed rijker vera vilia falle i Diøfulsens Snørur / þar fyrer søgdu og hiner Gømlu / ad hinn Rijke være annadhvert rang-

lætur

lækur edur Rangläts Arfe / Nu giekur þad ecke ad øllu Leike satt vered / þvi ei veit eg hversu stoor-rijkur ad Abraham var / þegar hañ foor ut af Vr / i Caldæa Lande / ædur eñ hañ kom til Haran / Gen. 11. Ecke var Jacob rijkur / þegar hañ kom med einsamlañ Gøngu-Staf siñ til Labans / og ecke var David Fiølskrudugur / þegar hañ foor Land-Flootta fyrer Ofsokñe Sauls / og mælltest til Matarverdar fyrer sig og Foolk sitt af Nabal / 1. Sam. 25. Svo kuña og marger ad vera eñ nu i Dag / sem vel eru komner ad Fe synu / svo sem þeir ed audgast af Orlæte Konunga siña / og añarra Høfdingia / ef þeir eñ vanbruka Gunst þeirra ødrum til Skada / þeir ed med Bindinde og Sparseme Audlegd safna / svo framt ad hañ sie ecke Opocke Fiær syns / edur neite hiñi Þurfanda uñ þad / sem Gud hefur hønum boded ad giefa. Margur verdur audugur af Embættis Launuñi og Kuñ allu sinie / verie hañ þar til Yduu siñe og Astundan / og take ei framar eñ Gud og Yfervallded boded hefur / þa ma hañ eiga sitt med goodre Samvitsku. Margur græder af Hand-Abla synu / og brukar Rætturuna / sem er rijk til Vtvega siña / þad er saklaus Groode / ef allt er añad rieltt : Eñ fyrer þvi / ad i øllu þessu er Hoofed vandhitt / svo ad eingeñ er ad fullu viss þar uñ / ad eckert sie Rangfeinged i Bue hañs / þar Audureñ er fagur / eñ Meñ eru ecke alltyd adgiætner i syku og fyrergiefa siælfum sier miked / þa kalla eg þad stoora Rad fyrer alla / ad Meñ eiga Kost a / ad giøra sier Vine af þessum Ranglætis Maññona. Tveir liggia Veger til þess sierdeilis / sa eine er / ad gialda aptur þad sem einhver af ødrum ranglega droo / Añar / ad giefa Ølmusur Fatækum / bæda kieñer oss Zachæus Tollheimtu-Madur / er hañ sagde vid DRottiñ / Luc. 19. Helmingeñ af Eigum mynum gief eg Fatækum / og hafe eg prettad nockurn / gief eg ferfallt aptur. Gud hiælpe oss vel / Lytell var þesse Tollheimtu-Madur vexte / eñ mørgum stoorum Mañe mun hañ kieña meiga Adferd Christelegs Apturhvarfs / DRottiñ gaf hønum þañ Vitnisburd / ad hañ være Abrahams Sonur / Lykast er ad hañ hafe svo vered ad Burdum / þad syner Nafned / og marger Gydingar voru Tollheimtumeñ Romveria /

Enn hann hafde tapad Abrahams Barna Rietke med Tollheimkune / Þvi Neidingia og þa leggur Frelsaren ad jøfnu / Matth. 18. Enn þvi olle Audmiukt hans og Averker Truarennar / ad DRottenn kallar hann Abrahams Son. Eg seige enn nu/ ad þetta Smæ-Menne gielur kiennt mørgu Stoor-Menne sannann Veg Yðranarennar/hann dæmde siælfann sig i Þioofs-Bækur/ þvi svo segia Moyses Løg/ Exod. 22. Ad Þioofurenn skule gialda fioora Saude fyrer einn / sem stolenn er. Nu er þo Straffed herdt af Christnu Yfervallde/epter þvi sem Slæpernet vared hafa / Enn þess være Oskande/ ad hiner stooru Þioofarner lietu ei heingia þa smæu / eins og Hvalfiskarner gleipa litlu Fiskana / Ef øll þvilijk Varmenne ætte under Galgann ad draga / þa munde Bødla vanta/þa munde Snørulaust verda/ svo ad Gaungu-Madurenn feinge valla þad hann kynne ad vefia umm Tøtur sijn / Enn hier er þo ecke svo miøg hætt vid/hinn Riettlæte Doomare hefur sied þvilijkum Mønnum bæde fyrer Bødle og Snøru / þar ed hver heinger annann a Stundum / Stundum kvelur einn giælijfur Sonur / ein lauslæt Doottter sijns Foðurs Hiarta/Stundum plæga þa opennberer Þioofar/ ødrum sender hann Elld og Vatn/ Vind og Ovedur/til ad tugta þa/ enn fyrer þvi ad þesser Fe-Þukar ecke taka þvi svo sem af DRottens Hende komnu / ann adhvert fyrer hans Lijdun edur Tilhlutan/ þa kyrker Buksorgenn þa/ og Aura-Elskann / jafnvel midt i Daudanum / Nema þeir ædur sieu Afhuga Neimenum / og hafe golldeð þad aptur a einhvern Hætt / er þr med Raungu fra ødrum tooku/svo fyrerfarast þesser Aumingiar/ og verda heingder jafnvel fyrer utann Bødul og Snøru/ & i Sannleika/ Christner Menn / þa er þ einsætt hverium einum ed erfa vill Himnarijke / ad gialda þad aptur / er hann hefur svælt under sig fra ødrum / þvi jafnvel hinn minnste Peningur/er hann veit sig med Oriettu hallda/hann er Pantur Andskotans uppa hans Sælu / sem giefur honum Riett til hennar/ svo fliootl sem hun skreppur ut af Kroppnum/ nema hinn hafe ædur bætt fyrer sig / ef hann ma þvi vidkoma / og fyrer þvi ad eingenn veit hvad mikel Vmsvif ad Daudenn lætur honum epter/þa er ei Raad nema i Tijma sie teked/ Gud hefur alldrei heited þeim Kvittun Synd-

anna/

aña/ſem ecke lækur af Jllu/ og lærer gott ad giøra/ Eſ. 1. Sa ed ſtoled hefur hñ ſtele ecke meir ſeger Paulus/ Eph. 4. Tak ecke ſvo Ord hañs / ad hañ bañe alleina ad ſtela framvegis / eñ leiſe ad ſtela þad ſm allareidu ſtoled er/ þvi Gud bÿdur ecke alleina ad lata af Jllu/ helldur og ad giøra hid Gooda/ og ſkyllde þad vera fyrſt af Goodgiørdunum / ef ſvo ma kalla / ad giefa þad aptur / ſem eiñ ranglega ifie helldur / og ſa ſem ecke hefur Leida a Syndeñe / hañ giekur valla atlad til Fyrergiefningar / Eñ hñ ſem ecke hefur Andſtygd a þvi Fe/ er hañ ranglega took/ hañ hefur og ecke helldur Leida a hinum rang-lata Giørninge: Meñ vilia ſegia/ ad þad ſie Omøgulegt/ ad gialld a øllu aptur/ þ ſem med Orietku teked var: Hañ er daudur er þu tookſt fra/ þa lifa þo kañ ſkie Erfingiar hñs/ gialld þeim ſiqtt er þu varſt hm ſkylldugur/ añars ertu eingu betre eñ hñ/ ed ſvæler under ſig añars Arf. Vera ma þu viker ei hvar hañ er ad fiñna/ edur Arfa hñs/ þa høfum vier þo Fatæka jafnañ hia oſs / þr taka vid Arfenū / þegar eingeñ er Erfingeñ/ þu manſt ecke hvad mørgū / edur um hvad miked ſierhverium þu hefur Oriett giørdt / þetta er Lÿklegt / ſierdeilis hafer þu til margra Ara ſamañſafnad/ þetta er Lÿklegt/ ſege eg/ þvi vier ſkrifum þ ecke ſvo a Minis-Toblurna/ ſm vier tøkū fra ødrū/ eñ þad ſem fra oſs kañ teked ad vera / þvi gleimum vier ecke ſvo bradlega: Eñ attu þar fyrer ad vera Hyggiulaus hier um? Nei / Barn mitt/ þeſs meira ſem þu hefur fra ødrum ranglega teked / þeſs fleirum ſem þu hefur Oriett tilgiort/ þeſs meire Hug ſkalltu leggia a Mal þitt / þad er og ecke Omøgulegt ad giøra nockurn Jøfnud i ſiqku: Til Damis/ þu veiſt hverſu frekt þu hefur byggt Lond þyn / hvad miked þu hefur dreiged af Verkamøñum i þuñ / hverſu ofmikeñ Abata þu haft hef-ur a þvi þu ſellder og keypter / giør ſvo ſmaſmuglegañ Reikning vid ſialfañ þig hier um/ ſem þu kant / añars vill Gud reiknaſt vid þig / Damer þu ecke ſialfañ þig / þa verdur þu af hønū dæmdur / 1. Cor. 11. Hañ hefur ecke gleimt þo þu gleymer / og nær þu hefur ſvo giørt / þa kaſta nocktu frañyfer/ og þo meira eñ miña/ ſvo þu ſiert viſs um / ad Satan hafe ecke eina Klauf epter i Bue þÿnu / helldur eñ Jſrael

a Ægyptalande/ Sie þa nockud ofgollded/ þa er þvi ecke spillt/ ꝥ verd
ur ad Fiesiood a Himnū/ ꝥ verdur ad Olmusu/og ꝥ er riett/Ad GJøra
SJer VJne Af HJNum RANGlæta MAMMon. Ecke eins
asta gallt Zachæus aptur ꝥ hñ ranglega teked hafde / helldur og gaf
hañ Helming Eigu sinar Fatækum/ þad Giediadest Frelsaranum svo
vel / ad hañ sagde: A þessum Dege er Huse þessu Heilsa skien. Hallt
Sal þyna svo Dyrmæta/ Barn mitt/ ad þu sæer ecke epter nockrum
forgeingelegum Alnum / til ad nioota sønnu Blessunar / þvi jafnvel
þoott ecke viñe vorar Olmusur edur øñur Verk til neins hia Gude /
þar vier giørum eckert fram yfer þad / sem vier eigum ad giøra/ þa
eru þær Gude þo hvad kiærastar af øllu þvi vier bioodum hønū/nær
þær af Truñe framkoma/ og af Kiærleikanū/ añars gyllda þær ecke/
þvi þoott eg bitade allar Eigur mynar modur fyrer Fatæka / og hefde
ecke Kiærleikañ/ þa være eg eckert/seger Pall/ 1. Cor. 13. Þar fyr-
er siæe Meñ til hverneg Meñ Olmusur giefa / ef þeir vilia ad þEir
TAke þa i EJlyfar TJalldbuder/ sem þær þiggia: Ecke til For-
dilldar sier eins og Pharisæi / ꝥ heiter ad læta blæsa i Basunur fyr-
er sier / ad giefa Olmusur til ad taka Byrding af Moñum / og sier-
deilis þeir ed utsiuga Hus Eckna og Fødurlausra / meinande þo ad
af þvo allt svoddañ med nockrum Olmusugiørdum/ þoott ꝥ sie best ur
Vondu ad ræda/ad giefa af þvi/ sem Jlla er feinged/eins og Zachæus
giørde/og læta svo af Ranglætenu eins og hñ/ þa ætla ecke ad þynar
Olmusur mune gyllda miked/ef þu helldur æfram i Prettunū. Lat
þier umhugad vera/ad þad sie vel feinged/sem þu giefur af: Eg elska
Rietteñ og hata Ráned/ þad er samteingest vid Breñefoornena/ seger
DRotteñ hia Esajam/ Cap. 61. Hier af kuña Meñ ad siæ/hvad
þær Olmusur gyllda mune i Auglite DRottens / sem eirn ætlar ad
betala siálfum sier aptur med Fe-Ráne af Náunganum / þær eru
eingu betre eñ Hunds-Verd edur Skiækiu / sem Gud villde ecke læta
bera iñ i Helgedoomeñ a Tymum Gamla Testamentesins/Deut. 23.
Þar fyrer/nær þu Olmusu giefur/þa siá til ad hun sie i Gude giørd.
Siertu Rykur/ þa gief rykuglega/ og giæt þess /af hveriun þu Aud
þiñ

þiñ feinged hefur / þo ſvo / ad þyn vinſtre Hond vite ecke hvad hin hægre gaf. Giæt og þeſſ / ad þu giefer ecke oflyted ef þu mætt vel / Þad er ſtoor Synd ad hafa alls Nægter / eñ læta hiñ Volada ſvo fra ſier fara / ad hañ hafe valla Magañ fullañ / auk helldur til nærſta Mals. Þier ſundurmened Andlit hiña Fatæku / ſeger DRottiñ / Eſ. 3. Þott þad ſie talad i añare Meiningu i þeſſu Stad / þa heite er þad riett / ad ſundurmola Andlit hiñs Volada / ad læta hañ horfa a Audlegd ſyna / eñ ſkamta honu ſvo naumt / ad hañ ſie litlu nær / Ecke giorde þ DRottiñ / er hñ ſadde 5000. Mañs i Eydemørku / þvi Guds ſpiallamadureñ ſeger / hñ hafe giefed ſvo ſm̃ hver villde hafa / Joh. 6. Ef þu villt ſegia þ Nydſkuñe til Umbootar / ad hañ hafe haft betre Rad eñ þu / þa vil eg ſegia / Giefur þu ecke truad honum / er þ giorde / ad hañ kuñe ad giefa þier tyfallt aptur / vid þad ſem þu gafſt Veſælingnum / ſierku Fatækur / þa gief þo af Fatækt þiñe / ſlyk er þu af mætt leggia / og læt þad vera af Gnægd Hiarta þyns / þvi Gud elſkar Hiartad. Lauſnareñ ſagde : Ad Eckiañ ſu / er lagde ſvo ſmaa Peninga i Guds Kiſtuna / hun hefde meira lagt eñ aller hiner Ryku / þvi hun gaf af Leifum ſynum alla Lyfs-Næring ſyna / Marc. 12. Viſt þvi / ad þad lyted / er þu gafſt / þad er Gude eins þægt / og hid mikla / er hiñ Ryke gaf / þvi bæda yckur giorde Gud / eñ hverneg ſem þier halltad er / þa gief med goodu Skape / þvi hyrañ Giafara hefur Gud kiærañ / ſeger Salomon / Paulus byduꝛ þad ſkule gioraſt / ecke med Naudung / helldur med fuſum Huga / ſa ſem med illu Giede ute lætur þad hñ giefur / hañ hefur bæde tapad þvi er hñ gaf / og ſvo þeim Launum / er hñ kuñe ad vænta af Gude / gief ſtrax ef þu giefur / þvi hñ ſm̃ fliott giefur hñ giefur Tviſvar / Seig þu ecke Naunga þynum / far burt z kom aptur / þvi a Morgun ſkal eg giefa þier / eñ þu hefur þ / Prov. 3. þ gioꝛer Veſælingeñ Længeyrgdañ epter Giofeñe / ſierdeilis ef Þorf hañs er bræd / og Gud kañ ad læta þig byda Eins leinge epter Hiælpeñe / nær þier æliggur / þvi med þeim ſama Maler er þier Mæled / mun ydur aptur Mælt verda / ſeger Frelſareñ / Matth. 7. Olmuſur hafa ſtoora Rad i Guds Auglite / Vaxer þyn-

ar og Olmusugiørder eru uppstignar fyrer Gud til Miñes / sagde Eingilleñ vid Cornelium/ Act. 10. Bæneñ er Offur þad sem vier eigū Daglega Gude ad færa / þad eru Kalfar Vara vorra / Hos. 14. sem koma i Stadeñ Foornfæringa Gamla Testamentesins / Olmusurnar eiga þeim ad fylgia/ ei siður nu eñ þa / Olmusañ blijdkar Gud meir eñ Foorneñ / þvi a Myskunseme hefur hañ Þocknan / eñ ecke a Offre / haf Raad mitt Konungur / sagde Daniel vid Nebuchadnezar / Giør Synder þijnar ad Riettlæte/ og Ranglæte þitt ad Myskunseme vid hina Aumu / Dan. 4. Lijklegt er ad hañ hafe þad giørt/ og kañske ecke apturhorfed ur Vargs Hamnum til Mañlegrar Rænu og Skyckunar ella. Ad Endingu vil eg minnast a þad / er hier sijdarst stendur i Gudspiallenu : Svo Ad Nær YDur ÞRYTur / Þa Medtake/ ÞEir YDur J EIlijfar TJalldbuder. Hverier þa? Guds Volader Sauder: Nær þrijtur oss? þegar vier førum nakter burt ur Heimenū/eins & vier i hañ komū: Nær medtaka þr oss? Vegeñ leggia þr til þss hier i Heime/med Bænū sijnū & Andvørpunū til Guds/ad þ mege oss endurgollded verda i Upprisu Riettlætra/ er Meñ gæfu i Guds Nafne. Johañes sa i Openberaneñe eiñ Eingel standa frame þ Altarenu/ hañ hafde Reykelsis Kier af Gulle i Hende sier/og var giefed Reykelse myked/ad hañ offrade þvi med Bænū Heilagra/Apoc. 8. Eg efast ecke um/ ad hier med eru og teiknadar Bæner Voladra þurfa-Mañа/ sem eru riettir Christi Limer/ þetta Reykelse skylldu Meñ dijrū Doomum kaupa / þvi þad gagnar meir eñ mørg Þusund Stycke Gulls og Sylfurs/ Nauta og Sauda/ eñ um sijder munu þeir MEDtaka oss i EIlijfar TJALLDbuder/þegar Konungureñ seger a efsta Doome til þra/sem eru a hægra Veg/ þad sem þier giørdud einum af þessum mijnū miñstu Brædrū/þad giørdud þier mier. Komed þier hiner blessudu mijns Fødur/og eignest þad Rijke/sem ydur er fyrerbued fra
Upphafe Veralldar/ Þess niootande ad verda/ uñ þu oss
eilijfur Gud og alleina rijkur/fyrer hañ sem vor vegna
Fatækur giørdest/JEsum Christum vorn
Frelsara/ Amen.

Tijunda

# Tijunda Suñudag epter Trinitatis.

## Gudspialled/ Luc. 19. Cap.

Þañ Tijma. Og þa ed JEsus kom nær/ad hañ sa Borgena / grieł hañ yfer heñe / og sagde: Ef ad þu visser hvad til þijns Fridar heyrde / þa munder þu a þessum þijnum Tijma þar Vaktan a hafa / eñ nu er þad huled fyrer þijnum Augum. Þviad þeir Dagar munu koma yfer þig / þad þijner Oviner munu byggia Nervirke i kringum þig / og umkringia þig / og a alla Vegu ad þier þreingia / og nidur i Grunn kollkasta / og þijnum Bornum med þier / og ecke munu þeir i þier lata Stein yfer Steine vera / af þvi þu þeckter ecke þiñ Vitiunar Tijma. Og hañ gieck iñ i Mustered / og took til ad reka ut þa sem selldu og keiptu þar iñe / og sagde til þeirra: Skrifad er / ad mitt Hus sie Bæna Hus/ eñ þier hafed giört þad sem añad Spillvirkia Jñe. Og hvørn Dag kiende hañ i Musterenu. Eñ Kieñemaña Höfdingiar og Skriftlærder og þeir Yppurstu Lydsins / leitudu fast epter / ad fyrerkoma honum / og gatu þad ecke funded/hvad þeir skylldu giöra honū. Þviad allt Folked hnie ad honum / og hlijdde hañs Ordum.

## Exordium.

HEr utmalar H. Paulus þad Skrijmsle Agyrndena / er hañ seiger / 1. Tim. 6. Þeir sem ad ryker vilia verda / þeir falla i Freistne og Snörur / og i margar Girnder Vitlausar og Skadlegar / hverjar ad steypa Mañeskium i Töpun og Fordiörfun: Þetta er Þeigenum lisosara / þvi under þeña Skaplöst þienar svo mikid Illþyde añara Lasta / ad valla er nockur su Odygd ad ei þurfe hun Lid af ad þiggia / nær hun er mögnud / Eins og eiñ Stoor Herra þarf margra Þienara / svo er og Ovættur þesse / hun tekur heila Sveit af siñe Kynslood i Lid med sier / Lyge / Roogur / Bakmælge / Meinsære / Flærtskapur / Underhyggia / Ofryke / og jafnvel Mord og Mañdrap eru heñar Förunautar / þad vottar Postuleñ skömu sydar i þessum sama Capitula/ er hañ seiger: Ad Agyrndeñ sie Root alls Ills / J hverria þegar nockrer fyst hafa / þa hafe þeir villst fra Trwñe / og sialfa sig i giegnum lagt med Harmkvølum mörgum. Hiñ Agiarne hefur Otal Veidebrellur til Ødvega siña/ eñ ecke hefur Diöfulleñ færre Snörur / til ad veida hañ / hvad drap Achan? Jos. 7. Hvad rænte Achab Ryke og Fiöre? Hvad sælgade Judas? Matth. 27. Allt samañ giörde þetta Fe-Girndeñ / og Otal fleira sem ei verdur uppreiknad / og kuñugra er / eñ med mörgum Ordum seg-

la þurfe / Nu eru þo marger Veger til ad verda Rykur/ Sumer Leifeleger/ Sum-er Oleifeleger / hiner fyrre eru Blessan DRottens / Astundan i synu Embætte / og Christeleg Fyrerhyggia / og añad þvilijkt / sem eg hefe nockud drepeð a i næst fyrerfarande Predikun: Hiner Oleifelegu eru svo marger sem Agyrndeñ fær upp-dyktad / Eñ med þeim hættustu er Gradvønd Kauphøndlan / hverrar vegna ad DRotteñ kallar / ad Guds Hws sie orded ad Ræningia Bæle hier i Gudspiallenu / þvi seiger Syrach Cap. 27. Eiñ Kaupmadur gietur valla vared sig Oriette / nie eiñ Kramare fyrer Syndeñe. Nu fyrer þvi ad eg hefe ecke til forna i Book þessare neitt merkelegt um̄ þeña Hlut ritad / sem þo er harla Naudsynlegt ad vita nockud um̄ / þa vil eg taka mier Orsøk af Vandlæte DRottens / til ad Hugleida Tvent hier af / sem er. 1. Hvør ad sie Leifeleg Kauphøndlan. 2. Hvør ad sie Oleifeleg. Hialpa oss goode Gud til þessa Verks fyrer JEsum vorn DRotteñ / AMEN.

# Vtleggingeñ.

ÞAD er vyst / ad ecke gietur Verølld þesse stadest án Kauphønd-lunar. Mismun hefur hiñ Alvyse Skapare giørt bæde Land-aña og Mañaña / eñ eingum hefur hañ giefed allt/ þvi hañ ællade sialfum sier allt / Rykur og Fátækur mættu hver ødrum seger Salo-mon/ eñ Gud hefur giørt þa báda/ Prov. 22. Hañ meinar Rykañ/ Rykañ/ eñ Fátækañ Fátækañ/ þvi hvorttveggia kiemur af hønum: Hvar fyrer mun nu hiñ Almáttuge svo giørt hafa? Gat hañ ecke alla Fullryka giørt/ sem á alla Jørdena/ og þad sem þar iñebygger? Ad vyssu gat hañ / Hvar fyrer er þad svo skied þa? Eingeñ hefur ad señu hañs Rádgiafe vered/ eñ þo má þad skilia/ ad hañ hefur giørt þeñañ Mismun til ad láta dyrka sig af bádū/ af þm̄ sem noog hafa/ med Kiærleikans Verkum / af hinum sem Skorteñ lyda / med Þoleñ-mædeñe / eñ þo ecke sydst til ad láta Daudlega Meñ æfa sig i Riett-vyseñe og Kiærleikans Verkum/ i allre Høndlan og Vidskiptum/ þar eingeñ er sialfum sier Fullnoogur um̄ allt / ad ei sie hañ añars Þurfe i einhverju: Bruke þvi nockur Kaupmañskap/ þa æfer hñ eingañ ill-añ Hlut / helldur Naudsynlegañ: Gud hefur ecke fyrerboded sialfañ Hluteñ / Helldur Vanbrukun Hlutarens: Vigt og Mæler eru þeir Hluter / sem Kauphøndlan má ecke án vera / þad hefur Gud ecke bañad / eñ ranga Vigt og Mæler hefur hañ fyrerboded/ Lev. 19. Og þetta er ecke sydst ad taka Vara á i Vidskiptum Maña: Riett er og

hverium

hverium Manne ad kaupa pa Nluke / er hann vid þarf / til þessa Lijfs-Næringar / edur skickannlegrar Brukunar / sem Gud hefur ecke i sijnu heilaga Orde fyrerboded / Svo keipte Abraham Landed af Nephron til ad grafa Kvinnu sijna / Gen. 23. Jacob keypte Land under Bu sitt af Sonum Nemors / Gen. 33. Joseph keipte Fe hinna Ægypsku til Nanda Pharao fyrer Alvinnu / Gen. 47. Jeremias Akuren af Chanameele Syne Fødurbroodur sijns / og giørde Giørning þar umm / Jer. 32. Og Lamuel samlijker forstanlle Konu og ydinne vid Kaupskip / þvi ad hun sæke Fædslu sijna langt ad / Prov. 31. Fyrer þvi er þad saklaust ad bruka Kauphondlan umm þvilijka Nluke. Aller þesser Menn / er eg strax upptalde / voru Guds Viner / og kunna Menn ecke annad umm þa ad ætla / enn ad þesse Negdan þeirra hafe Leifeleg vered / Enn ef þeim var saklaust ad kaupa / þa var og hinum Syndlaust ad giøra þad falt / er þeirselldu / þvi ecke er Kaupande nema Seliande sie. Lydia su er Paulus skijrde i Borg þra Thyatirorum / Act. 16. Hun sellde Purpura / og heyrest ecke ad Postulenn hafe bannad henne Nøndlan sijna / og var þetta þo ecke svo miøg Naudsynlegur Nlutur til Lijfs Næringar / sem hun hafde med ad fara. Sa ed selur Handa-Verk sijn / hveriu Nafne sem heita / Hann brukar saklausann Kaupmannskap / þvi hann neyter Brauds sijns i Sveita sijns Andlitis / Ef hann ecke falsar Verkefned / edur brukar i þvi adra Rangsleitne / fyrer þvilijku mun hier epter Rad giordt verda i sijdara Partenn. Hann ed selur þad / er hann missa kann ur Bue sijnu / þeim er vid þurfa / hann giører goodann Nluk / sierdeilis ef hn ecke innehelldur þvi er hn ma̅ an vera / nær hinn er Naudstaddur: Svo giørde Joseph / þegar Gud sende Hungur i Ægyptaland / og þoott ad Herodes Konungur Aschalonita være hinn verste Madur / þa var þ þo Lofs verdt a hønum / sem Joseph Sagna-Meistare skrifar / ad hann hafe sellt jafnvel Gersemar sijnar fyrer Alvinnu handa þegnum sijnum. Þeirra Adferd er og Saklaus / sem hafa Fe i Nøndum / og kaupa Naudsynlega Nluke / a medann Nægter eru af þeim / til ad selia ødrum sem fatæker eru / og ei høfdu Rad til ad kaupa til margra Ara / og þott þr Abatest nockud þar af fyrer Omak sitt / þa er þad ecke Synd /

nær þad skiedur med Jofnude og ann Okurs / og þad hygg eg ad sie hid sama / sm̄ Paulus bijdur / 1. Cor. 7. Ad þeir sem kaupa / sieu svo sem ad ecke eige þeir / þad ræd eg af þvi er hañ seger strax epter / ad Meñ skule bruka svo Heimeñ / ad Meñ ecke Vanbruke hañ / þad skil eg svo / ad Meñ fære sier i Nit þa Hlute / er Gud hefur lanad / þo svo / ad þ ei verde med Asælne vid Nauungañ / til ad giora sig rijkañ eñ hañ fatækañ / sierdeilis þar hñ i þssū Stad er ad tala um̄ þa stuttu Tijd / er Meñ eiga ad fast vid þetta Tijmanlega. Þeirra Atburder eru og riettvijser / og nærsta þarfer / er færa þa Voru yfer Hafed / sem eitt Land ma ecke an vera / nær þeir giæta þess er St. Paull bijdur / 1. Teß. 4. Eingeñ yfersijge edur asæleſt siñ Broodur i nockurre Hondlan / þvi Gud er Hegnare alls þessa. Eñ nær þeir giora þad til ad hafa þar af sitt Ærlegt Vpphellde / eñ ecke til þess alleina ad verda rijker af Þorf añarra / þa er þra Verk eingañvegeñ lastande / og ma um̄ þa segia eins og um̄ hvern añañ / sem ver Erfide og Ydiu siñe til ad hialpa Nauunganum / ad verdur er Verkamadureñ Launa siña: Fyrer þvi a ecke Kaupandeñ ad sia Offsioonum yfer þvi / þoott þeir abatest / ef þeir giora hañ ecke ad Løgræninge / sierdeilis þar hañ vogar Lijfe og Gootze til ad sia hinum borged / þvi hvortveggia þetta eru dijrmæter Hluter / og Lijfed ad vijsu hiñ Kostulegaste af Verallð' ar Munum / Jafnvel ad Vitne Satans / er hañ sagde / Job. 2. Hud fyrer Hud / og allt hvad Madureñ a / mun hañ giefa fyrer sialfañ sig: Þvi a ecke ad misuña þeim nockurs Agooda / er svo miked leggia i Sølurnar: Þad kañ og til ad bera / ad þess hattar Kaupmadur / giore þeim eingañ Oriett / er hañ selur Voru sijna frett / ef hañ ma hana añarstadar kaupa dijrum Doomum / og þad kiemur eitt hvad a mille / sm̄ hindrar Asetning hañs / þvi þad er eins og hvert añad Tilfelle i Vtrettingum vorum / og er þad margt sem Kaupande kañ ecke ad vera so froodur um̄ / ad hañ vile hvort hiñ giorer Oriett edur ei / ma hñ þvi ei strax vijta hiñ þar fyrer / og þo ad hañ vijsse sier Oriett giordañ / þa giorer hañ sialfañ sig eins sekañ / ef hañ vill rietta Hlut siñ med ødrū Oriette / þvi þad heiter ad giallda Illu Illt / hvad Gud

hefur

hefur hañad. Þetta er nu svo sagt um̃ þa Kauphøndlan/ sem Leife leg er/epter þvi sem̃ i stuttu Male sagt verdur/ hvert þo betur skiliast mun / af þvi er i hiñe sijdare Greineñe talad verdur / um̃ þad sem er Oleifelegt i nockurre Kauphøndlan.

Hier erud eins og Snara i Mizpa og uthaned Net yfer Tabor / seger Gud vid Israel / Hos. 5. Af þessum Drottens Doome mattu Kieñemeñerner ecke hiñ miñsta Hlut / vegna Agyrneñar / svo sem rada ma af Textanum / Eñ ecke voru þeir Rædvandare / þegar sa Drottnareñ kom til syns Musteris / sem rak ut þadañ Seliendur og Kaupendur / svo sem i Gudspiallenu stendur / þad verdur sañad med Ordum Hieronymi Læresødur / hverra Meiningu eg vil sekia hier ad nedañ/ til Frodleiks þeim er epterkaka vilia/ eñ øllū til Vidvørunar/ þvi sierhver Christeñ Madur a ad vera Guds Kieñemadur i Hiarta synu/ sem er Mustere Heilags Anda/ hañ skrifar a þa Leid i siñe Utskijringu yfer Matthæi 21. Capitula: Kieñemeñerner uppþeynktu hverneñ þeir giætu abatast af Almuganum / og selldu allañ Fenad þañ er þurfte til Foornaña/ svo ad þeir selldu þeim er ecke høfdu/ og tæktu sialfer aptur þad þr sellt høfdu/ Eñ þeña Prett þra hindrade Fatækt margra / sem ecke einasta ei høfdu þad þeir kyñu ad offra / helldur og ecke þad þr mættu kaupa med/ þvi tilsettu þr þa ed lanudu Peninga. Eñ fyrer þvi ad i Løgmalenu var bañad ad taka Rentu/ og lanad Fe kuñe ecke ad gagna fyrer utañ Avøxt / þa uppþeinktu þeir añad Bragd/ ad þeir tilsettu þa er i stadeñ fyrer Peninga-Rentu tæktu adskilianlega Avexte / svo ad þad sem er leifdest ad taka i Peningum/ þa tæktu þeir i þeim Hlutum/ sem med Peningum keyptter eru. Fyrer Rangsleitne þessa og Hreckvijse rak Drotteñ ut þa ed med þessu moote selldu og keyptu i Musterenu/ af hverium flester voru Þienarar Kieñemañaña/ edur þm̃ athangande. Hugleidid nu/ Christner Meñ / hvad miklu Gøfugre og Dijrdlegre ad er Guds Kyrkia medal vor / helldur eñ Jerusalems Mustere / þar hun er bygd uppa Grundvøll Spamañaña z Postulaña/ hvar sialfur JEsus Christur er Hyrningar-Steirneñ / Eph. 2. Sie ꝥ þvi til hver og einn / ad ecke

 verde

verde hañ utrekeñ ur Huse sinu og Osynelegu Guds Kyrkiu / fyrer svoddañ rangsnueñ Kaupmañskap / eñ þvi er æ verr og midur / ad eg hygg ad margur kemie sier þissa Ohlutvendne/ sem ætlar sig vel Christ- eñ: Gydingū vard þra Hus i Eyde læted/fyrer þessa og adra Glæpe / Eñ væru þeir aller utrekner ur Guds Kyrkiu / sem þvilijkt adhafast nu i Heimenū/þa ugger mig ad verda munde þuñskipad þar iñe/Edur hvad er þad/Christner Meñ/þegar eiñ selur sijnū Naunga eiñ Hlut / eñ dylur þa Leste er hañ hefur ? ja / hroosar hønum i mesta Mata / þo liugande/og a Stundum sver vid Guds skielfelegu Nafn/ ad þad sie svo sem hañ seger / og hversu marger Klækier eru þa samañkomner/ til ad steipa eins Syndara vesælle Sælu i Helvijtis Afgruñ? Hier er Þioofnadur / Hier er Lyge/ Hier er Meinsære ef til vill/miña næger: Sierhvert af þessu/ er noog til ad fordæma Syndarañ / hefur ei Gud bañad ad Stela/ad Liuga/ad leggia Nafn sitt vid Hiegooma ? Þier skulud olldungis ecke sveria / seger Lausnarañ / eñ ydar Ræda sie Ja Ja / Nei / Nei / Matth. 5. Hvad vill þad þa verda / ad leggia þad vid Svik og Prettu/svo þad er nærsta undarlegt/ad nockur skule mega Sal sijna svo lijtels/og voga heñe fyrer svo lijteñ Hiegooma/og nærre þvi fyrer eckert a stundum. Ad ei tale eg þar uñ/ad hañ sem veit ad Gud er til/ skule svo berlega forsmaa hañs stooru Helgun fyrer einkis verdañ Hlut. Eingu betre er hañ sem gyller vonda Voru med ein- hverju Tale þvi/ jafnvel þoott ecke liuge hañ sialfur/ þa lætur hañ Hluteñ liuga/eñ Þiofnadureñ er allur hiñ same. Þessu er þad lijkt/ ef nockur selur einhveriun þad hañ þecker ecke / og hefur ei Vit a ad dæma uñ/hvert þad er Illt edur Gott/ þad eru bañvæn Svik/þvi sa þad giører/hañ selur ødrum Heimsku sijna/og veider hañ i Nete Faa- kiænsku siñar / þetta er alltijt þeim / er leina þvi sem gagnlegt er fyr- er hinum Einfallda / eñ bioda þeim hid Onijta / og af þessum Prett vaxa tvær adrar Stoor-Skamer/ sem er/ ad hañ er þvilijkt æfer/fagn ar i Hiarta sijnu / hversu forsiall hañ vered hafe/ og þackar Abatañ Sviñu siñe / eñ hins Osviñu forsmaaer hañ / og skamast sijn ecke ad hroosa þessu fyrer sijnū Lijkū/ leggur svo Drambsemeñar / og Sialf-

hælneñar

hælneñar Synd til Þioofnadareñs / og er þa ecke Von a vöru verra / nær Diøfulleñ hefur svo blindad eiñ / ad hañ stærer sig af Klækiunū/ einsog Lamech er hañ hroosade sier af Forsskañe vid Kvikur sijnar / Gen. 4. Med þessum eiga þeir Sess i Andskotans Rijke / sem bruka falska Vigt og Mæler / uṁ hveria eg hefe noog sagt / þegar eg seg þad med Salomons Ordum : Ad þvilijkt sie Andstigd fyrer Gude/ sa þad giører/ hañ uppsker hvar hañ ecke sæde/ og selur einum þad hañ alldrei feck. Þeir ed setia Vøruna of-dijrt/og miklu hærra eñ ad svarar þeim Abata er þeir med riettu hafa meiga / fyrer Omak sitt og Umhyggiu fyrer sijnum Kaupmañskap / Þeir meina ad sañu ad vera Saklauser / og helga sig giarna þar med / ad eingañ bidie þeir ad kaupa ad sier / og Vara þeirra sie Osvikeñ / Eñ hier i er þo margt athugavert / sie svo ad eg hafe einhvern Hlut/ þañ eg man ecke missa an mijns Skada / eñ hañ ætlade sier nokeñ Hagnad af/ er kauper / þa er þad ad sönu rietkvijst / ad eg selie hañ nockru dijrara eñ eg keypte / Eñ ef eg hefe þañ sama Hlut til Sølu og vil hañ falañ læta/ þegar mier lijkar Andvirded/eñ Brooder edur Syster eru Naudstodd/ svo þau gieta ecke an hañs vered/ og eg bruka Neyd þra Vøru minre til Gyllides/ þa er þad stoor Synd / og eingu betra eñ þad / sem ædur er uppkaled/ þvi þad heiter ad selia einum Þorf sijna / Eñ hverneñ kañ hañ ad giøra Hluteñ betre edur Dijrmætare / i sialfum sier / helldur eñ hañ være þar fyrer utañ ? Kañ nockud Hungur Naungans ad giøra þiñ Mat betre / og ef ecke betre / þa ecke helldur Dijrmætare / edur hañs Verleike/ þad Fat er þu selur hm̄ Kostulegra ? Þetta er nockurskonar Hæglætis Ofrijke / og Ulfur under Saudar-Giæru / þvi hvert eg svijk Fe ut af Einhveriuni / sem ecke man ræna mig þvi sem hønum ætliggur/edur og ræne hm̄ Fe sijnu/ þvi er eg hefe eingañ Riett til/ þad er allur hiñ same Orietkur i Guds Auglite. I þessū Flocke vada þr ed kaupa upp alla Vøru / þa sem hiñ Fatæke ma ecke an vera/ nær þeir hafa noog i Nondunum / eñ selia hana so dijrt aptur / sem sialfer vilia þeir / nær Neydeñ þreinger/ og þo eru hiner hvad verster/ sem hafa a Bodænge gyrnelega Hlute / og þo alldeilis Oparfa / eñ læta

Þa

þa ſvo dyrt / ſem Agyrndeñ bijdur / nær Dareñ ſparar ecke fyrer ad giefa/til þeſſ ad ſløckva Gyrndena uñ Stundar ſaker/eñ ſvelltur ſiꝺ añ. Þetta er ad ſelia einn Synd ſijna / ſm er hiñ verſte Kaupmañs ſkapur / Þetta er ein Andſkotans Svipa / af mørgum Streingium / mørgum Syndum flettud/ þvi fyrſt kauper hañ þeſſhalltar Voru til ad leggia Tal-Beitu fyrer hiñ Neiuſka/ ſijdañ fletter hañ Fie ſijnu/ og epter a hæder ad høñum / eñ prijſar ſialfañ ſig og Kiænſku ſijna / og þad er ecke øllu betra eñ Bileams Raad / hver ed lict Iſraels Sonu glæpaſt a Moabitaña Konum / Num. 31. Aller Heilvirka Meñ / ſem þetta leſa edur heyra / þeir munu nærre gieta / hvar uñ eg tala/ og er allt ofmargt af þeſſu Illþijde i Lande voru. Þetta er nu ſvo talad uñ hañ ed ſelur / eñ þoott ad Kaupande og Seliande ſieu nærre þvi hid ſama / þar eingeñ ſelur nema hañ kaupe / og eingeñ kauper nema hañ ſelie/ þa giøra Meñ þo Miſmun þañ i Daglegu Mæle / ad ſa heiter Seliande/er hefur Voru til Kaups/eñ hiñ Kaupande/ er ad hønum kauper/og þvi hefur hñ og nockurs ad giæta. Einhver kañ a ſtundum ad ſelia þad hañ ecke veit hvad koſtar / og er þeim þa vant/ſm ad hønum kauper/ ad ecke ælſæleſt hañ ſiñ Nauunga i ſiñe Nøndlan/ Ja i Sañleika / giefe hañ miña fyrer Nluteñ eñ ad hañ verdur er/ þa er hañ eins ſekur i Guds Auglite/ſvo ſem hiñ/ er ſellde þeim ofdyrt nock urn Nlut/ er et veit hvad hañ kauper. Eirn neydeſt til ad ſelia Eigu ſijna fyrer Nungurs ſaker/edur einhvern Akviñu Breſt/ſvo hañ getur ecke beded epter þeirre Tijd / ſem hañ kuñe ad fa Lijfs-Næringu med ødru Moote. Fær hañ ecke Jøfnud af þeim er kauper/ þa giører Kaupmadureñ ſtoora Synd / og er eins ſekur / og hiñ er ſelur ødrum Þørf ſijna : Bægt er allt þvilijkt upp ad telia i ſtuttu Mæle / eñ giæte Meñ þeſſ/ er DRottiñ ſagde fordum: Nvad þier vilied ad Meñ erner giøre ydur þad ſama giøred þeim einneg / Luc. 6. Svo og þeſſ Syrach ſkrifar/ Cap. 27. Eins og Fleigureñ klemiſt a millum Mur-Steina/ſvo þreingeſt Syndeñ a millum Kaups og Sals/ fyrer þvi er þeim einſætt / er giørt hafa ſlijka Nøndlan ad Nandverke / kañſkie ſeingur eñ ſkiemur/ſumer hverier/ þeim er einſætt/ ſege eg/ad rañſaka

nockud

nockud Atferd sijna i þessu/ og ef Þr fiña Ranglæte hiaa sier/ ad bæta þad med sæfre Ydran/ eñ hun er alldrei af Alvøru/ nema Meñ gefe þad aptur / sem ranglega var teked / hvar uñ eg hefe nockud talad i nærst fyrerfarande Predikun/ og vil þad ecke hier aptur ytreka: Allеina vil eg rañsaka Tveñslags Affsakaner/ sem Meñ plaga ad giøra sialfū sier i þvilijkū Tilfellum. Ein er su/ ad nockrer lataſt giefa Olmusur af þessu rangfeingna Goodze / og þurfe þvi ecke aptur ad leggia/eñ giæt þess/ ad þad sem Fatækum er giefed/ þad kallaſt Gude lanad/eñ Gud vill ecke þioofs-Naukur vera/ þad sem honū er giefed maa velfeinged vera / ef þad a honum ad lijka: Þvi er þad riett er Syrach skrifar/Cap. 34. Sa sm færer Foorn af Eigu hins Fatæka/þad er svo sem hñ slatre Syneñ i Augsyn Fødursens: Braud hins Þurfkuga er Lijf hins Fatæka/Sa ed svijkur hañ/sa er Bloodgijrugur. Olympias Mooder hins Stoora Alexandri hun helgade AfGude sijnū þad Sverd/ er Madur heñar Philippus Kongur var drepeñ med. Alexander Phereus giørde hid sama vid Lensuna/ med hverre hñ vo Fødur Broodur siñ Polyphronem/og sømu Atferd hafde Keysareñ Antoninus Caracalla/ er hañ Lijfliet Broodur siñ Getam/ Aller Meñ kalla þetta illa giørt/ eñ ecke mun vera svo stoor Munur a þessum Odæda Verkum i Guds Auglite / og hinu / ad svijkia Naungans Braud ut af hañs Muñe i Kaupum og Sølum / eñ lataſt giefa Gude þar af aptur/edur hañs Vesælingum/svo miked sem þeim sialfum lijkar. Þad geingur nærst þvi/ad kasta Bloods Verdenu iñ i Kyrkiuna med Juda/ Eñ þo vil eg segia þad sm eg hefe adur sagt/ ad ef Madur fær ecke aptur skilad þeim sama er nockur hefur Oriett tilgiørt / þa er ecke añad Raad / eñ ad giefa svo miked Fatækum/ sem eiñ meinar sig/epter smasmuglegt Rañsak Samvitsku skillar/ad hafa med Oriette teked. Sijdsst og eingeñ vid þad ad Syndeñ verdur ecke tilgiefeñ / nema aptur sie golldeд hid Rangfeingna / Þvi svo seger DRotteñ fyrer Muñ Ezechielis / Cap. 33. Ef hiñ Ogudlege giefur Panteñ aptur / og lætur Raaned af Hende/ og geingur epter Lijfsens Bodorde / og giører ecker Oriettvijſt / þa skal hañ lifa og ecke deya:

X Med

Med Þessum Skilmaalum hefur Gud Syndaranum Vægdeñe heited / eñ añars ecke; Hier um̃ hefur Augustinus Læredader vel talad i einum Stad. Ef ad añars Fe (af hveriu Syndeñ kiemur) kañ aptur ad giallda st / eñ verdur Þo ecke golldet / Þa er Þad ecke søñ Ydran / helldur Læte hefiar / Syndeñ verdur ecke fyrergiefeñ / ef ei er aptur fært Þad burt var teked. Oñur er Þeirra Afbøtun er segia / ad ei meige Þr aptur-læka / Þad Þr med Raungu teked hafa / søkū Ovirdingar Þeirrar / er af Þvi fylger / og ad Fiærhluter sieu miña verder eñ gott Mañ-Ord / eñ Þesse er og svo nærsta Ogylld. Fyrst er Þad / ad slijkt verdur alldrei af nockrum Ærlegum nie Gudhræddum Mañe misvyrdt / eñ Doom-hiña Ormdvøndu maa sa ad litlu hafa / sm̃ ætlar sier Guds Barn ad verda / hañ maa segia med Paale / Þad er mier fyrer miñstu / ad eg af ydur dæmdur verde / edur af Mañlegum Dege / DRottеñ er sa sem dæmer mig / 1. Cor. 4. Þar ad Auke / eru svo marger Veger til ad bæta Þeim er Raungindeñ lided hafa / svo ei verde Þ Neytrum kuñugt &c. Og hvern-eg sem Þssu er vared / Þa er betra ad missa Virdingu sijna hier i Tijmanum / helldur eñ Eilijflega. Þegar DRottеñ rak ut Seliendur og Kaupendur ut Musterenu i fyrra Siñe / Joh. 2. Þa giørde hañ Svipur af Streingium / er hñ brukade til Þessa Vandlætis; Nu hañ vantar eñ nu ecke Svipur til ad reka ut Þa er med svoddañ Nætte kaupa og selia i hañs Kyrkiu medal vor: Þar er Svipa Løgmaalsins er seger: Þu skallt ecke stela / a hefie er eiñ Hnutur rideñ med Þssum Nætte / Bølvadur sie sa ed ecke helldur allt Þad i Løgmaalenu ritad stendur / Devt. 27. Þar er ein Svipa jafnvel i Evangelio / er slær med Þssu Høgge / giøred Ydran / Þvi Guds Rijke er nælægt / hvert Þad Trie sm̃ ecke ber goodañ Avoxt / skal upphøggvast og i Elld kastast / Matth. 3. Þar er hin skarpa Svipa hñs Hegningar / sem er tilbueñ Þeim ed eria a Hrygg hins Vesæla og Naudstadda / og eta Rannglætesins Braud i hañs Sveita. Eg sege eñ Þa aptur / DRottеñ rak ut ur Musterenu Þa er selldu og keiptu: Þad var Stundlegt Vandlæte / margur af Þm̃ sømu mun sijdañ hafa a hñ truad sier til Myskunar / eñ ad vera utrekeñ ur Þeirre Himneskju Jerusalem / Þad er eitt Straff øllu Þyngra / Þad er eilijf Smaan / og

Obætañ.

Obætanlegur Skade/ Fra hveriu oss & alla Christna Menn vardveite hinn goode Gud fyrer Sonarens Forþienustu / og giefe oss svo ad rækia þetta Jardneska/ ad vier ecke afrækium þad Himneska/ helldur stundum epter hinu gooda Hlutskiptenu / sem eingenn maa af oss taka/ þess giefe oss niootande ad verda hinn Myskunsame Gud/ Fyrer JEsum Christum / A M E N.

# Elleþta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Luc. 18. Cap.

A þeim Døgum. JEsus sagde til nockra þeirra sm̃ treistu uppa sialfa sig / lyka sem mundu þeir Rietlaater vera og forsmaadu adra þessa Epterlyking. Tveir Menn geingu upp i Mustered ad bidiast fyrer / eirn var Pharisæus / enn Annar Thollheimtumadur. Phariseæaren stood og badst nu þanenn fyrer med sialfum sier. Gud/ eg þacka þier / þad eg em eige so sem ader Menn/Ræningiar/Oriettvysser / Hoordoms Menn / eda so sem þesse Tollheimtumadur / Eg fasta tvisvar i Viku / & eg gief Tyunder af øllu þvi eg a. Og Tollheimtumadurenn stood langt i burtu fraa / & villde ecke upplypta synum Augum til Himens / helldur barde hann sier a Brioost / & sagde : Gud / vertu mier Syndugum lyknsamur. Sannlega sege eg ydur : þesse foor Riettlatur framar hinum i sitt Hus. Þviad hvør sa sem sig sialfann upphefur / hann skal nidurlægiast. Og hvør sem sig sialfann nidurlæger / hann mun upphafenn verda.

# Exordium.

EIngenn Hlutur er svo vidurstyggelegur i Guds Auglite / svo sem Drambláatt Hiarta / og eingenn svo þægur hønum / svo sem Audmiuktur Ande. Drambsamlaatum hratt hann af Stoole / enn upphoof Lytelaata / seiger Guds Mooder i Lofkvædenu / Luc. 1. Gude alleina tilheyrer Tignenn / hann hefur sinn Stool a Himnum settann / enn Jørdenn er hans Footskør / þar situr hann uppe / og sier a þad Laaga / Jehova er hans Helte / og syna Dyrd vill hann eingum giefa / Esa. 42. Allt hvad Dyrduglegt er / hvad Gott er / hvad ægiætt er / hvad Prydelegt er / hvad Heilagt er / þad kiemur allt fraa hønum / enn ville nockur tileinka sialfum sier nockud af þessu / svo sem sialfum sier / þad er / sem villde hann ræna Gud sinu / þad er riett ad stela helgum Doomum / og þad er Afgudadyrkan / þvi valla veit eg hvert þad er meire Synd i Guds Auglite / ed falla fram fyrer Tre-Stobbanum/

anum / helldur eñ ad giøra sialfañ sig ad Gude / og seigia med Pharao : Hvør er Jehova / þad eg skule Ottast hañ ? Exod. 5. Edur med hinum Blindu Judum : Gude skeitum vier ecke / og hvad villde oss Konungureñ giøra ? Meñ hallda sumer / ad þad hafe vered Svyvirding Foreydsluñar / sem DRotteñ talar um̃ / Matth. 24. Ad Bylæte hins Romversska Keysara hafe sett vered iñ i Jerusalems Mustere / Eñ þad er Svyvirding Foreidsluñar riett køllud / þegar Madureñ setur sitt eiged Bylæte iñ i Guds Kyrkiu / sem ætte ad vera hañs Hiarta / eins og Phariseus þesse : Svoddañ Mañe er Gløtuneñ buveñ / nema hañ audmyke sig bradlega under volldugra Guds Hønd / þvi Gud mootstendur Dramblatum / og þarf sa ecke ad vænta sier añars verra / sem hefur Konung Himnaña fyrer Ovin. DRotteñ talade Epterlykingu þessa / seiger Lucas / til nockurra þeirra / er treystu a sialfa sig / eñ forsmadu adra : Svo sem eckert er Vidurstyggelegra i Guds Auglite / eñ Hofmoodureñ / svo er hønum valla nockurt fegra / eñ audmiukur Ande / þad syna oss Dæme Ephraims / Dæme Manassis / og ecke sydst Davids Konungs / alltyda i hañs Psalma Book. Eg jatade DRottne Synd myna og þa fyrergafstu mier þad / seiger hañ / Ps. 32. Og eñ aptur / DRotteñ vardveiter Litilmagnana / eg audmykte mig / og þa vard eg frelsadur : Og þad syner oss Dæme Tollheimtu Mañsins / hvers Lausnareñ syñest framsetta hier i Epterlykinguñe / øllum Sorgbitnum Afbrota-Møñum til Huggunar. Villium vier þvi tvent af Gudspiallet nu Hugleida. 1. Eirn Skynhelgañ Hræsnara. 2. Eirn Ydrande Syndara. Styrk oss hier til DRotteñ miñ i JEsu Nafne / AMEN.

## Utleggingeñ.

JNNgaungur til þessa Mals hiar Gudspiallamañenum / er þañveg. Eñ Nañ TAlade Til NOckurra / Er TREJstu Vppa SJalfa Sig / Ad ÞEir VAru RJEttlater / Eñ FORsmadu ADra ÞEssa EPTErlyking. An alls Efa eru hier med Phariseæi meinter / þar fyrer setur DRotteñ eiñ Phariseañ i Epterlykinguñe / svo sem Dæme eins Sialfbyrgings / er ei þyrfte myked af Gude ad þyggia / Þess vegna eru þeir i Grein þessare med sijnum eigeñ Lit afmaalader / Þeir villdu vera fraaskilder ødrum Møñum / þad syner þeirra Nafn / Phariseus / þad merker Adgreindañ edur Fraaskileñ. J mørgu var þetta foolged / sem ecke er Naudsynlegt hier uppa ad telia / eñ þo var þad hellsta / ad þeir þottust ødruñ Heilagre / þ dylur ecke þesse þeirra Brooder / er hañ seger : EG ÞAcka ÞJer GUd / Ad Eg Em Ecke EJns Og ADrer MEñ / þvi kølludu þeir Almugañ Jardareñar Foolk / eñ sialfer þottust þeir Himnesker vera / og Borgarmeñ Heilagra / svo sem Paulus nefner christna Meñ :

Edur

Edur hvad var pad þeir søgdu i Radenu Fordum/ þegar Nicodemus villde hafa mællt Frelsaranum Lidsyrder/ Joh. 7. Truer nockur af Nefdingiunum a hann/edur af Phariseis ? Enn þetta Foolk/sem ecke veit Løgmaaled / þad er bølvad. Þeir villdu ecke Samneike eiga med Tollheimtumøñum og Syndurum/þvi løstudu þeir Frelsarann/ ad hann giørde svo / Matth. 9. Ja/ þeir meinkuad þeir saurgudust/ er snertu þa. Svo sagde Hræsnarenn Simon Fordum / þegar hin Bersynduga sat Grratande vid Fætur DRottens / Luc. 7. Ef þesse være Spamadur þa munde hann vita hver og hvilijk ad þesse være/er hann snerter! Þvi hun er syndug. Um þvilijka Drambseme / þvilijka Skynhelge talar Esajas under svoddann Manna Persoonu / Cap. 65. Kom ecke nærre mier / og snert mig ecke / þvi eg em þier Heilagre. O minn JEsu/ Er ecke þetta ad giøra sig Gudelijkann/nærre hverium eckert saurugt ma koma. Ecke breytter þu svo/DRottenn minn/þegar þu ædst og dreckst med Tollheimtumøñum og Syndugum i Huse Matthæi/ Matth. 9. Þegar þu giører hann jafnvel ad þijnum Lærisvein / þegar þu mællter ad Fyrrabragde til Dagverdar af Zachæo / þegar aller Tollheimtumenn og Bersynduger flyckiast ad þier/ til ad heyra þig / og þu mæter lijda Brixl Phariseana þar fyrer/ Luc. 15. Þu varst GudsMynd/ sem er eitt forterande Elldur/Deut. 4. Þo hiellstu þad ei fyrer Ran/ ad þu Gude Jafn varst / helldur Lytelæckader sialfann þig / tookst a þig Þræls Mynd / vordenn Møñum lijkur / Philipp. 2. TVeir Menn GEINgu Upp i Musteried Ad BIDiast FYRer / EInn VAr PHARIsæus / Enn Annar TOLLheimtumadur. Vier vitum fyrst Hugleida Pharisearans Bæn / Af þvi hann þoocktest vera Madurenn meire / og hvad hann talde sier til Gylldes fyrer Gude. HANN STood UP Af FYRer Sig : Þess var og øll Von / ad hann munde vilia ødrum frasneiddur vera i þessu/ sem øllu ødru. Hverneg bad hann þa fyrer ? GUD þAcka þIer GUD / Ad Eg Em Ecke EIns Og Ader Menn. Hvilijkur var hann þa ? Ad vijsu betre mørgum ødrum i Utvortis Lijfernis Hættum / Enn hid Innra mørgum verre i Guds Auglite. Þad sanna eg med Ordum Frelsarans / Er hann sagde i

 Matth.

Matth. 21. Tollheimtumenn og Skiækiur munu fyrr Inngánga i Guds Ryke enn þier / þvi Johannes kom til ydar med Veg Riettlætesins / og þier trudud honum ecke / Enn Tollheimtumenn og Skiækiur trudu honum. Þetta er Dagsanna/ þvi Tollheimtumønnum sagde Johannes/ Luc. 3. Er þeir komu til hans Skyrnar : Taked eckert framar enn þad sem boded er/ Enn vid Pharisæos sagde hann : Þier Nødru Kyn / hver hefur synt ydur ad umflya tilkomande Reide ? Fyrer þvi/ Giøred verduga Avøxtu Ydranenne/ Matth. 3. Enn þad giørdu fæster af þm/ svo var Hug-þoottenn ryckur i Giede þeirra. Hvad er nu framar? Hann segest ecke vera eins og RÆNingiar : Ecke talar Frelsarenn umm einn / helldur enn annann i þessu Maale / helldur er einn settur til Dæmis fyrer marga/ svo sem i hverre annare Epterlykingu / Munu þvi aller hafa eitt Oskiled Maal af þessum Flocke Enn hvad er þad þa/ sm Frelsarenn seiger/ Matth. 23. Ad þeir utsiuge Hus Eckna og Fodurlausra/ under Hilmingu langra Bæna ? Er þ ecke hid versta Rann ? Hvad er þ hann aptur seger : Ad hid Innra hia þm sie allt fullt af Ranne og Ohoofe ? Verda mæ ad sumer af þm hafe ei vered svo miøg seker i þessu/ enn fæer af þeim munu hafa skyrst vid ad seigia Naudstøddum Forelldrum/ þ er Corban/ edur Gaafa sm eg kynne ad hiaalpa þier med/ Marc. 7. Eins og ad hønu / sem eingu vill seigia til ef hn hungrar hafe þægare vered Gaafa tra / helldur enn Hlydne hans Bodords / ad heidra Fødur og Moodur. Hann seigest ecke vera eins og ORIETE Vysser/þad kann ad vera/ Enn hvorsu Riettvysser voru þr / þa er þeir fordæmdu Guds Son aller/ afslyfudu Herkoga Dyrdarennar / þegar þr grytttu Stephanum i Hel / Act. 7. og villdu Paal hafa af Døgum raaded. Ecke seigest hann vera eins og HOORdooms Menn. Verda mæ ad hann hafe i Verknadenum saklaus vered / Enn mun hann alldrei hafa lited eina Konu til ad gyrnast hana ? Matth. 5. Edur hvad var þad/ad þr skømmudust syn/ og geingu i burtu/ þegar DRottenn afleyste Hoor-Konuna i Musterenu/ z sagde vid þa : Hver ydar sm er æn Syndar / hann kaste fyrstur Steine a hana/ Joh. 8. Þesse Oflæt-ungur sagdest ecke vera svo sem TOLLheimtumadur ÞEsse / þad er

satt

satt/ þvi miklu var hñ verre ad Doome sialfs Guds Sonar/ sem sijdar mun sagt verda: Tollheimtumeñ voru halldner hid versta Foolk med-al Gydinga/ og ecke munu þeir Raadvander vered hafa / þvi DRottenn teku þa samañ vid Heidingia/ Eñ allðrei var þm̃ um̃ þad kieñt / ad þeir færu i kring Land og Sioo/ og giørdu eiñ ad Gydinge / eñ sijdañ ad Helvijtis Barne / ei helldur ad þr bøñudu Møñunum iñ i Himna-Rijke/ Matth. 23. Nu þoott ad allt þad hefde satt vered ; sem Phari-sæus þsse talde til Gilldis sier/ þa var þo eiñ Løsturen/ e spillte øllum Kostunum / þad var Drambsemeñ og Sialfhælneñ i Guds Auglite / Svo hafde hun blindad þeña vijsa Mañ / ad hun hafde giørt hañ ad Ovita / og lijkañ Smaa-Børnunum / hver ed plaga ad rijfa þad i sundur er þeim vænt um þyker/ þvi viliom vier nu skoda i hverio hm̃ ærsalt vered hafe. Hañ þoottest vera Løgspakur / treistande þvi ad hañ være Leidtoge Blindra / og Lioos þeim sem i Myrkrunum eru/. Typtunar Madur Fasfroodra/Læremeistare Heimskra/ hafande Form Skynsemeñar og Sañleikans i Løgmaalenu/ og kiende svo ødrum/ eñ sialfum sier kiende hañ ecke / þvi hañ vantade þad sem mest a reid i Undirbuninge Riettlætingareñar/ sem var ad þeckia Gud og sialfañ sig. Ecke þeckte hañ Gud/ þvi audsært er/ ad hañ ætlad hefur/ ad hñ munde ænægdur vera med hina utvortis Helge / Føstur og Tijunda giorder/ Eñ þad þeckte hañ ecke ad Gud rañsakar Hiartad / Ps. 7. Ecke helldur þad hañ hefur allt under Ohlijdneñe inneluckt (þad er under Þeckingu Syndareñar) svo ad hañ Miskunade øllum/Rom. 11. Og ad hñ finnur jafnvel Brest hia Einglum sijnū/Iob. 4. Sialfañ sig þeckte hañ ecke/þvi jafnvel þoott hañ være froodur i Ritningune/ þa hafde hañ gleymt þessum Ordskvid Salomonis/ er ritadur stendur i 21. Capit. Mañenū þykia sijner Veger riettler/ eñ DRotteñ veg ur Hiartad. Edur þess ed David seger : Ad fyrer Gude sie eingeñ Mañ a Riettlaatur/aller sieu þeir af-fallner/þar sie eingeñ sa sem gott giøre/ og ecke eiñ/ Rom. 3. Mun þesse Hræsnare hafa þoockst vera undañskileñ þessū Davids Doome ? Hañ var frañskileñ ødrū Møñum til ad æfa sig i Løgmaalsens Skilninge/ og þess Utskijringu/Eñ mieg

svo

ſvo vard hønum ꝛc i þvi / ad hañ hlioop yfer þeſſar Greiner / og ad var miklu fleire i Gamla Teſtamentiſins Bookum / er Sakfella allt añ Neimeñ fyrer Gude / Rom. 3. Og þar ad Auke forſmaade hañ / ja / hañ fordæmde ſiñ Naunga. EDur Svo Sem þEſſe TOLL NEJMTB Madur / ſeger Nrœſnareñ : H Erra Gud / Hvad munde hiñ gamle Paall hafa ſagt / hefde hañ þetta heyrt / munde hañ ecke hafa broteſt ut med þeſſum Ordum / Rom. 2. Meinar þu / O Madur / er dæmer þa er þvilijkt giøra og giører þ þo / ad þu muner Guds Doom umflija / J þvi þu añañ dæmer / þa fordæmer þu ſialfañ þig / Hver ert þu ſom añarlegañ Þioon dæmer / hañ ſtendur og fellur ſijnū Herra ? EG FASTa TBJSvar J BJKu ſeger Phariſæus þſſe. Ecke hafde Gud boded þad ad ſoñu ; Eiñ Foſtudag hafde Gud boded a Aare i Logmaalenu / þad var hiñ Tijunde Dagur hins Siøunda Manadar / þo kuña Meñ ecke ad neita þvi / ad þetta var vel giørt / hefde þad framkomed af Truñe / þvi Faſtañ er Gude kiær / og mꝛ miked hiꝛ hønum / Þvi ſagde Frelſareñ : Þetta Diøfla Kyn verdur ecke utreked / nema med Føſtu og Bænahallde / og hiꝛ Zachariam / Cap. 8. Er gieted um Føſtu a hinum Fioorda / a hinum Fimta / Siøunda og Tijunda Manade / ſem DRottiñ ſpaer ad ſkule umbreytaſt i Gladværdar Hatijder / eñ þo bijdur hañ þar jafnframt / ad þeir ſkule Sañleikañ og Fridañ elſka / Þvi ſeger hañ hiꝛ Eſajam / Cap. 58. Hver ad ſie ſu Faſtañ ſem hañ utvelur / ſem er / ad Meñ uthlute hinum Hungrada Braude ſijnu / og leide hina Fatæku / ſem utrekner eru / i Hus ſitt / ad Meñ klæde hiñ Nakta / þa Meñ ſiꝛ hañ / og byrge ſig ecke fyrer Hollde ſijnu : Eñ hvert ad Phariſæi edur þeirra Lijkar hafa giætt þeſſa / þad ſijner Vitnisburdur Chriſti / er hañ ſeger / ad þeir utſiuge Hus Eckna og Fødurlauſra / Matth. 23. Hañ ſeger: Eg GJEllð TJBNDer Af Ollu þBi Eg A. Ei hafde DRottiñ helldur þetta boded i Logmaalenu / Hañ baud ad giallda Tijunder af Korne / Vijne og Vidſmiøre / af Nautum / Saudum / og Eplum / Devt. 12. Eñ ecke af ødru þvi ed Ox i Alldengørdum / Þetta var þo i ſialfu ſier vel giørt / ad þeir Tijundudu allt hvad þeir attu / hefdu

þeir

þr ecke viliad reikna til Skulldar hiaa Gude þar fyrer/ Eñ þegar fara a betur eñ vel / þa fer verr eñ illa / seger Malkæked/ þvi seger Freisarenñ/Matth.23. Vei ydur Skrifftlærdum og Phariseis/hier Hræsnarar/ sem Tiunded minku/ Anis og Cumen / eñ undanfelled þad sem þyngra er i Løgmaalenu / Truna/ Doomeñ og Myskunsemena / þetta byriar ad giøra / eñ hitt ecke epter ad skilia / Vakte þeir sig / hverra Gudhrædsla ad er alleina þar i foolgeñ / ad ganga i Kyrkiu / ad tala margt um̃ Gud/og hñs Ord/ og Christelegar Dygder / eñ under Skyne þessu fremia þeir a moote Samvitskuñe og Ydrunarlaust marga þa Hlute/ sm̃ Gud bañad hefur. Eñ lærũ nu af þessũ Sialfbyrging / Christner Meñ/ ad þegar vier giørum vort Ydrunar Verk/ þa berum oss ecke samañ vid adra/sem oss verre þykia / epter vorum Doome/þvi hver eiñ mun siña Byrde bera / seger Postuleñ : Munu nockud añars Glæper þvo miña af/edur Ranglæte hañs riettlæta mig/þott eg ecke være svo mørgum Lytum hladeñ ? Fiærre sie þvi / og allra sijdst ef eg forsmaade hañ hiaa mier / þvi Maltkugur er Gud ad reisa hañ / þ er eins og ad skoda sig i Ohreinum Speigle/ ad vilia sina Mynd sitña Afhafna i añara Giørdum/ Guds Ord og hañs Løgmaal eru su Skuggsiaa/er vier eigum ad skoda oss i / þad er Lioos a vorũ Vegũ / og Lampe Fota vorra. Þess er og ad giæta/Børn miñ/ad ef þesse Madur var fordæmdur vegna þess/ ad hañ hroosade sier af Goodverkũ siñũ/ hvad mun þa um̃ hina verda/sem hroosa sier af Klækiunum/og þyker vænt um̃ þa/ Ef hiñ Riettlaate verdur naumast Saaluhoolpeñ/ hvar mun þa hiñ Ogudlege og Syndareñ byrtast/seger Petur/1.Pet.4. Þar eru ecke marger / sem gieta stært sig af miklum Føstum og Bindinde / hiner eru fleire / sem gledia sig i Ofaate og Ofdryckiu siñe / edur ad miñsta Koste þyker þad lijtil Synd vera/ jafnvel þoott Paulus sege / ad þeir ed slijkt adhafast erfe ecke Guds Rijke / 1. Cor. 6. Ecke ætla eg Meñ þurfe ad hroosa sier miøg af Tiundargiørdum i Lande voru/ langtum helldur er þad førullt sumum Møñum / ad svykia Gud og hañs Volada/og Konungeñ/svo vel sem Guds og hañs Þienara/med rangre Tiund / Og þykest sia goodu bætlur/sem hvad mestu gietur

undañskoted/ Jafnvel þoott valla sie meire Bølvan vid nockra Synd løgd i Guds Løgmaale/ eñ vid þessa/ Eg vil ei fa mier til Orda hvad margur Dære ad hroosar sier af þvi/ ad hañ hafe Fefleett añañ/ edur uñed Sigur a hønum med raungũ Doome / Laga-Flækium / og følskũ Riettargænge/ hvilijker Snøpar eru fleire eñ telia meige/ um̃ hveria David sijnest talad hafa / er hañ seger / Ps. 52. Hvad stærer þu þig af Illsku þiñe/sem Megtugur ert i Ranglætenu. Ei vil eg helldur margt tala um̃ þa Gærunga / er stæra sig af Lauslæte sijnu / þad er/ hroosa Synd siñe eins og Sodoma / Esa.3. Og jafnvel liuga a sig Skømmuñũ til ad vanvirda adra/ hafe Phariseiñ giørt øll sijn Good-Verk Ogylld med Hroosenu / þa vite þesser Gudlausu Meñ / ad fra Fordæming er vijs / nema þeir ydrest af Hiorta / og ad Ydraneñ verde þeim svo beisk / sem̃ ædur var þeim Syndeñ skemteleg. Þyfest nu nockur vera sekur i þessu/ og vill þad Ofgiørt hafa/ hañ lære sañañ Veg Ydranareñar af Tollheimtumañenũ/ og gange hñ / ef hñ vill hoolpeñ verda / Og vil eg svo nockud þar um̃ tala i hiñe sijdare Greineñe.

Þesse Tollheimtumadur gieck i Musterid/svo sem̃ Textiñ vottar / ecke fyrer Sida Saker / ecke til ad laata skoda sig edur skoda adra / nie ad sijna þar Fordillo sijna i Klædaburde/svo sem kañ skie nockrer giøra niedal vor/ Ecke er þad alltijd Gude edur Helgeñe til Virdingar giørt/ ad Meñ bua sig hvad mest i Skart a þeim Døgum/ edur til ad miña oss a þad / ad vier eigum ad klædast einum nyiũ Mañe. Hvert var hañs Eyrende þa? TJl Ad BJDiast FYRer/seger Textiñ: Ecke eins og Phariseiñ/til ad hroosa sier i Bæneñe/þad sijna oss Ord hñs og Atvik/sem hier uppteiknud standa: Hañ hefur adgiætt Løgmaals Toblurnar/ sem hiengu i Musterenu/ og yfervegad þær ødruvijsse eñ Skriftlærder og Pharisæi/sem hiengu i Bookstafnum/og løgdu hañ ut epter eigeñ Þootta sijnum/þar fyrer Onijttu þeir Løgmaaled fyrer Setninga sijna/svo sem DRottiñ seger. Spaameñerner voru lesner hvern Sabbatsdag i Musterenu/ svo sem Paulus vottar/er hñ flutte Guds Eyrende til þeirra i Antiochia/Act.13. Þar hefur hñ mætt heyra Utskijringu Løgmaalsens ad miklu Leite / og er hañ þar af

herlega

berlega sied hefur/ ad Gud fordæmer Okur/ Rænginde/ Underferle/ Rængsleitne/ Gripdeillder/ Hardydge og Myskunarleyse/ og hafi visse sig i ollu þessu sekafi / þa hefur honum Ofboded Skard Syndafia / og Guds Heypkar Reide/ jæ / honum hefur Ognad hvad morg volud Sæl ad munde hroopa i Himenefi yfer sier/ og Ottast ad þeirra Hroop munde iñgeinged vera i Eyru DRottens Zebaoth/ þesse þunga Byrde hefur a hafis Hiarta leiged/ sm er Brufiur allrar Illsku og Ogudlegs Athæfes / Matth. 15. Þvi ber hafi sier a Brioost / svo sem villde hafi þad straffad hafa/ sem mest hafde tilufied / og mest klagade sijna eigefi Vondsku / med Slogum og Bite Samvitskufiar: Illa var vared þessum Vesælinge i sialfum sier / Efi Gud giæfe ad vier sm betre þyk tumst/ ad vier / sege eg / geingium med sama Hiartalage i Guds Hus / og sætum under hafis Orda Heyrn eins og hafi / þa mundum vier ecke svo kallder vera i voru Ydrunar Verke / svo sem berlega nu sia ad margur er. HAfi STood LANgt FRæ / seger Texten : an Efa þess vegna / ad hafi hefur reiknad sig verre efi adra Mefi / og Overdugafi ad koma nærre þessum heilaga Pharisæo / hafi hefur skolfed af Kvijda vid Guds Reide / er hafi hugleidde sifi Overdugleik / og hafis Logmæls straungu Hootaner / Ecke sijdur efi Israel þegar ad dunade i Horeb/nær hid sama Logmæl var utgiefed/ Exod. 19. Hvad giora þeir þa/sem jafnvel i Guds Huse kieppast epter hinum fremstu Sætum/og utvelia sier þau/ efi þott ei rijde svo miog a þessu utvortis Hæstalage/ þa giætum þess/ ad i Kyrkiufie byrtumst aller vier fyrer Guds Auglite/ þar er sæ mestur Madurefi / sem mifistur er i sijnum Hæanka/sa er best buefi/sm sundur-rijfur Hiarta sitt med Tollheimtu-Mafienum/Efi eingefi er svo heilagur/ad ecke skilie hfis Synder mille Guds og hafis / ef hafi vill þær tilreikna/ og hversu eigum vier þa ad audmykia oss under Vollduga Guds Hond/ nær vier Iñgaungu i hafis Helgedoom / til ad Fridmælast vid hafis Guddoomlegu Hætign / fyrer hverre oll Verolldefi leikur a Reideskiælfe: efi vier erū Dupt og Aska/ og hvad meira er / aller svo sem hifi Ohreine / og jafnvel Riettlæte vort svo sem nidlags Fat / Svo ad allt Holdded er siukt / allt Hofuded

veikt/ Frm. Qvirkle/ og allt til Ilia/ Er þar ecke nema Saar/ Kaun/ Beniar og Proke/ Og þessa vora Sinkdoma hefur Guds Sonur bored/ þessum Orkumlum hefur hann a sig hladed/ svo ad vier fyrer hans Beniar Heilbrigder vrdum/ Esa. 53. Enn vier høfum lated oss þad lysted til Hiarta ganga/ Ecke hafa þeir Naglarner er i giegnum groofu hans Hendur og Fætur/ Ecke hafa þeir enn nu til Fulls Krossfest hinn gamla Adam i oss/ og ecke su Lensan/ er opnade hans Sijdu/ vid Hiarta vort svo miøg snorted/ ad vier høfum læted Porten vijdopenn þ Konunge Dijrdarennar/ þegar sa Drottnarenn hefur vikiad sijns Musterls/ miklu helldur hefur opklega vid þvi leiged/ ad vier mundum Hertoga Dijrdarennar ad nyiu Krossfesta. Æ minn Gud/ Æ minn Frelsare/ Hver af oss er þa svo Heilagur/ svo Fullnoogur sialfum sier/ ad ei skyllde hann berta sier a Brioost med Tollheimtu Manne þessum/ og segia: GUD VERtu MIer SYNDugum LIKNsamur/ og med hinum tapada Syne/ Fader/ Eg hefe syndgast i Himinenn og fyrer þier? Nu/ þott ad Vesælingur þesse være svo lytt staddur/ þa ørvænter hann ecke: Ei griipur hann til Knijffsens/ eins og Saul til Sverdsens/ Ecke til Snørunnar med Juda/ og ecke ofbiooda hønum svo miøg Syndernar/ ad hann ørvænte sier Guds Myskunar: Ad vijsu skammadest hann sijn ad lyta Augum sijnum til Himens/ þvi hann hafde styggt þann svo Mookþrooanliga/ sem i Himnenum byr/ enn þo rædur hann þ af/ ad leita Liknar hia hønum/ af hvers Giæsku ad øll Jørdenn full er/ og meinar sig vesælann Orm ecke frasskilenn vera eins og Pharisæinn ødrum Mønnum. Giør hid sama/ Barn mitt/ nær þier med David ofbiooda Synder þijnar/ svo þu hefur ecke Frid i Beinum þijnum fyrer þeim/ þa vit þo þad og treyst þvi/ ad Syndenn kann allorei ad vera svo stoor i Illskunne/ ad Gud sie ei meire i Giæskunne/ þad vottar Johannes/ er hann seger/ 1. Joh. 3. Ef vort Hiarta fordæmer oss/ þa er þo Gud meire Hiarta voru/ z Paulus hefur oss epterlæted eina dijrmæta Huggun/ dijrmætare enn Verølldenn er/ þar hann seger/ Rom. 5. Hvar sem ad Syndenn yfergnæfer/ þar yfergnæfer þo Nadenn myklu framar. Christur er Forlijkun fyrer allar Verølldarennar Synder/ þvi mun hann

ecke

ecke og svo vera fyrer þijnar/nema þu sierk fyrer utan Verølldena? J hønum hefur Faderenn alleina Velþocknan. Ef Paulus þorde ad segia vid Philemonem umm Onesimum / hafe hann þier nockurn Skada giørt/ edur sie þier skylldugur/ þa reikna mier þad til / Eg Pæll hefe skrifad þad med minne Hende / eg skal betala. Hvad miklu meire Rett hefur Guds Sonur til ad tala þannig oss til Fridar vid sinn himneska Fødur/ Jæ/ vid sialfann sig / ad hønum skule tilreiknast sa Skadenn / sem vier høfum giørt. Su Skulldenn er vier luka ættum/ þu minn Herra/ þu hefur neglt þa Handskriftena a Krossenn/ sem mootе oss var/ Col. 2. Hver vill þa æklaga Guds Utvallda/ þu ert sa sm dæmenn er/ Rom. 8. Þu hefur eina Kvittan giefed i Umbode allrar Guddomsins Þrenningar/ er svo hlioodar: Hver sem truer a Sonenn/ hann kiemur ecke til Domsins/ Joh. 3. Jæ/ sendt oss eitt Aflæt med Þienara þijnum Paulo / skrifad med Guds Fijngre/ sem er Heilagur Ande / ad eingenn Fordæming sie hiæ þeim/ sm eru i Christo Jesu/ Rom. 8. Þu hefur betalad þ þu ræntер ecke/ Ps. 69. Þvi skyllde þa einn Rænemadur kręfiа fyrer þeim Betaling / sem þu hefur loked? Þvi mun eg þa mistreysta Gude? Er hann ecke Trufastur? Kunna hans Ord ad forganga/ þoott Himen og Jørd forgange? Hønum sie Dijrd og Heidur umm Allder/ Amen. Nu hafed þier heyrt af Tollheimtumanenum hinn rietta Veg Apturhvarfsins fra Vondskunne / hver sem hann geingur / sa mun med hønum Riettlætur verda. EG SEige YDur/ Ad Þesse FOOR RJETTlætur FRAMar HJNum J SJtt Hus / seger Frelsarenn i Texkanum: Hver Ord ecke þannveg skiliast eiga / svo sem ad Phariseінn hafe ad sønu Riettlætur heim apтur fared/ enn Tollheimtumadurenn þo Riettlætare/ helldur var sa Munur Riettlætesins/ ad Phariseus þesse var Riettlætur i sijnum Þanka/ og fyrer Mønnum/ umm hvert Riettlæte DRottenn seger/ Matth. 5. Nema ydar Riettlæte yfergnæfe meir enn hinna Skriftlærdu og Phariseanna / þa kuned þier ecke inn ad ganga i Guds Rijke: Enn Tollheimtumadurenn/ sem jætade Synder sijnar/ og afneitade sijnum Verdugleik/ enn betdde umm Myskun/ hann vard Riettlatur fyrer Gude/ med þvi Riettlæte/ s Paul

us seger/ ad sie af Truñe/ og þvi var hañ framar Riettlætur/ ad hañ hafde þad Riettlæte/ sem fyrer Gude gylldte/ eñ hiñ fyrer Mønnunum. Heim APTur i SITT Hus stendur i Textanum : Nockrer meina/ ad hñ hafe yfergiefed Tollheimtuna / þar hañ for ecke til Tollbud-areñar/ helldur heim i sitt Hus: Eñ ecke er þad vyst/ ad hañ hafe láted Syslan sijna/ þess var og ecke Þørf / þvi hun var Riettvys i siálfre sier/ ef þ er Riettvyst fyrer Yfervallded ad taka Skatta og Tolla / svo sem þad i allañ Máta riett er/ þvi Paulus seger/ Rom. 13. Gialld ed øllum hvad þier skyllduger erud/ þeim Toll er Tollur heyrer / þa er þad ecke Orietvyst fyrer Þienara þeirra ad safna Tekiunum : Ecke bañade helldur Johañes þessū Mønum Tollheimtuna/ alleina/ ad ei skylldu þeir taka meir eñ boded være / Luc. 3. Giøre þeir þess/ er slykt Starf a Hende hafa / þvi hvad sem þar er fram yfer/ þad er af hinū Vonda. Eñ hverneg sem þessu er vared/ þa er þad vyst ad Kvittun Syndaña Einusiñe feingeñ / hun er Onyt / nema Syndareñ læte af Illu/og lære Gott ad giøra/ z hier til heyrer þ/ad bæta þad Oriett var giørt / ef bæta má : Hvar um eg hefe nockud talad i tveimur næst þ farande Predikunū/eñ miñest eñ nu a þad hier i þridia siñ/ af þvi/ ad svo miked rydur a þessū Hlut/ þvi sie þ ecke giørt / þa er Ydraneñ alldeilis Onyt. Þad er ei noog/ ad styngá a einu Meine/ nema hiñ vonde Vesse/ sem i þvi er samañdreigeñ/ hñ verde utdreigeñ/ svo er þ ei helldur noog / ad Mønum svyde Einusiñe af Brodde Løgmálsens / nema þvi Illa sie fra sier kastad: Drecke nockur Eytur iñ/ þa er hm einsætt ad æla þvi upp aptur/eñ eingeñ Olifian er so banvæn Kroppnū/ svo s mangfeingner Muner Sáluñe/ þvi er þad Omissande/ ad skilia sig af med þa/mædur eñ þeir sálga heñe i Daudanū/ þegar Meñ skulu þo vid þa skilia / og þeir vid oss hvert sem er / eñ eingeñ veit nær hañ ber ad Dyrū / og hvad hefur þu þa þess Madur / er þu hefur med Ahyggiu og Oriette safnad. DROttiñ miñ/ kieñ þu oss ad hugsa þ vier hlioottū ad deyia/ lát oss ecke deyia med Mammona/ helldur med vorn Frelsara i Hiartanu/gief oss ad hafa Fiesiood a Himnenum safnad / framar eñ i Heimenum/ svo þegar hin Forgeingelega Tialldbud vors Lykama i

sundur

sundur glidnar / ad vier þa hofum svo fyrer oss giort i Tijmanum / ad þeir niedkafe oss i eilijfar Tialldbuder / Bænheyr þad DRotten minn og Gud minn / fyrer JEsu sæta Kvol og Blessadar Vnder / AMEN.

# Toolfta Sunnudag epter Trinitatis.

## Gudspialled / Marc. 7. Cap.

OG þa JEsus gieck i burt aptur ur Landsælfum Tyri og Sidonis / kom hann til Siofarens i Galilæa / i midiar Bygder þeirra Tiju Stadanna. Og þeir leiddu til hans þann Mann / sem Daufur og Mælhalltur var / og bædu ad hann legde Hendur yfer hann. Og hann veik honum afsijdis fra Foolkenu / liet sijna Fingur i hans Eyru / hrækte ut / og ahrærde hans Tungu / leit upp til Himens / andvarpade og sagde til hns: Hephatha / þad er / opna þig. Og jafnsnart upplukust hans Eyru / þa uppleistest og eitnenn Fiøtur hans Tungu / so ad hann talade riett. Og hann skipade ad þeir segdu þad ecke neinum / Enn þvi meir sem hann fyrerbaud þeim þad / þess meir þa vijdfrægdu þeir þad ut / og þa sialfer undrade þetta nærsta miøg / seigiande: Allt giørde hann vel / þviad Daufa lætur hann heyra / og Mallausa tala.

## Exordium.

MARGT er vid mørgu / seiger i fornkvedinum Ordshætte; Þoott ad DRottenn hafe straffad Syndena epter Falled med adskilianlegum Siukdoomum / til ad aga vort glæpfyse Holld / þa hefur þo hans Giæska lagt þa Lykn med Þraut þessare / ad Nattwrann er ryk af þeim Hlutum / sem bætt gieta Mein Manna / þegar þar med er Skynsamlega høndlad / þvi seiger Syrach / Cap. 38. Ad hinn Hærste hafe framleidt Lækniskoomenn af Jørdunne / z umm Lækneren seiger hann i sama Capitula: Heidra þu Læknarann fyrer Naudþurftarennar Saker / þvi DRottenn er hans Høfundur / þvi aller Lækniskoomar koma af hinum Hærsta. Nu misfellur þo þetta a stundum / þvi jafnvel þoott Lækneren kunne margt og miked ad giøra / og hans Verk sie gott / þa er þo ecke Heilsa nie Vanheilinde / Lyf edur Daude i hans Hende / helldur Guds / sem er allra Meina Grædare / og sa DRottenn DRottenn / sem fra Daudum frelsar. Enn Guds Sonur / a sinum Holldsvistar Døgum / hann auglyste þad øllum Heime / ad hann sannur Gud være / med þvi ad hann læknade allrahanda Mein og Krankleika / ecke med Nattwrunnar Medølum / þvi hann var Nattwrunnar Herra / helldur med einu Orde a stundu

um.

um. Kona / mikil er þijn Trwa / sagde hañ vid hina Canaanitsku: Vert Hughraust mijn Dootter / þier eru þijnar Synder fyrergiefnar / vid hina Blodfallsiwku: Far þu / Sonur þiñ lifer / vid Konungs-Mañeñ: Verde þier epter Trw þiñe / vid Hundrads Høfdinglañ: Eg vil / vertu hreiñ / vid hiñ Lijkþraa: Fared og sijned ydur Kieñemøñunum / vid þa Tiju: Og er þesse Dæme nærsta mørg ad lesa i Gudspialls Søgunum. A stundum brwkade hañ nokurskonar Ceremoniur til ad lækna hina Siwku / svo sem hier i Gudspiallenu verdur fraa sagt / hvertar þo ecke munu Forgiefens uppteiknadar / þvi allt hvad skrifad er / þad er skrifad oss til Lærdooms / Rom. 15. Helldur til ad þijda þær uppa vor Andleg Vanheilinde / og þeirra Lækningu: Eñ nu vil eg i þetta Siñ Einungis Hugleida þeña auma Mañ / og svo vort Hættalag i Andlegum Efnum / sem ecke erum betur æ oss komner ad þvi Leite / helldur eñ hañ / margur hver.

Send oss þijna Naad og Adstod til þessa Erendis / vor Gud / fyrer Lausnarans Forþienustu / AMEN.

# Vtleggingen.

OG þEir LEIddu Til HAñs þAñ MAñ Sem DAVFur Og MAAlhalltur Var. þesse Mañeskia hefur þungelega halldeñ vered. þegar David utmaalar Mootgang siñ / þa segest hañ heyra sijna Mootstødu Meñ / svo sem Daufur / og svo sem eiñ Mállepsingur ecke uppliuka Muñe sijnum / Ps. 38. Eins og hefde hañ valla nockurn lakare Kost vid ad jafna. Illa er hinuñ Daufa fared i mørgum Hlutum / Eiñ Daufinge er nærre þvi eins i Verølldiñe / og Vtlægur Madur i framande Lande / hvar hañ einkis Mál skilur / Hañ hefur eckert Gagn edur Skiemtun af þvi ed adrer tala / Varer þeirra sier hañ hrærast ad søñu / eñ þad má vera stoor Hugraun ad sia þad / eñ hafa þess þo eingeñ Not sem Gud hefur gieft til ad vidhallda Selskap Mañaña i Heimenum / Gange nockud ad hønum / þa giefur eingeñ huggad hañ / eñ þo lekur þad yfer / ad þeir ei geta Guds Ord heyrt til Sáluhiálpar sier / þvi fyrer Heyrn Guds Orda kiemur Truuñ seger Postuleñ / eñ áñ heñar er Omøgulegt Gude ad þocknast / Heb. 11. Og hversu er hønuñ þa illa vared fyrer Mañaña Sionum / er hefur Brest a þessu Skilningar Vite. Nu eru þeir þo med tveñu Moote er þeña Skort meiga lijda. Sumum fellur þad til nær þeir komner eru til Vits og Aara / þeir meiga þess Not hafa ad Søñu / er þeir numdu a medañ þeir høfdu Hluster heilar / bæde i Dag-

Daglegre Umgeingne / og hvad mest ærgdur i Verke Sæluhiælpar sinar/og satt er pad/ ad ei glepur fyrer þeim Bulldran Heimsens/ þeir hafa valla ad skemta sier nema vid Gud sin / ef þeir eru Lundlægner þar æ/og bera sin Harm i Hlioode/ Og Reyndar þa er betra Daufur ad vera / en ad heyra margan þan Oþarfa / sem taladur er i Heimenum/fierdeilis skammarleg Ord og fiblslegt Hial/sem Christnum soom er ecke. Adrer eru þeir ed Daufer eru borner/ þvi þar a epter fylger Mælleysed/ hverneg kan sa adnema Mana Mæl/ sem ei giefur heyrt a Tal þeirra / og hafa Menn þess Dæme nockur hiæ oss / pad mæ og marka ad þesse aume Madur sem hier talar um i Gudspiallenu / han hefur æn Efa heyrt einhvern Tijma / þvi jafnvel þoott han Mælhalltur være / þa hefur han þo nockud talad : þessara Kostur synest miklu þijngre ad vera/ en hinna i fliooku Alike/ þvi sa sem Daufur er en hefur þo Mæled / han giefur sagt til þess er han vardar um / og lofad Gud med Tungunne / hafe han nockud af Guds Orde numed / en hin ecke/ þo er þad hier aptur ad segia/ ad eingan langar til þess sem han þecker ecke/svo kan og ei helldur þeim ad leingiast svo miøg epter ad heyra a Tal Manna / sem þad alldrei heyrt hefur. En hvad Sæluaterinnar Efnum vidvijkur / þa hygg eg ad eingenn kunne ad fordæma þessa Guds Vesælinga / ia / kan vera ad þeir sieu miklu nær Guds Rijke en hiner sem eingan Brest hafa a Skilningar Vitunum / en bruka þau Fiandanum til Þioonustu/og Næunganum til Ogagns / Gud er Riettlatur / og þo under eins Myskunsamur / þad er ecke lijkt honum/ Fødur Giæskunnar / ad han mune heimta Reikningskap af þvi Punde / er han ecke feck einum i Hendur / og hver vill efast um Mætt hans edur Vijsdoom/han sem gat læted Johannem fagna Tilkomu sinne i Moodur Lijfe / Luc. 1. Mun han og ecke geta verkad undarlega Hlute i þess Hattar Manneskium/ satt er þad / ad æn Truarennar er Omøgulegt Gude ad þocknast / Heb. 11. En han sem giefur innplantad Truna i Hiørtum Smæbarnanna / mun han ecke med Oranssakanlegum Hætte gieta tilbued hana i þessara Hiørtum ? þad sem ecke er af Trunne þad er Synd / En af Munne Smæbarnanna og Brioostmylkinganna hefur


han

hann sier Lofed tilreidt/ þvi mun hann og ecke geta opnad Skilning þess ara Skiepna sinna / svo þær þecke hann til Myskunar sier? Er nockurt Ord fyrer honum Omættugt / Luc. 1. Kann hann ecke alla Hlute framar ad giøra / enn vier kunnum ad hugsa edur mæla ? Eg vil hier umm segia/ þad sem Christur sagde vid Læresveinana / er þeir søgdu : Hver mun þa hoolpenn verda ? Þad sem Omøgulegt er fyrer Mønnum/ þad er møgulegt fyrer Gude / Matth. 19. Nu søkum þess / ad fyrer hinum Dauffa verdur ecke talad / Gud verdur sialfur fyrer honum ad predika i hans Hiarta/og er einginn slijkur/ þa tala eg þetta til Huggunar þeim sem angrast þar af / ad Børn þeyra edur kiærustu Naungar hafa slijkann Brest / og efast kann skie umm Velferd þeirra / og þar ad auke leida sier i Hug / ad þeyra kome framm vid þa vegna Synda sinna. Til hinns fyrra hefe eg ad nockru Leite Allareidu svarad / enn þo vil eg þessu vid auka sem epterfylger. Gud hefur skapad Afkvæme þitt i Moodur-Lyfe / Job. 10. edur þijns Naunga : Hver hefur Manenum Muninn giefed ? Hvør hefur giørt hinn Mallausa edur Dauffa ? Edur hinn Siaanda / edur Blinda ? hefe eg þad ecke sialfur giørt ? seger DRottenn vid Moysen / Exod. 4. Og fyrst hann hefur þetta sialfur giørt/ Mun þa ecke hann / sem vill ad aller Menn verde Saaluhoolpner / mun hann ecke sia þeim Farborda til Himnarijkis / sem ecke hafa Skulld i þvi / ad þeir gieta ecke Guds Ord heyrt ? HANN SEm GJØrde ALLT Vel / Þvi DAuffa Liet HAnn HEyra Og MAALlausa Tala/ A Døgum Holldsvistar sinnar / mun honum vera aptur fared sijdann hann sestur er til Kraptarens hægre Handar / hann er uppfarenn i Hæderner / og hefur Mønnum Gæfur giefed / Eph. 4. Mun hann þa ecke giefed gieta Barne þijnu Heyrn og Maal / nema ad hann giæfe Saalu þess Heyrn / og giørde þad vel talande fyrer sialfum sier / med þvi Moote sem ecke skilur þu/eda nockur annar? Barn þitt er i Skijrninne innteked i Guds Sattmaala/Hver sem truer og verdur skijrdur/ hann skal hoolpenn verda/seger Christur. Hier stendur/Hver sem truer/ enn ecke hver sem heyrer og talar / Mun hann þa kalla afbrugded Sattmaalanum fyrer þessa Orsok / er Befalingenn sialfur giørde / og giefur þo Truna i

honum

Hönū verkad/ Gud læte oss allrei meir afbregda/ sem Mæl og Neyrn höfum. Seg þvi med David / Eg vil þegia og Munne mijnum ecke uppliuka/af þvi þu giørder þad/og hallt Barn þitt ad vera eitt Lim a Christi Lijkama / Mustere H. Anda / og Erfingia Himnarijkis/ ef eckert aftad i Vege stendur / eñ þesse Brestur / sem Skaparent alleina og eingeñ añar læknad getur : Eñ hvad þvi vidvijkur / ad margur freistast af / ad Vanheilende Barnaña Orsakest af Syndum Forelldraña / Þa verdur þvi ad søñu ecke neitad / ad allt Mootlæte er Verdlaun Syndareñar / Svo sem Daudeñ er/svo er og allur sa Ner/sm̄ under hañ þioonar/eñ þad heiter ecke svo Straff/svo sem Reynsla hia Guds Børnū/hverre Jacob Postule skipar oss ad taka fegens Hende/Jac. 1. Þvi Orsakast þetta ecke af þvi / ad Forelldrar þessarra Vesælinga sieu verre i Guds Auglite eñ adrer Meñ/þar fyrer svarade Endurlausnareñ fordum Læresveinunum/er þeir frietktu hañ ad/hvert þesse hefde syndgad edur hñs Fader: Hverke syndgade þesse nie Fader hañs/ sagde hañ: Helldur svo/ ad Guds Dijrd yrde opeñber /Joh. 9. og vidlijkt skiedur i þessu: Gud setur oss þesse Dæme fyrer Siooner / oss sem hañ gefed hefur heilbrygda Sal i heilum Lijkama / til ad sijna oss hvada Vallð hañ hafe yfer Mañeskiuñe/til þess/ad þacka sier og lofa sig þar fyrer/ad oss og vorū Børnum og Naungum er betur vared i Lijkamans Nattfalage / til ad miña oss þar a/ad ei brukum vier Skilningu vora til þeirra Nuta/sm̄ Gude til Skygdar eru, miklu helldur til Vegsemdar hønū/og Naunganum til þarfa. Eñ Gud næde / ad ut af þessu ber nærsta miøg a stundū / og þad er nu hin Andlega Deyfa/sem miklu hættare / miklu Skadsamlegre / og þo miklu Almeñare/eñ su sm̄ a Lijkamañū er / yfer hverre ad David klagar/er hañ seger / Ps. 58. ad þeir tilbyrge Eyru sijn / eins og Hoggormureñ fyrer Raustu Særinga Mañsins : Margfallt er þetta Heyrnarleyse/ og i mørgu foolged / eñ Rooteñ til alls er þad/ad Meñ Daufheyrast vid Guds Orde/ svo þ fær ecke Rum i þm̄ / helldur eñ Tal Christi i Phariseis. Aller Meñ lasta þa fyrer þta / sem vert er : Eñ þoott ad einge Madur talad hafe / edur eñ nu tale

ſvo ſm̄ hn̄/jafnvel ad Vitne þeirra/ſm̄ voru Vißendarar hn̄s Fiand mana / þa eru þad þo Guds Ord/er hans Þienarar tala i hn̄s Am̄ bode/nær þeir byggia Mal ſitt a Ordum hn̄s Spamana z Poſtula/ yfer hvoria Grundvoll/ ad hn̄s Chriſtne er bygd/ þvi ſvo ſeger Drottẽ en̄ vid Jeremiam/Cap. 1. Eg hefe lagt mijn Ord i þin̄ Mun̄/og vid Eſajan / Cap. 59. Min̄ Ande ſem i þier er/ og mijn Ord/ er eg hefe ſett i þin̄ Mun̄/þau ſkulu ecke ur þijnū Mune vijkia. Nu þoott ad ecke ſie Andans Gafa ſvo rijk hia oſſ / ſem hun var hia Spamonn unū og Poſtulunū / þa eru þ þo Guds Ord/ ſ hn̄s Þienarar tala/nær þ er af þeirra Togariett ſpuned/ z þr tala eckert an Ritningarinnar: Guds Ord elldeſt ecke / þ blijfur Eilijfliega/ ſeger Eſajas/ Cap. 40. Þvi er þad eins gott i Mune hins veſælaſta JEſu Chriſti Þienara/ nær þad er hn̄s Ord / ſvo ſm̄ i Mune Peturs/ edur Pals / þvi vil eg hier um̄ ſegia þad hid ſama/ſm̄ Paulus ſagde vid þa i Teſſalonica/ ad þeir hafe medteked þad Guds Ord/ er þeir heyrdu af honum/ecke ſvo ſ Ord Manana/helldur ſvo ſm̄ þ var/eins z Guds Ord/1. Teſſ. 2. En̄ ef þad Guds er/hvern forſmaed þier þa/ þier hiner Daufu VeralldarSyner/nær þier þ ecke heyra vilied af hn̄s Þienara Mune/ nie lata undervijſa ydur og Bornū ydar i Chriſtendoomenū/ecke lata ſtraffa ydar Synder / og ecke lifa epter þvi / er ydur af Guds Alfu boded verdur. Hvern forſmaed þier þa/ſege eg/Gud edur Mennena? Seger hn̄ ecke/Luc. 10. Hver hn̄ forſmaer ydur/hn̄ forſmaer mig/ hver hn̄ heyrer ydur/hn̄ heyrer mier? Svoddan̄ er rett ſkelfelegt Heyrn arleyſe. Munu þſſe Frelſarans Ord na alleinaſta til Poſtulana/edur þeirra er lifdu a þeim Dogum/og ecke til vor/ſem nu lifum? Mun han̄ ecke hafa lofad ad vera hia oſſ / allt til Veralldarennar Enda? Matth. 28. Hverneg er hn̄ þa hia oſſ? Med ſijnū H. Anda i Ordenu og Sacramentunū. Nu/ ef Menn vilia niota Nalægdar hn̄s! þvi lata Menn þa ſvo tregt vid ad heyra hn̄s Ord? J Ordenu talar Gud vid oſſ/vid hn̄ tolū vier i Bænū vorum/ en̄ ſa ſem ecke vill heyra han̄ Talanda / þan̄ vill han̄ ecke heyra Bidianda/ þvi hver ſem forſmaer mig/þan̄ vil eg forſma/ ſeger hn̄/ 1. Sam. 2. Eg em gladur

af

af þvi/seger David/ ad til myn verdur sagt: Vier skulum ganga i Hus Drottens/Ps.122. Þetta sagde hn/sm i Ritningunne er nefnd ur Madur epter Guds Hiarta. Enn margur Gœrungur/margur Sal tiere/ margur Fepuke/ sem er Madur epter synu Hiarta / han verdur þeirre Stundu fegnastur / ad han þurfe ecke i Guds Hus ad ganga/ edur hans Ord ad heyra / og þoott þeir gange edur heyre/ þa geingur Ordenu eins og Sædenu þvi / er Frelsaren talar um hia Lucam 18. Cap. Hverk ed fiell utan hia Veigenu/ad þad verdur Foolk trodet/ og Fuglar Himensens atu þad/Diofullen tekur þad i burtu ur Hiør tum þra/svo þr ecke trua skule/ og verda holpner. Hvar fyrer? Þvi þeir hyrdtu ecke um ad taka a sig Guds Alvepne / til ad mootstanda Prettu Andskotans/Eph.6. Guds Ord skal til þess hafa/ad vardz veita Guds Ord/ en þeir gleymdu Sverde Andans/sem ad er hid sama Ord/ad þr kynu ad beita þvi fyrer sig/nær Ovinuren ad Garde gieck/ til ad ræna þa Dyrgrip þessum. Oskande være/ad ei hugsudu þeir hid sama/er Judar sogdu Fordum vid Jeremiam: Vier skulum ecke heyra þvi Orde/er þu sagder oss i Nafne DRottens/helldur skulum vier gis ra epter sierhveriu Orde / er framkiemur af vorum Munne / Jer. 44. J svoddan Gyllde er DRottens Ord hia sumum Monnum. Munu þr þa ecke næst a Þyckheyrder vera? Heyr mier þo um Stund/ Barned gott/ Þu ert Oskierkur a Hlustum þynu/og en nu ert þu svo i Dag: Þar fyrer/ i Dag/ i Dag/ ef þu heyrer Roddu hans/þa forherd ecke Hiarta þitt/ Hebr. 3. Seig mier / Hefur þu Bref fra Gude/ ad han lyde þyn Skilningar. Vit til Morguns / meir en þesse Daufe og Mœlhallte Madur. Gud steypte hinne Vantruudu Verolld um Koll i einu. J einu dreckte han Pharao med ollu hns Lide. J einu fargade han Canaanitum fyrer Hond Josua. J einu Augnablike sloo han þa med Blindne / er fœlmudu epter Huse Loths / Gen. 19. J einu Augnablike stack han Augun ut a Elimas / sem mootstod Paulo / er han foor med Christne Boded/ Act.13. Mun han ei kunna ad giora hid sama vid þig / ef þu mootstendur hns Þienurum og villt ei heyra þa/nær þeir tala Guds Ckyrende z ecke sitt? Eda hvad villtu giora / nema

nema þu hafer eitthvad þier til Sälargagns numed af Orde DRottens / ä medan þu hafder Eyrun heil / ef hann kynne ad läta þier tilfalla þvilijkann Brest/eg vil þad i stuttu Maale segia/þu hefder eckert til ad kenna þier ad þeckia Syndena / eckert til ad fä Boot hennar / og eckert til ad hugga þig i þessu Volæde ? Og fyrer þvi / ad þu alldrei hafder smackad hid Gooda Guds Ord / So sem þad er / þa gietur ecke a þier sannast Malshätturenn sä / ad eingenn vite hvad hann ätt hefur fyrr enn hann miste. Einhver vill segia: Eg get lesed Guds Ord þoott ecke heyre eg þad / Þvi er verr / ad þeir eru svo fäer/ sem lesa kunna / ia/ þoott siälfer kunne / þa hyrda sumer ecke umm ad kenna þad Bornunum sijnum / og er þad Gudlaust Rækarleyse/ enn hverneg sem þvi er vared / hvad veistu nema Gud take undereins frä þier Siooneна og Heyrnena/ Og hvar stendur þu þa / Ef þu hefur forsmäd Rijkdoom hans Langlundargiedz/ Rom. 2. J þvi/ad vilia ecke hans Ord heyra þier til Sälubiälpar/og þoott Gud spare Eyru þijn allt fram i Daudann / þa vita Menn / ad ecke fä þa Augun leingur / og ecke heyra þa Eyrun leingur/ Hiartad verdur þa ad tala vid Gud/og Heilagur Ande ad vera vor Prestur i sijnu Mustere/ enn ef Menn hafa styggt hann med Vanrækt Guds Orda / og slöckt hann med Forøgtun þeirra / hvar i ä hann þa ad lifa/ef eckert var numed sem hann kunne ad lifa i/og er þetta eitt Skadlegt Heyrnarleyse. Margur leggur þad ad litlu/ad gänga i Guds Hus/og helldur þad fyrer Einkoomes Ceremoniu/þvi er verr/ kann skie þad sie og svo hiä allmørgum/ sem þar byrtast/ alleina fyrer Sida Saker / enn giæte Menn þess / ad fyrer utan þad/ ad Gud hefur Skulldbunded sig til ad vera midt a millum Tveggia edur þriggia/sem eru samansafnader i hans Nafne/Matth. 18. Þa er þad ei svo mióg vijda i Lande voru/ad Almúgingur fäe Guds Ord heyrt nema i Kyrkiunne/O hvad miklu Goodu fyrer sä Madur sig/er byrger Eyrun fyrer Guds Orde/þau eru Lijf og Ande/seger Frelsarenn/ Joh. 6. Þvi er hann Andlega daudur sem ann þra er. Vier truum/ad fyrer Truna verde Madurenn hoolpenn ann Verkanna / seger Paulus : Enn Truenn er af Heyrnenne/ enn Heyrnenn af Guds Orde/seger hann/ Rom. 10. Hvar vill

vill hñ lenda þa/ sem er Truarlaus/ nema i Eilijfre Glötun? Vlañ
hañ betre sig. Mijner Sauder heyra mijna Raust/ seger Frelsareñ /
Joh. 10. Eñ hvers munu þr vera/ sm̃ ei vilia heyra Rödd hañs?
Munu þeir ecke sielfer verda med Höfrunum a vinstre Hlid/ og þa um̃
sijder heyra hina skielfelegu Raust alls Hollds Doomara / Fared fra
mier bölvader i eilijfañ Elld / sem fyrerbueñ er Diöflenum/ og öllum
hañs Aarum/ Matth. 25. Sa sem er af Gude/ hañ heyrer Guds
Ord/ seiger Lausnareñ/ Joh. 10. Eñ þeir sem þad ecke heyra vilia/
og þo heyra kuña/ af hverium eru þeir ? Af Fodur þra Andskotanũ /
svo sem DRotteñ sagde vid Gydinga fordum. Vt af þessare Deyfu
fædest margfalldur Eyrna Dofe. Hvad giöra þeir ed heyra
Vein hins Naudstadda og Volada / eñ byrgia sig þo fyrer sijnu eigeñ
Hollde? Þad er fyrer þeim sm̃ ad eru sömu Nattuuru og vier/ og giefa
þeim eckert/ iafnvel þott sumer hafe Audlegd Heims þessa. Eingeñ
hefur um̃ Alldur sitt eiged Holld hatad / seger Guds Ande / helldur
foostrar hañ þad og nærer/ Og hvad er þad þa / ad eg skule sia mitt
eiged Holld / eñ Guds Vesaling / miñ Brooder i Christo/ ad eg skule
sia hañ frioosa edur svellta i Hel/ þar eg hefe þo noog / iafnvel til ad
kosta uppa Munade mijna ? Þetta er skakt Heyrnarleyse. Sa sem
Oskunda og Oriettenñ lijdur/ hañ flijr til Doomarans/ og bidur um̃ Ad
stod/ eñ hañ sem af Gude og Konunginum er settur til ad skipa Riett-
indum Mala / hñ stijngur Fijngrenum i bæde Eyrun / og vill ei heyra
Kvein Log-Raningsens / añadhvert fyrer Leti/ fyrer Vinattu/ fyrer
Hrædslu edur Agyrnes Saker / svo hiñ fer iafnnær fra honũ: Verr
er honũ fared eñ hinum Ranglata Doomara / er Frelsareñ talar um̃
i Epterlijkingunñe hier Luc. 18. Hver þott hañ Ottadest hverke Gud
nie Meñ / þa liet hañ sig þo samt leida af Þrabeidne Ekiunar/ til
ad atijka Mal heñar. Ein gömul Kona beidde Augustum Keysara
eitt Siñ/ ad heyra Mal sitt / Eñ hañ kvadst ecke Toom hafa / Hun
svarade : Svo legg þa af Stioornena: Vid þesse Saniyrde bra svo
þeim vijsa Hofdingia/ ad hñ liet strax a Mal heñar/ og dæmde þad /
Eñ þad være Rádle / ad þesse Barmeñe/ sm̃ nodur er um̃talad/ ad þr
legdu

legdu af ſier þetta Starf/ þar þeir valla eru hæfare til þeſſ / eñ Aſn-
eñ til Norpu-Slaatkar. Meñ nema þañ Lim i burtu af Kroppnū/ ſm̃
er daudur/ og lyklegur til ad ſpille odrum/ ſæmra være og þeim er ſvo
þyckheyrder eru/ſem nu hefe eg ſagt/ ad Eyru þeirra være af ſkoreñ/
helldur eñ þau ſtædu þm̃ til Vanheidure/ eñ eingū til Gagns a Noſd
enu. Þar er eingeñ Kiendur ſ hñ kemur ecke : Ef þier blinder værud/ þa
hefdud þier ecke Synd/ Eñ nu ſeged þier/ vier ſiaū/ þar þ blyfur Synd
ydar/ ſagde Lauſnareñ vid Phariſæos / Joh. 9. Svo være og hinum
betra/ ad Nluſter þeirra byrgdar væru / helldur eñ ad hafa Eyru og
heyra ecke/ eins og oñur Lykneſkia. Margt mætte hier um̃ fleira tala /
þo læt eg þetta duga ad ſvo ſtoddu : Eñ þad eg hefe ad framañ talad
um̃ Neyrnar Skorteñ/ þ ſama vil eg um̃ Maalhellteña tala / ad ſoñu
er hun ſtoor Vanſe Lykamans/ margur Ohlutvandur forſmaaer þañ/
ſem er ſvo Maale fareñ/ þeir hæda ad hønum/ herma epter þeim/ og
laata miklu verr optaſt/ eñ hiner ſem þeir epter herma : þetta heiter
ad laſta Skaparañ / þvi hañ hefur Mañenum Maaled giefed/ og ſaa
ed fremur þvilykt Gudleyſe/ hañ er nærſta illa talande i hñs Eyrum /
ſem allt heyrer / hañ giører Maalſnille ſyna Þuſundſtſum argare eñ
Breſt hins Maalhallta. Ecke helldur bañar Tungu Hafted nockrū
ad gaanga fram̃ fyrer Naadar-Stoleñ / ſem Gud hefur ſett i hañs
Bloode/ hañ ſem ecke upplauk ſynum Muñe/ helldur eñ eitt Lamb til
Slaatrunar leidt/ hñ getur vorkent þeſſum ſynum Veſælingum/ er hñ
ſiaalfur ſkapad hefur/ giete hañ ecke odrum kent/ giete hañ ecke brukad
Maaled til ad tala Maale Eckiuñar og hins Fodurlauſa / þa gietur
hañ þo lofad Gud/ hañ ſkilur Maal hñs/ ſem adgreinde Tungurnar/
og allar hefur giørt af eiñe/ hañ gietur beded Gud ſier til Hiaalpar og
Myſkuñar/ hañ er noogu ſniallur i Guds Eyrum/ ſm̃ bidur i Anda og
Sañleika/ Joh. 4. Eins vel aakalla hiner ungu Hrafnarner Gud og
Svanureñ/ og hverutveggiu þeſſa fæder hañ / þvi ſtendur nu eingum
þeſſe Tungu-Breſtur fyrer neinu Goodu hia hønum / ſem bæde hef-
ur ſkapad hiñ Maallauſa/ og hiñ Veltalande : Hin er Maalhellteñ
meire og ſkadlegre / þegar Meñ bruka Muñeñ til ad laſta Gud/ hañs
Nafn/

Nafn / hans Ord / rangfæra þad / og ad Næde hafa/ til ad skiema Naungann / til ad rægia hann / liuga a hann Lystum og Skømmum þo saklausan/ brygsla hønum/ leggia Napt a Tungu sýna/ þegar hann æ ad forsvara/þegar Sannleikanum æ Vitne ad bera/ og færa Alutena til betre Vegar. Þetta er skelfelegt Mælleyse / þad er ein Høfud-Skømm i Guds Auglite / þarfara være þeim Manne/ ad hans Tunga være fra Koofum uppskoren/en ad bruka hana til slýkra Ódæda/þvi svo seger Frelsaren. Betra er ad þu halltur og Handarvane ingaunger til Lyffsens / en ad þu hafer tvær Hendur og tvo Fætur / og verder i eilýfan Elld kastadur/ Matth.5. Hver ed vyss er þeim sem kemia sier Þøgn þessa / og þessa Mælhellte/ og nema þeir ydrest af Hiarta /og læte af slýku Æde / þa munu þeir eilýflega med hønum verdæ/ er vier Rægekall nefnum/og hefur sitt Nafn af þvi / ad hann æklagar Guds Utvalda Dag og Nott / þar ellda þeir Sælun en eta Tungur / Elldurenn er noogur/Kosturenn er mikill/ Blæstur DRottens uppkendrar hann svo sem annad Brenesteins Flood/Esa.30.Fra hveriu Ósköpu hinn goode Gud vardveite alla Christna Menn/En þu sem ALLT Giorder Vel/ Þu SEm LIEst DAUfa HEyra Og MAALlausa TAla / Vijk þeim afsýdis fra Foolkenu/fra vondre Verølldu þessare/hverra Eyru ad allt ofmiøg kläia epter hennar Glaum/hveriu eckert Mæl lýkar/nema þad sem henne er þocknanlegt/Rek þa ut af Babylon/DRotten min/ jafnvel med Svipu þýns Krossburdar / svo ad ecke medtake þr af Plaagum hennar/ Snert Eyru vors Hiarta med Fyngre þýnum/ sem er þinn Ande/svo ad vier høfum vora Lýsting i Løgmaale þýnu/og upp leys Fiøtur Tungu vorrar / svo ad vier tølum rett/ þad sem Gude sie til Lofs og Dýrdar / Hans Kyrkiu medal vor til Uppbyggingar /en Andskotans Rýke/ og allre hans Ydne til Nidurdreps. Vænheyr þad vor Lausnare/ fyrer þýna Forþienustu/ þier med Fødur/og Heiløgum Anda /sie Vallo og Krapfur/ Rýke og Mattkur/ Æra og Dyrd/Fra eilýfd til annarar/Amen.

## Þrettanda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled/ Luc.10.Cap.

ast til þessarar Helge / þa er hun nu og hefur vered sijdan Himnafør Lausnarans halldeñ a hinum fyrsta Deige Vikuñar / er vier i Miñing Christi Upprisu helgum / i Miñing Endurskøpunar Heimsins / sem fyrer hans Dauda er skien / og Miñing hins Eilijfa Sabbats / er øllum Guds Børnum i hans Upprisu feinged er. Þetta skulu Meñ ecke ætla ad sieu Maña Setningar / helldur svo sem Moyses flutte Guds Løgmaal a millum hans og Israels Barna / Svo hafa og Christi Postular giørt þessa Skyckun / an alls Efa epter hans Bode / þvi ecke(r)t seigiast þeir munde þora ad giøra fyrer utan hans Skipan / Act. 15. Þad er og kunnugt / ad þeir afmædu sumar Greiner af Kyrkiu Løgunum i Samkomuñe i Jerusalem / þegar Paulus og Barnabas voru til þeirra sender fra þeim Christnu i Antiochia / Og er þessa Slutning Sabbatsdagsins ecke meira i spursed. Eg vil ecke ætla / ad nockur giøre sier i Lund / ad Christur hafe ei haft Valld til þessarar Færslu / þvi hañ seigest vera HErra Sabbatsdagsins / og ef þad var ecke a moote hans Gudi doomlegu Hætign ad afmä Sacramente hins gamla Testamentis / þa var ei helldur þetta. Eñ ad þesse Raadstøfun sie af hans Postulum giør / er þad til Vitnis / ad þeir komu samañ a Hvytasuñu Deige / Act. 2. sem tilfellur a vorn DRottens Dag. Lucas skrifar / Act. 20. Ad hañ fyrsta Dag Vikuñar hafe Læresveinarner samañkomed til ad briota Braudid / og ad Paall hafe þa Rædu hallded / Og siaalfur Paall skrifar Corinthu Borgar Møñum til / 1. Cor. 16. Ad a hinum fyrsta Deige Vikuñar skule þeir leggia Afsydes Olmusur synar / er Naudstødduum Christnum Møñum ætladar voru. Þeña same Dag kallar Johañes Postule og Gudspiallamadur DRottens Dag i synum Opinberuninn / Cap. 1. Og svo hefur Christeleg Kyrkia nefnt hañ upp fra þeirre Tyd / allt til þessa / Þad ber til þess / ad nær Postularner ecke nefna Frelsarañ synu eigen Nafne / þa kalla þeir hañ DRotteñ i Stadeñ fyrer Guds Heite / sem er Jehova i gamla Testamentenu / Þvi kalla eg þad vyst / ad þesse Raadstøfun sie fra Gude komeñ / og ad þessu svo fyrer mælltu / þa vil eg nu taka mier Orsøk af Spurningu DRottens til Gydinga / Hvert Þat LEIFDest Ad LÆKna a SABBats DEige. Af heñe vil eg taka mier Orsøk ad tala um þetta Tvent. 1. Hvad Christnum Møñum sie Oleifelegt ad fremia a Sabbats Døgum. 2. Hvad þeim byrie ad giøra / og Leifelegt sie.

Þu stoore HErra DRottens Dagsens og hins eilijfa Sabbats / Laat oss so giøra þitt Verk a þessum Deige / ad vier um sijder meigum inganga til þinnar Hvyldar / Amen / J JEsu Nafne / AMEN.

## Utleggingeñ.

HJD fyrsta sem bañad var a Sabbatenu / þad var ad viña nockurt Verk a þeim Dege / Svo seger DRotteñ i synu Løgmaale / Deut. 5. Vardveit þu Hvijldardageñ / ad þu helger hañ : Eckert Verk skalltu a honum viña / og svo streingelega var þetta bañad Israels Sonum / Exod. 35. ad þeir ecke mættu Elld kveikia i Hybijlum synum a þessum Døgum / Hvar fyrer þeir ecke helldur mættu

matreida /

Makreida / og er valla nockurt Bodord svo opklega Itrekad i heilagre Ritningu/svo sem þetta / og hversu ad Gud hafe freklega straffad Vanhelgun Hvijldardagsins/þad syner oss Straff þess/er tijnde upp Smælked a Sabbatsdege / ad hann mætte deya epter Lögmalenu / Num. 15. Fyrer Vanhelgun þessa/ hootar Gud sijnu Foolke/ ad hann vilie uppbrenna Borger þeirra/ hiaa Jeremiam Cap. 17. og hiaa Ezechielem Cap. 22. Sverded Kongsins af Babylon/og er þeir aptur komner ur Herleidingunne fooku til ad vanhelga Drottens Hvijldardaga / þa ætalde Nehemias þa hardlega/ og leidde þeim fyrer Siooner / ad fyrer þessa sömu Synd / hefde Ogiæfann komed yfer Fedur þeirra/ seigiande : Þegar Forfedur ydar giördu svo/ munde ei Gud vor leida yfer oss alla þa Olucku og yfer þessa Borg ? Og þier villied upperta Guds Heiptar Reide moote Israel/med þvi ad vanhelga Sabbatsdagenn/ Nehem. 13. Nu er þo umm Sabbatsdagenn Tventt ad Hugleida/ þad eina er Sida Lögmalenu vidvijkur/ þad er helst i þvi foolged/ ad lofa Gud og dyrka a þeim Dege/ og svo ad gefa bæde sialfum sier og Hiuum sijnum Toom og Stunder til þessarar Þioonustu / svo og ad hallda einhvern Viku Dag til þessarar Jdnar / og þad er svo rijkt i Natturuna innskrifad / og medfædt Mannenum / ad hiner orgustu Heidingiar fooku sier vissa Daga / nærre svo marga sumer hverier/svo sem vier Christner Menn/ til ad fremia Bloot sijn/og adra Godanna Þioonustu/ hverre Skipan þeirra þoott ad Mannkynsens Ovinur hafe spillt med sinne Dyrkun/þa er þo audsært hier af/ad Natturann hefur boded þeim / ad slijkt være ein sialfbodenn Skyllda vid Gud/ og hafa ad þvi Leite og med þessum Setninge sannad þad sem Pall skrifar / Rom. 2. Ad Heidingiarner sem ecke hafa Lögmaled / þeir giöre af Natturunne þad Lögmalsins er. Annad er þad sem Kyrkiu Lögum Gydinga sier i Lage vid kom / sem er / ad hallda Sabbated a hinum Siounda Dege / hvar umm ædur er nockud i Inngangenum talad/svo og ad vinna alldeiles eckert Verk a þessum Dögum/sem þo ann Efa hefur nockurn Skilmala hafft/ sem sijdar mun sagt verda. Nu þoott ad Christenna Manna Frelse hafe nockra Lijkind hier i giört/svo

og linad Straff þeirra/ er DRottens Dageñ vanhelga/ þa vite. Meñ samt/ ad þad er ein hroopande Synd/ ad briooka hañ med Onaudsynlegu Erfide. Til Guds Dyrkunar var hañ helgadur i Fyrstuñe/ laungu ádur eñ Lögmaaled var utgefed. Christelegt Frelse hefur ei afmaad hañ/ helldur flutt a hiñ fyrsta Dag/ hñ er i Sida-Lögmaalenu bodeñ/ allðrei er hañ af Christo fyrerbodeñ/ helldur Hræsne og su Nía-Tru er Gydingar uñ hañ höfdu/ hun er ströffud af Frelsaranum. Þetta Bodord uñ Helgun Hvýldardagsens er Alyktun hiñar fyrre Bodorda Töbluñar/ hvers vegna ad synast maa/ ad hañ sem þad mootþroanlega brytur/ hañ neite allre Guds Dyrkan fyrer utañ þad/ ad þad stendur alltyd stödugt er Jacob skrifar/ Cap. 2. Ad sa sem brytur eitt af Bodordunum/ hañ er vid öll sekur/ sa sem brukar Hvýldardageñ til sina Vrietkinga/ ad þarflausu/ fyrer Agyrnes sakir/ edur af Forsmaan vid Gud/ hañ er eiñ Afguda Dyrkare/ þvi Gude einum eñ eingum ödrum tilheyrer. sa Heidur ad hallda hañ helgañ/ þar fyrer seiger hañ/ Exod. 31. Sioaed til/ ad þier hallded miñ Hvýldardag/ þvi þad er Teikn a millum myn og ydar/ vanbruke þvi nockur þeña Dag/ med þvi Moote/ sū ádur er sagt/ þa ræner hñ Gud synū Heidre/ og tileinkar sier/ þad hönum alleina tilheyrer/ hañ vanhelgar og hañs Nafn/ þvi a þessum Dege a ad pryssa og lofa þad med hiñe mestu Audmykt/ Eñ sa sū ecke er med mier/ hañ er a moote mier/ seg er Christur/ Matth. 12. Svo vil eg segia/ Ad hañ sem ecke Guds Nafn helgar a þessum Dege/ hañ vanhelgar þad/ Og i Sañleika/ Christner Meñ/ þiker oss þad Oflyted/ ad Gud hefur gefed oss hina Sex Dagana til Vrietkinga vorra/ ad hañ hefur blessad vort Erfide/ vora Lyfs Næringu/ vorar Kaufer og vorar Afgangs Leifar? þoott vier giolldū hönū þioonustu Siöundarteñar/ svo sem eiñ Skatt af öllū Tymanū/ þad være stakt Opacklæte/ ad skora sig undañ þvi. Eg vil ei þar uñ tala/ ad Gud er laangtū Vægdarsamare vid Lykame vora/ eñ vier erum sialfer: Þar fiñast þeir/ ed svo eru akafer i Busorgeñe/ ad þeir mundu eingañ Tyma giefa sier/ Hiuum synum og Vinnu-Dyrum til Hvýldar/ nema þesse Dagur være tilsettur/ svo ad þeir

þeir sialfum Lijkamanum fyrer Lijkamans Næringu ad Þarfleysu / hvar med Gude er eingen Þioonusta giørt / þvi ad han / sem ad baud Manenum/ ad i Sveita sijns Andlites skyllde hn sijns Brauds neyta / Gen. 3. Han hefur og boded / ad a hinum Siøunda Dege skyllde han hvijlast af sijnu Erfide. Og þoott nu ad Skrift-Vissa og ønnur þvi lijk Veralldar Umsvif sieu bønnud a helgum Døgum / þa meine þo eingen/ ad Gud verde med Einkomes Idiuleyse dijrkadur. Idiuleysed er Orsøk til margra Lasta. Þegar David gieck Idiulaus uppa Hus Þake sijnu/ þa freistade Diøfullen hans til ad girnast Bersabe / og var han þo Guds-Madur/ Ætla ecke ad þu sierf Ohultare fyrer hon um ef til vill/ þvi talar Hieronymus vijslega og Gudrækelega / er han seger/ Haf alltijd eitthvad ad sijsla/ svo Diøfullen hitte þig ecke Idiu lausan/ þvi Idiuleysed færer med sier Lestena/ Men læra Jllt ad giøra/ af þvi ad giøra eckert / Þar fyrer / seger og Eitt af þeim Christinu Forn-Mønnum / Betra være Gydingnum ad vinna Eitthvad til Þarf enda a Akre sijnum / helldur enn ad giøra Upphlaup a Akrenum / og betra være Konum þeirra ad sitia ad Ullar-Verke/ helldur enn ad dansa Openberlega a sijnum Tunglkomu Hatijdum / og er þad Mæla sann-ast / ad oss Christnia Menn vantar alldrei Verk a helgum Døgum / til ad þioona Gude med / ef vier værum Lundlægner þar ad / þoott vier hvijlumst af Dagligu Erfide / hvar um eg vil framar tala i hinne sijd are Greinenne. Enn ef þad er ecke Leyfelegt / ad vinna Ofmiked/ edur eckert a þessum Døgum/ þa er þad vijst/ ad þad er ein Høfud Skømm/ ad hafast þad ad/ sem illt er z i sialfu sier Oleifelegt / þvi þad er ad dijrka Diøfulenn i Staden þss Menn ætlu Gud ad dijrka. Þetta giøra aller þr ed bruka Guds helga Daga til Lauslætis/ til Ofneytslu og Of dryckiu/ til lioofrar Skemtunar/ til Okurs z Agyrne/ til ad vinna sier inn Fe med Duble og Teninga Kaste / hvar af þrælega orsakast Svar-dagar/ Agg og Þræta/ Aflog og Rifkingar/ til Jlls Samtals/ til ad Baktala/ Rægia/ og liuga uppa Naungann/ til ad Atyrda hn/ z giøra Jllt i Skape. Oskande være/ ad ecke kiæmu Menn saman til slijks/ a helgu Døgu/ under þvi Skyne/ ad ganga z Guds Hus/ um hverja Þall

 seger

seger/ 1. Cor. 11. ad þeir samañ safnest til hins verra eins/ og er eingeñ Vanhelgun argare eñ þesse / Þvi ef þad eru i sialfu sier þvilijker Klæker / ad Paulus seger / ad med slijkum skule Meñ ecke Vmgeingne hafa/ og ad þeir ed þvilijkt fremia / erfe ecke Guds Rijke : Hvilijkur Glæpur mun þ þa vera/ ad adhafast svoddañ a þm̃ Tijmū/ sm̃ DRott eñ helgad hefur ? A medal þessara Klækia / er ecke hiñ minste Guds Hus s Forsoomun og hañs Heilogu Orda / sem morgum Veralldar Syne þijker lijtil Synd/ og allt añad þarfara ad vita : Þyktast sialf er noogu vel uppfrædder / svo ad ei mune þeir læra miked af einfolldū Prestum. Herra Gud / Olijker eru Sialfbyrgingar þesser heilogum David/ Hañ var svo vel uppfræddur af Heilogū Anda/ ad hañ hefur morgum odrū Himneska Speke kient i Psalmum sijnū/ þo seger hañ/ Ps. 27. Eins hefe eg beded af DRottne / þess krefst eg af honū/ ad eg sitie i Huse DROTTens alla mijna Lijfdaga / til ad sia Fegurd DRottens og leita hañar i hañs/ Mustere. Hvad synest ydur/ munde David ecke gieta funded Gud heima i Huse sijnu/ eins vel og þier ? Ju miklu betur/ þvi eg efast um/ hvert þier finned hañ Nockurstadar/ sem svo Toomlæter erud / ad þier vilied ei lia Fætur ydar til ad gainga i Guds Hus/ til ad leita hañs þar/ edur Eyrun til ad heyra hñs Ord. Hvad sañ þo David i Guds Huse añad eñ nockrar Fornfæringar / i hverium ad fyrermyndud voru epterkomande Giæde/ vid hveriar hñ þo huggade sig / og var gladur af Voneñe : Eñ þier hverium Christur er med ollū sijnū Velgiorningū Krossfestur afmaladur / i hverre riett-skickadre Predikun/ þier forsmaaed þo Lijkamañ / þar sem David unde sier vid Skuggañ. Hier af spretta adrer Avexter/ lijker Rootenu sem er Bænrækarleysed/ þvi Guds Hus er Bæna Hus : Vantrueñ / þvi hverninig meiga þeir trua/ nema þeim sie predikad/ seger Paulus/ Rom. 10. Kiærleiksleysed / þvi þeir yfergefa Safnadeñ a moote Postulans Bode / Hebr. 10. og Samneyte Guds Barna / sem hvad mest eblest i Guds Helgedoome. Hier af fylger hañs Þienara Forsmaan / þeir eru svoddañ Mońum eins og ein Gaman Vijsa / sem er fægur ad leika/ svo sem DRotteñ sagde vid Ezechielem/ þeir eru þeim

nockurskonar Epterlijkinga edur Ordskvida Smidet eins og han / Ezech. 21. Enn hvad vill hier af fylgia / O þier hin Fauvijsu Børnen? Þad mun Efa / ad hver sem þa forsmaaer / hann forsmaaer Christ / enn hver sem Christ forsmaaer / hann forsmaaer þann er hann sende / enn þann ed Gud forsmaaer / þann vill hann forsmaa / 1. Sam. 2. Og er þa ecke leingra ad leita ad Gløtuneñe / sa finnur hana i eilijfum Elde / sem ei villde leita ad DRottne i hans Huse. Hier umm mætte margt fleira tala / enn eg læt þetta nægia ad svo støddu / og vil koma til hins / er eg adur lofad hefe umm ad tala.

Hvert ad vera eige vort hid sierlegasta Verk a DRottens Døgumm og ødrumm helgum Tijdumm / Þad er audvitad af Skickun Sabbats Dagsens i Gamla Testamentenu / hvar Foolked ætte samann ad koma til Helgedoomsins / til ad dijrka Gud med Offrum og Foornfæringum / svo sem adur er sagt / þvi sialfnvel þoott Dagurenn sie umbreittur / og Foorneernar afmaadar med þeirre einu Foorn / sem hun Mose Nyia Testamentesins Kennemadur hefur inbored i þad allra Helgasta i Himnenum / ad utvegadre eilijfre Endurlausn / þa er þo ecke hans Vilie umm breittur i þvi / ad vær ta þioona sier af Christnum Mønnum. Fyrer Synda-Foornernar Offrum vier þvi saklausa Guds Lambe / sem fra Upphafe Veralldar slatrad er. Vor upplyptingar Offur eru Bæner og Þackargiørder / þetta eru Kalvar Vara vorra / þad eru vorer Frumburder / sem DRottne eru helgader / þa eigum vier framm ad bera ad sønnu allt tijd og allstadar / enn þo sierdeilis i hans Huse a þeim Døgum / sem þar til helgader eru / þar til er hinn fyrste Dagur Vikunnar bodenn / sem adur er umgeted / sem og adrar Hatijder / þær ed Christelegt Yfervalld hefur sett / og eiga ad halldast i jøfnu Gillde / þvi hann sem baud ad helga hinn siøunda Dagenn / Hann hefur og boded ad hlijda Yfervalldenu / og a þad þo hvad mest ad framkoma i þeim Hlutum / sem Guds Dijrd ahræra / og hans sierlegustu Velgiørninga / hvar fyrer hinn fyrste af Christnum Keysurum / hinn stoore Constantinus / liet hallda Føstudagenn helgann i Minning Krossfestingar DRottens / og varde sa Sidur leinge nockud / nu er þad þo ecke noog / ad koma samann til Kyrkiunnar / nema

 nema

ma Menn giøre þar Guds Eyrende med allre Alud / afþars er vor Kyrk iu Gaangur ecke nema einkoomis Nrafne/ og vare af Illu skarra / ad koma þar allrei(sem þo er stoor Synd i sialfu sier / nar þvi ma vel vid koma) þvi hitt er ad nalagiast Gud med Vorunum / en Hiartad er þar langt fra / og hvad gagnar þad til Guds Dyrdar og vorrar Saaluhiaalpar / ad Menn sitie i Kyrkiunne / eins og Gud seger um Til heyrendur Ezechielis/Cap. 33. þeir koma til þyn Hoopum saman / og sitia fyrer þier svo sem mitt Foolk og heyra Ord þyn / en þeir giøra þau ecke. Þad er Teikn til þess / ad Eyfterlettenn hefur ecke mikel vered/ og ecke einasta er þad nu Skyllda vor/ ad koma saman a helgum Døgum til ad lofa Gud/helldur er þeirr gledelegur Hlutur/þ er Myski un Guds / ad hann hefur atlad þessa Daga til Sadningar Saalum vorum / þar hefur hann tilreidt eitt mikid Gestabod i Syne sijnum. Þar vid huggar David sig i sinne mestu Sorg / er hann kvedur þanenn / Ps. 42. Eg uthelle Hiarta mijnu i sialfum mier / þat eg mun med þeim Flocknum burtganga/og med þm fara til Guds Huss med Glede-skap og Þackargiord/med þeim Hoopnum sem Helgena hélldur / eg fagna af þvi/ seger hann enn aptur/ Ps. 122. Ad til mijn verdur sagt/ vier skulum ganga i Hus DRottens. Þetta sagde hann Konungurenn i Israel/og einum Verk-Þræl a medal vor ma valla nua til þess/ ad sækia Sooknar-Kyrkiu sijna a Stundum / edur og Husboonde hans hefur svo iwo hann i Erfide/ ad hann getur þad valla / hvad og er ein Hroopleg Synd. Nu er ecke þar med bued/Christner Menn/ad Menn heyre Guds Ord i Kyrkiunne. Allann Daginn a Gude ad gefa med Riettu/ef þad giøra ma Stoor Naudsynia vegna. Þegar Menn eru fra Kyrkiunne geingner / þa eiga Menn ecke strax ad hætta sijnu Gud rækners Verke/edur lifa svo sem allrei hefdu þeir komed þar/ og huxa ecke framar þar til/Hvad a þa ad giøra ? Riett er ad sedia Lijkamann epter Þorfum / þad er og ecke bannad ad hallda skickanlegar Maal-Dryckiur a þessum Døgum / þo svo ad Menn gledie sig med Otta og dyrke DRottenn med Virdingu / Ps. 2. Þetta gietur og vered eitt af Kiær leikans Verkum/ef þ er giørt an Ohoofs og Meinadar. Svo søgdu

þeir

þeir Nehemias og Hezras Kienemadur og Levitarner / er kendu Fooklenu / Eted hid Feita og drecked sætañ Dryck / og sended þeim eiñ Part sem ecke hafa tilbued / þvi Dagur þesse er helgadur DRottne vorum / Nehem. 8. Þetta budu þeir ecke af eigeñ Myndugleika / helldur epter Løgmaale DRottens er ritad stendur i Devteronomii Bokar Cap. 16. Hvar fyrer slijkt er Telfelegt / sierdeiles ef Meñ gleyma ecke Naunganum og hinū Fatæka / þvi þeim bijdur DRottenn med svoddañ Hætte Gott ad giøra / Luc. 14. Eñ þoott ad Skapareñ hafe latted þetta epter Lijkømum vorum / þa eiga Meñ ecke ad lata Saalena Hvijldarlausa vera / helldur æfa hana i Vmþeinkingu Guds Orda / er Meñ heyrt hafa / og þess Lestre / þeir sem a Bækur kuña / og meiga fyrer ødrum lesa / Ecke høfum vier Christner Meñ færre edur smærre Velgiørninga DRottens ad miñast / a vorum Døgum / eñ Gydingar / Eins er oss skylldt ad miñast a Verk Skøpunareñar og þeim / og øllu meir a vora Endurlausn af Helvijtes og Syndareñar Þraldoome / eñ þeir a Lausnena af Egyptalands Anaud / ad hverre fullendadre / ( eg meina vorre Endurlausn ) ad DRottenn / sem doo fyrer Synder vorar / er uppriseñ oss til Riettlætes / A vora Endurskøpun og Helgun i Skijrneñe / hverrar Fyrermyndañ ed var Gangur Israels Sona yfer um Hafed Rauda ur Egyptalande / þvi meigum vier tileinka oss þad sem DRottenn bijdur i sijnu Løgmaale / Geimed mijna Sabbatsdaga / svo ad þier vited ad eg er DRottenn sem ad helga ydur / Ezech. 20. A Deydingu Holldsins / ad vier ei giørum þad oss lyster a hans helga Dege / nie gaungum a vorum Vegum / Esa. 58. Vm þetta eigum vier ad huxa a þessum helgum Tijmum / þad eigum vier ad brijna fyrer Børnum vorum og Hiwum / ecke sijdur eñ Israels Syner Løgmaaled / og skule Meñ satt tala / þa er eingeñ Idia Gude þeckare a Sabbatsdøgum / eñ ad uppfræda Vngdomeñ og hina Fafroodu i þeirra Christendoome / þvi til þess maa eg segia / ad christeña Maña Sabbat sie giørt sier i Lage / Giæte þeir þess ed af Gude setter eru til slijkrar Idnar / bæde KiekeMeñ / Forelldrar og Husbændur / og Hugleide / hvad stoorum Reikningi þeir eige ad svara fyrer þeña Dag / ad ødrum frateknū. Nu

fyrer

fyrer þvi/ad ſvo er vared ſpilltu Edle voru/ ad færſter af oſſ/ jæ/ ſvo fæer ſem eingver af þeim ſem lifa a þeſſare kølldu og ſiødurſtu Øld/ þeir geta allañ Dag til Enda Gude þioonad i Hiarta ſinu / an þeſſ ad Hugur þeirra hvarfle fræ/ þa meina eg ad Leifelegt ſie/ ad hreſſa Hiarta ſitt med Sidſamre og Hæverſkre Skemtan a þeſſum Døgum. DRotteñ og hañs Læreſveinar geingu ut um Korn-Akur a Sabbats Dege/ Matth. 12. Þvi veit eg ad hañ bañar ecke ad giøra ſier eitt hvad til Dægur Styttingar / hvert helldur þ er med lïtelle Vinnu edur Meinlauſum Leik / nær þad ecke ſkedur af Giælïfe / af Lauſlæte / af Hreckvïſe / edur ødrum Hlutum ſem Guds Hæleita Nafn verdur laſtad med/ ſvo og eru Naudſyneñe eingeñ Løg ſett. HVErs VDar ASne EDur NAut / SEm fELLur I PJtt A SABBats DEge / Er þad Ecke JAfNſkiott VPPdreged ? Seger Frelſ-areñ hier i Gudſpiallenu. Þvi veit eg ad ecke a ſvo Løgmæled ad ſkilia / ad øll Viña hafe Judum bañad vered a Sabbats Dege/ hvernig ſem æſtædiſt/ þ kieñer Chriſtur ſiælfur med þm Ordum/ er ſtrax voru leſeñ/ z aptur med þvi ad hñ ſeger/ ad Kieñemeñerner i Muſterenu vañhelge Sabbated/ hañ meinar epter Phariſæaña Vtleggingu. Eins mikel Viña var ad ſlætra Fornunum fyrer Altarenu/ ſvo ſem i heima Huſum. Eñ fyrer þvi / ad þeſſer Phariſæi kyñu ad hafæ ſagt / ad ſlïkt helgadeſt af Muſterenu / þa leifde hañ Læreſveinunum Axen ad plocka fyrer utañ Muſtered a Akrenum/ og ſagde : Hier er ſa / ſem meire er eñ Muſtered / Matth. 12. Hvad ed ſatt var / þvi hñ var Muſtereſins HErra / ſvo vel ſem Sabbatsdagſins / Luc. 6. Þad var og af Guddoomlegre Speke talad / er hañ talade under eins / Sabbated er giørt fyrer Mañeñ / eñ Madureñ ecke fyrer Sabbated / Marc. 2. Þetta er ſatt/ ſvo ſem øll hñs Ord/ þvi Madureñ var ſkapadur ædur eñ Sabbated var ſett / Hvar fyrer ſkyllde þa hin ædſta Skiepna Guds / ſem er under Sooluñe / vera ſvo miøg bundeñ vid Kyrkiu-Løgeñ / ſem ecke ætti ad vara leingur eñ til Chriſtum / ad et mætte bregda ut af Løgvitringaña Vtleggingu. Guds Løgmæl utleggur og ſiælft ſig i þeſſare Grein / þviad i Levitici Bookar. 23. Capit. ſtendur optlegá / Þu

ſkallt

skallt eckert Prældooms Verk vinna / Þad er Jtrekad aptur i Num. 28. og 29. Capitulum. Hvilkt þad sie / kenner bæde Esajas og Jeremias / Ad ei skule bera Byrder inn umm Jerusalems Port a Sabbats-Døgum / og mæ þar af ræda / hvad i þessu hafe mest hanglad vered. Nu er þo Frelse vort Christena Manna meira / þvi vier erum ecke ad øllu Leite bundner vid Gydinganna Sabbat / nockud hefe eg ædur þar umm sagt / nockud vil eg hier epter segia. Þad er nu øllum kunnigt / ad Kyrkiu-Løg Moysis eru fyrer Dauda DRottens afmæd / enn þad er ædur sijnt / ad Forbod alls Erfides a Sabbats-Dege heyrer til Kyrkiu Løgunum. Satt er þ / ad Gud skipar / ad þetta Løgmaal umm Sabbats Dagenn skule vera þeim eitt Æfenlegt Løgmaal i þeirra Kynslodum / enn þær rugludust / ei langt epter Himna-Før DRottens / & nu veit eingenn af þim / af hverre Ætt hann er / þvi er þad bert / ad þetta Løgmaal hefur ei ad øllu Leite vered gefed nema Gydingum. Vmmskurnenn kallast og eitt Æfenlegt Sattmaal / þo er hun afteken med Skyrn Christena Manna / þvi ber þest ad giæta / ad Ritningenn kallar þad Æfenlegt æ Stundum / sem leinge a ad vara / Enn hvernig sem þessu er vared / þa vil eg adspyrta: Hvar fyrer mun Paulus straffa þa i Galatia seglande / Gal. 4. Þier taked Vara a Døgum og Mænudum og Tijmum og Arum? Hvar fyrer mun hann aptur segia vid þa i Colossis / Cap. 2. Eingenn skal dæma ydur i Mat edur Dryck / edur umm Nætidardags-Hallo / edur Ny-Mænuda Helgar / edur Hvijldardags / sem ad er Skugge þess Epterkomanda / enn Christi er Lijkamenn? Hvad er þetta annad / enn ad Sabbatsins Løgmaal er ad nockru Leite linad / og ecke svo strenglega boded christnum Mønnum / svo sem þad var Judum / Eg vil og þad til-leggia / ad þ kallast Teikn i Exodi Bookar. 31. Cap. Hvad munde þad þa teikna? Þad Ævarande Sabbat sem DRottenn byriade med sinne Vpprisu hier i Nædenne / Enn mun fullkomna i Vpprisu allra Manna / hvar epter ad Vtvalder munu eckert annad Verk vinna / enn ad lofa Gud. Fyrst Menn nu hafa sialfer enn Hlutenn Allareidu ad nockru Leite / þvi Truenn er Vera þeirra Hluta sem Menn vænta epter / Heb. 11. Og ad vyssu hver einn fullkomlega sæ ed i DRottne deyr: Þvi

 skyldu

skylldu Menn þa svo mieg hallda uppa Teikned? Þegar eg Lijkamann hefe/ hvad gyllder mig þa um̄ Skuggann? Svo er nu Christnum̄ Monnum Leifelegt ad vinna a Sun̄udøgum allt hvad Stoor Naudsyn vid liggur/ þo svo/ ad Men̄ heyre adur Guds Ord/ ef heyra mà/ svo sem er ad biarga Akvinnu sinne frà Skiemdum/ Ef þar vidliggia/ ad giøra Naudsynlegar Reysur / ad hiálpa þvi sem ad Lande ber / ef an̄ars er hætt vid ad missest/ad Roova til Fiskiar i Nallæris Tyd/ þo svo/ ad ei sie Fatækum gleymt/ epter þvi sem Løgenn bioода/og an̄ad þessu lijkt / Þetta er Leifelegt ad vinna / og jafnvel þoott ecke bere brad Lijffens Naudsyn til / þa er þo ecke sooddan̄ ban̄ad. Ecke liggur Man̄sens Lijf vid ad draga Nauted upp ur Dykenu a Sabbats-Dege / og þo ma sià / ad Gydingar hafa þad Leifelegt hallded. Ecke hefdu Læresveinar Drottens af hungre Daed / þoott ecke hefdu þeir plockad Axen̄ a Nvildar Degenum / og took han̄ þa samt i Forsvar moote Illkvittne Pharisæan̄a/ han̄ gat og sadt þa med ødru Moote/hefde þetta ecke Leifelegt vered/ þvi ecke var hn̄ komenn til ad uppleysa Løgmaaled / Matth. 5. Nu er þetta og an̄ad Christnum Mønnum lofad med søgdum̄ Nætte/ Enn þess a eingenn ad dyrkast ad Naudsynialausu / edur ad bruka Frelse Guds Barna til Agyrne / edur giøra þad af Vantrausste vid Gud / edur Forsmaan vid han̄s helga Daga. Enn hvad hier um̄ er framar ad tala / þa er Gude eingenn Nlutur þeckare ad giøra a Sabbats Døgum / næst sin̄e Þioonustu / helldur enn Kiærleikans Verk/ Hier stendur i Gudspiallenu/ Ad NAn̄ NAfe TEKed A þESSum VATNSiuka MAn̄e / LEKNad NAn̄ / Og LATed NAn̄ J BVRtu FAra / Og hversu ad han̄ hafe Pharisæana saman̄fært hier um̄/ er Auglioost/ecke einasta af han̄s Tale i þetta Sinn̄ / helldur og af Andsvare han̄s vid Samkundu Nøfdingian̄ / er vandlætte um̄ þad/ ad hn̄ læknade hina veiku Konu a Sabbats Dege/ Luc. 13. Þu Nræsnare/ sagde han̄/ Leyser ecke hver ydar sitt Naut og Asna af Stalle a Sabbats Dege / og leider til Vatns / Byrtade þa ecke þessare/ sem er Abrahams Doottер / hveria Andskotenn hefur bunded/ Sia/ i Atiган Ar/ ad leysast af þessu Bande a Sabbatsdege?

Ecke

Ecke erum vier megnuger um̄ ad giøra Kraptaverkeñ / samt eigo þeir ed Tæknes Kunstena vita / ad giæka þessa / og aller ad giøra vidlyk Kiærleikans Verk hvad mest a þessum Dege/epter þvi sm̄ hver hefur Orsøk og Efne til. Eg veit þar er eingeñ su Predikun/ ad eg fæe ecke ad heyra þar talad um̄ Synder mãnar/um̄ Giæsku Guds og hañs Velgiørninga / um̄ Avøxtu Truareñar/ og Betrun Lifnadarens/ og þoott alldrei sie Predikuneñ svo Einfalldleg/ þa veit eg / ad eg er ecke svo lærdur sem Lutherus/er sagdest alldrei hafa heyrt þa Predikun/ ad hañ ecke hefde eitthvad af heñe lært / og mun hañ þo hafa heyrt þær misjafnar a þm̄ Døgum/ Sie eg nu Guds Barn/ þa vil eg sijna þad i Verkenu / sem eg numde af Ordenu / Añars er þad falled utañ hia Vegenum / i gryttta Jørd / edur medal þyrna. Alltyd eigum vier Kiærleikans mistuger ad vera/ eñ þo hellst a þessum Døgum. Gud giæfe/ad Christner Meñ nu villdu giøra sier þ ad Skylldu Løgmæle/ sem Paulus ried þeim i Corintho um̄ Tillaged til Heilagra. Hiñ fyrsta Dag Vikuñar/ sagde hañ/þad er a Suñudageñ/þa legge hver eiñ hia sialfum sier/safnande i Siood/þad sem hønum hefur heppnast: Fatæka høfū vier jafnañ hia oss/eñ þo høfū vier sier i Lage Orsøk til ad giøra þm̄ Gott a þssū Døgū/þvi þr koma masamt oss fram̄ fyrer Gud i Helgedomenū/þar fañ vier best ad heyra Naudsyniar þra/ þar getū vier rææded Bot a þm̄/vier sm̄ Gud hefur giefed Audlegd Heimsins þssa. Þar kuñū vier ad giøra oss Vine af hinū Ranglæta Mam̄on/þa er medtaka oss i eilyfar Tialldbuder. Svo og eigū vier ad vitia Siukra/Husa-Eckna og Fødurlausra a þessum Døgū/þvi þad kallar Petur Gudræknes Verk/Hugga þa/Rædleggia þeim/og ecke koma Toomhendter/ ef vier meigum af leggia/ eñ þr eru Naudstadder/ Añars geingur þ nærre þvi/ad segia/Fared i Fride/vermed ydur og mettest/eñ gefa þeim þo ecke hvad Lykamañ gagnar/Jac. 2. Svo giæked nu þssa/Christner Meñ/og giøred ei Hiegoma ur Drottens Døgū/ hañs Orde/ edur hũs Huse/ þvi hañ lætur ecke ad sier hæda/og hvern sem hañ forsmaer/hañ vill hñ forsmaa. Eñ þu goode Gud og Konungur Dyrdareñar/verka þu þ med oss/ad vier so tækiñ þyna Sabbats

Daga/ þitt Ord/ þijna Þioonustu/ og allar þijnar Helgar Tijder/ ad vier meigum med þier Oendanlegt Sabbat hallda / fra eirne Eilijfd til allarar/med øllum Heiløgum/ Bænheyr þad Naaduge Fader/ Fyrer JEsum Christum/ A M E N.

## A Michaelis Messu.

Gudspialled/ Matth. 18.

Ï þaň Tijma /Geingu Lærersveinarner til JEsu / og søgdu/ Hvør er mestur i Himnarijke ? JEsus kallade eitt Barn til sijn / og sette þad midt i millum þeirra og sagde: Saň-lega sege eg ydur / Nema þier umsnuest / og gioreft so sem Smæborn / munud þier ecke inganga i Guds Rijke. Hvør sialfur sig lækar so sem Vngmenne þetta/sa er mestur i Rijke Himnaňa. Og hvør sem medtekur eitt þvilijkt Vngmenne i mijnu Nafne/ sa medtek-ur mig: Eň hvør haň hneixlar eirn af þessum Smælingium sem a mig trua/ þarfara være hønum ad Mylnu-Steirn heingdest uň haňs Hals / og være i Siafardiup sockfur. Vei sie Heimenum fyrer Hneixlaner / Þar hlioota þo ad koma hneixlaner. Eň Vei þeim Maňe / fyrer hvørn ad Hneixlaneň kiemur. Eň ef þijn Hønd edur þiň Footur hneixlar þig / sniyd haň af og snara hønum fra þier. Betra er þier iň ad ganga til Lijfsins Hølltur og Handar vane/eň þad þu hafer tvær Hendur og tvo Fætur / og verder i eilijfaň Elld kast-adur. Og ef Auga þitt hneixlar þig / þa slijt þad ut og snara þvi fra þier / Betra er þier Eineygdum iň ad ganga til Lijfsins / eň þad þu hafer tvo Augu / og verder i Helvijtiskaň Elld kastadur : Sied til ad þier forsmaaed ecke eirn af þessum Smælingium. Þviad eg sege ydur / ad þeirra Einglar a Himnum / sia jafnaň mijns Fødurs Auglit / sem er a Himnum.

## Exordium.

Þesse Heglega Hatijd / er vier i Dag hølldum / er Tileinkud hinum stoora Høfud-Eingle Michael / hvers Nafn ad merker / Japa GVDE / eda / Hver Er Svo Sem GVD / Ecke þess vegna / ad haň sie Gude jafn/ edur nockur Gaur Skiepna / helldur hins / ad hin øňur Guddoomsins Persoona Guds Eingetenn Sonur haň ber þetta Nafn Sumstadar i Ritningunne / og medal

aňars hjá Danielem í 10. og 12. Capitulum. Ecke helldur er þesse Dagur helgaður Guds Eingle í þeirre Veru / ad Menn skule dyrka hann þar með / þvi DRottenn Gud þinn skalltu tilbidia og hønum einum þioona / seiger Ritningenn / Matth. 4. Þad bannar Paulus / er hann tekur oss Vara fyrer / ad vier ei skulum lata villa oss med Dyrkun Einglanna / Col. 2. Og ecke villde Eingillenn sem fyrrest Johann taka a moote þvilijkre Lotningu / þegar Postulenn fiell hønum til Foota ad tilbidia hann / er hann sagde / Apoc. 19. Sia til ad ei giører þu þetta / eg er þinn Samþioon. Helldur er þesse Hatijdes Dagur þar til giørdur / ad þacka Gude fyrer Vernd H. Eingla / hverium hann umbodeð hefur / ad þeir bere oss a Høndum sier / svo ad ei steitum vier Foot vorn vid Steine / Matth. 4. J Ritningunne høfum vier mørg Dæme uppa Varatekt H. Eingla: Gud DROTTenn Himensins mun senda sinn Engel fyrer þier / sagde Abraham vid Eleesar Þioon sinn / Gen. 24. er hann reiste i Mesopotamiam / til ad bidia Syne sijns Konu til Handa. Jacob seiger / ad Eingillenn hafe frelsad sig fra øllu Illu / Gen. 48. Petur seiger: DRottenn sende Eingil sinn / hver ed frelsade mig / Act. 12. Enn þoott ad ei siaum vier Einglanna Siooner nu a þessum Døgum / þar hinn stoore Michael / hinn stoore Eingill þess mikla Rads hefur bæd svo um vor Saaluhialpar Efne / og svo lioosliga opinberad oss sijns Fødurs Vilia / ad vier þurfum ecke Einglana af Himne til ad kienna oss hvad til vors Fridar heyrer / þa sannt skulum vier vita / ad þeir blessadir Andar eru oss nalæger til ad afstyra Skadræde og Arasum Fiandmanna vorra / og þad vottar Paulus / er hann seiger epter David / ad þeir sieu aller Þioonustu samer Andar / utsender þeim til Þioonkunar / er Saaluhialpena erfa skulu / Hebr. 1. Nu villdum vier aller i þettra Tølu vera / þat fyrer eigum vier ad leggia alla Huga a / ad vier styggium þa ecke fra oss med Hneixlanlegum og Oguðlegum Lifnade / Hvar um ad þetta H. Evangelium gefur oss Orsøk ad ræda / ut af þeim Ordum / er DRottenn talar um Hneixled / hvert ad er Tvøfalldt. 1. Þad Menn giefa ødrum af sier. 2. Þar Menn hneixla sialfa sig: Um hvorttveggia vil eg med þeim Ordum tala.

Enn þu goode Gud / styrk oss hier til med þijnum Anda / i JEsu Nafne / AMEN.

## Utleggingen.

HVER Sem HNEIXLAR Einn Af þEssum SMaa / seger Frelsarenn: Þad Ord er i Textanum stendur / er dreged af ødru Orde / sem merker Ad HALLTra / og þad þess vegna / ad sa sem hneixladur verdur / hann er ecke Heilfættur / hann Halltrar a Guds Vegef og geingur ecke riett fyrer DRottne. Þetta a vel saman vid vora Tungu / þvi HNEixle drogum vier af þvi Orde / ad HNiga edur HNEigia / þvi sa sem Hneixle af sier gefur / hann kemur ødrum til ad hniga edur rasa / og hneiger hann til vondra Verka. Þetta Ord merker

er a Griska Tungu þad Tre / sem Snørufie helldur / a hvert þegar Dyred rekur / feller þad hana yfer sig / og verdur Veidemanienum ad Bræd. Svo brukar og Dioful leñ sýna Eyrendsreka i Heimenum/ til ad veida Einfalldar Sæler / þeir hallda Snørū hañs yfer Hofde þeim: Svo kallar Paulus hañs Viela Brøgd/ er hañ seger: ad þeir sem rýker vilie verda falle i Dioful sins Snørur. Þar fyrer seger og DRotteñ fyrer Muñ Hosea/ uñ hina Otruu Kieñemeñ i Juda/ þier erud Snara i Mitzpa/og utþaned Net a Thabor/Hos.5. Dragande Dæme af þeim Veideskap er brukadest a þessum Stødum. Nu er þesse hin fyrre Grein af Hneixleñu med tveñu Mooke: Añad hvert verdur þad med ORDum edur VERKum. Med Ordum skiedur Hneixled/ þegar þeir sem eiga ødrum ad underviisa/ þeir kieña Villur og rangañ Lærdoom / þañ ecke er a Guds Orde bygdur/ og leider til Glotunar. Fyrer þessare Orepsoott hefur Guds Føduleg Millde þyrmt Lande voru/ sijdañ hid klara Lioos Evangelii skein i hñs Kyrk iu medal vor: Lofad sie hañs Dyrdarfulla Nafn uñ Allder Allda. Þetta verdur og / nær þeir sem i Guds Stad eru setter/ predika þad sem er Hiegoome/ ecke sundurskiiufa Ord Sañleiksins/svo sem byriar / Ecke giefa Guds Hiuum i rettañ Tijma þad þeim tilheyrer/ og tala þ fyrer Foolkenu/sem ei er til Saaluingar Sælu þeirra/svo hun er litlu edur eingu nær / Ecke segia hiñum Ogudlega til Synda siña / Ecke Leidrietta þañ/sem fer villur Vega/Ecke underviisa hiñ Fæfrooda/ Ecke hugga þañ Sorgbitna z Angrada/sæ/þegar Meñ i Guds Naf ne z under hñs Personu reka sitt eiged Eyrende/til sijns Abata / z ad leita sialfū sier Virdingar/eñ læta Guds Dyrd fara/ og eru ei mieg huxunarsamur þar uñ/hvad hefie vidlijdur / þessa kallar Paulus O'trua Erfidara/og Esajas Mallausa Hunda/sem ei kuñe ad giellta / eñ þo sterka Hunda til ad eta: Hvar fyrer? Þvi þeir segia þm Strijd a Hendur/sem ecke leggia i Muñ þeirra/eñ boda Frid/nær þeir tyggia med Tøñunum / Mich.3. Þeir eru Hverfuler / Ofañsoguler og Liuga/ segiande: Eg skal drupa / þad er kieña þier fyrer Vijned/og fyrer æfeingañ Dryck/ svo sem DRotteñ ad Orde kemst/ hiaa Micheam

Cap.

Cap. 2. Og eg veit ecke hveriu þeir betre eru þeim folsku Spamonnum/ er DRottenn talar um̄ i Gudspiallenu/ er koma i Saudaklædum/ enn inn̄ra eru þeir glepsande Vargar/ þvi einu mꜳ gyllda med hvertu Moke Menn draga Andskotans Ploog / til ad spilla Guds Akre/ og er þetta eitt skielfelegt og banvænt Hneixle. Næst þessum tel eg þa/ sem̄ bæde sialfa sig og adra venia a skam̄arlegar Ordrædur og Fiblslegt Hial/ sem̄ eru Blot/ Musi-Eydar/ dꜳrleg Skemtan/ Hroop og Nyd / liooter Kvedlingar/ z þo allra helst illar Umrædur z Hneixlanlegar um̄ Nꜳungann/ sierdeilis dauda Menn edur fiarlæga/ af hveriu ad þrꜳvalldlegꜳ fram̄ kiemur Agg/ Reide/ Þræta/ Mord/ Mannadrꜳp/ z allra handa Fiandskapur og Daudlegt Hatur: Þetta kalla sumer Ohlutvander Menn litlar Synder/ aukhelldur ad þr varest ad læta jafnvel sijn eigenn Born og adra Fꜳfrooda þetta til sijn heyra / Enn Paulus seger oss/ ad illt Samtal spille goodum Sidum/ 1. Cor. 15. Og framar seger hann / ad þvilijkt ecke Christnum hæfe/ Eph. 5. Enn hvad er þad? Eckert annad enn ad sꜳ siste ecke Christenn / ad Postulans Doome/ sem ad kemur sier þvilijkt edur um̄ Hond hefur / Enn ef hann ecke Christenn er/ þa er hann ecke Guds Barn/ og hefur forbroted hans Nꜳd / og tapad Velferd Sꜳlar sinnar / nema hann ydrest af Hiarta/ enn forþienad ecke einasta Ad MYLNUsteirn HEINGDest Um HAAls HONum / Og YRde J SJAfARdiup SOcktur / Svo sem hier stendur i Gudspiallenu/ helldur og/ ad honum yrde i eilijfann Elld kastad: Og af þessu er nu audsært / hvad skielfeleg Hnꜳdung þad sie fyrer Gude og ollum Heidvirdum Monnum / ad hafa þetta Ofooma fyrer Smꜳ-Bornunum/ edur odrum Einfolldum / og draga þa med svoddann Hætte fra Gude under Satans Valld/ Hverutveggium bæde þm̄ sem hneixla / og hinum sem hneixladur er til eilijfrar Glotunar. Þeir eru og ecke Saklauser af þessu/ er hroosa vondum Verkum/ og þeim er þau i frame hafa/ forsvara þa/ og tala þeim alla Hlute til Umbootar/ þvi hier af leidest hinn Einfallde og Barned til ad giora hid sama/ og elska þad sem þad lofad heyrer af odrum sier Elldre og Vitrare / Þad er satt/ ad Manninn skal elska/ enn Verkenn hata / og færa alla Hlute a betra

fra Veg . Enn þvi skal eg lofa hann/ sem hafar Gud og gooda Sidur. Jafnvel þo margur kalle þad Næversku og Spaklynde/ ad giora þann enn/ Eg voga ad segia / ad þar er eingenn meire Drepsoott i eine Bygd edur Lande / Enn þeir Menn sem Ogudlega lifa og einkis sw fast hvad þr giora/ enn eru þo heidrader i Ordum/ og hvad þeir tala edur giora/ þad er teked svo sem af Himnum ofann komed/ og Jafnvel Klæker þra eru Dygder kallader . þesser eru eitt Aku-Mein alls Neidurlegs Afhæfes og goodrar Skickunar / Snara hins vonda Neims/ Taal-Fuglar Diøfulsens / Og svo eg þad i einu Orde sege/ þeir eru Meistarar til ad fordiarfa/svo sem Drottenn talar umm Babilon hia Ezechielem/ Þvi kalla eg þa litlu betre sem ala Osooma þra i sænqtu Nroose/ þo vil eg hier hafa fræskiled þann Neidur / er Menn eiga Balldstioornenne ad veita/ ecke einasta Goodum og Froonum/ helldur og Nreckvyssum / seger Petur . Og skrifad er / Nøfdingia þijns Lyds skalltu ecke Bøls bidia/ seger Paulus . Enn hitt Atiad er eg fyrer Skømmu umm talade/ þad orsakar stoort Hneixle / þvi þad er nockurskonar Kængdæme / og rietttæter hinn Kænglæta/ edur ad minsta Koste leggur vonda og gooda ad jøfnu. Nu er allt þetta illt sem allareidu er upptaled/ enn Kunstenn stijgur enn þa hærra upp i Diøfulsins Næskoola. Þar eru þeir sem ad hafa Balld yfer ødrum / Svo sem eru Foreldrar yfer Bornum sijnum/Husbændur yfer sijnum Þienurum/ Stoor-Nerrar og Magtar-Menn yfer þeirra Vnder saatum/ Nær þesser bioda eitthvad þad sem Ogudlegt er/svo ad hiner voga ei ann ad enn hlijda/ þad er eitt fullkomed Ofrijke og Yfergangur Satans i sijnu Rijke / svo baud Nebucadnezar sijnum Vndersaatum ad dijrka sitt Gull-Bijlæte/ Dan. 3. Svo skipade Jessabel ad utvega Falsvitne a moote Naboth. Svo baud Nerodias Dottur sine ad bidia umm Johannis Nøfud. Svo kem Jeroboam Israel til ad Syndga/ er hann baud ad dyrka þau Skurgodenn i Dan og Bethel : Og þo ad i øllu ødru sie Olijku saman ad jafna/ þa var siælfur David hinum lijkur i þvi / er hann liet slaa Vriam i Hel med Sverde Ammons Barna. Þessa Eptermynd høfum vier i Lands-Nøfdingium þeim/er bioda ødrum þa Nlute/ sem Gud hefur Andstygd a/ Mein-

sære/

fære/ Ofbellde/ Gripdeillder/ og i hvern hellst Maata/ sem þeir lecka þa edur hræda til ad vika Dioflenum/ eñ mootþægia Gude. A Husbændum/ er þeir giøra slijkt hid sama/ ad þvi Leite sem i þra Vallde stendur/ til Dooms : Nær þeir biooda þeim edur kæla þa til ad giøra ødrum Orett sier til Abata/ Ad forsooma Guds Ord og helgar Tijder fyrer sijn Eyrende / Ad hefna a einhvertium / er þeir þykiast eiga Neipker ad giallda/ edur ad þr bruka þa a einhvern Hatt til ad framkvæma sijnar Gyrnder/ þtta er eitt skadsamlegt Hneixle/Og hid sama er ad segia uñ Foreldrana/ edur adra þa/ sem yfer Børneñ eru settet / edur uñgaangast med þeim / og er þeim þo miklu meire Vande a Hende/ eñ øllum ødrum/ fyrst þess vegna / ad Forelldrarner eiga hina mestu Rætt a Børnunum ad hafa / og er þad Mæla sañast/ ad þeir eru fæster sem vilia þeim Illt giøra i Lijkamlegum Hlutum/ og sumer eru allt Ofhlijfner i þvilijku / sumer steypa sialfum sier til Helvijtis fyrer þeirra Skulld/er þeir safna þeim rangfeingnum Aude/og keña þeim ad giøra hid sama / Eñ trued mier / ad betra er ad giøra Barn sitt Arflaust ad Saklausu/ betra er ad slaa þad og lemia til Obroota / betra er ad myrda þad/ eñ ad hneixla med þvi/ ad vijsa þvi a nockurt Forræde/hvar af þvi kyñe ad orsakast einhver Sælar Vode/þvi allur Lijkamlegur Skade er Hiegoome ad reikna hiaa Meinum Sælareñar. Hin øñur Orsøk til þess/ ad oss er vandast vid Børneñ/ er su/ad þau eru hvad næmust a hid Vonda / og hvad þau ung numdu / þad verdur þeim torvelldara ad lææta nær þau dragast a Legg/og þvi tekur Frelsareñ þau til Dæmes hier i Gudspiallenu. Hañ virdte þau Blessadur svo mikels / ad hañ sagde : Leifed Børnunum til mijn ad koma. Hañ setur þau til Epterdæmis þm sm iñ vilia ganga i Guds Rijke/ Hañ took þau uppa siñ Armlegg / Hañ blessade þau/Hañ seger hier i Gudspiallenu/ Ad PEirra EJNGLar SJæe JAFNañ SJJNs FODurs ANDlit Sem A HJMNum Er : Meined þier ecke / ad hañ take þad sært / þegar þau eru hneixlud / er hañ svo miøg virder og elskar / þegar þau eru dregeñ fraa Himnarijke / sem eiga þess vissa Vona medañ þau þañeñ eru : Munu ei Guds heilager Einglar

 klaga

klaga þa sarlega/ þegar þra Niørd/er þeir eru setter til ad vakta/ þeg ar hun er svo illa utleiken / af þeim er sjøst skyllde / edur ødrum O'hlutvøndum/er vilia sem flesta jafnsvarta sier/ þvíad ef þar er Glede i Himnenum yfer einu Syndara Sem Ydran giører/ þvi skyllde þa ei Guds heiløgum Einglum lijka þad stoor-illa / nær svo er høndlad med þeirra Foostur-Børn / Þvi kan hver ein nærre ad gieta sem nockra Rækt hefur a þvi Barne / sem hønum er Asfoolged. Og þo nu Frelsaren tale sier i Lage um Børnen i Gudspiallenu/þa vited ad aller adrer eru þar inne falder. Gefed eingu neina Hneixlan/ seger Paulus: En sierdeilis eru þad þeir/ sem eru hans/ einkum Volader/ Einfallder/ og þr sem bera hns Kross/ þvi hn gefur þeim sømu Meining ar Nafn hia Matth.25. Þar hn kallar þa hina Minstu/ jaa/ þna minstu Brædur/ i sama Capitula/ þvi skulu vier nu vita/ad hin annar Maate til ad hneixla med Ordum/ er saa/ ad raada einhverium til nockrar Syndar / þegar han er Sorgfullur og Mootlættur / Jobs Kona seger vid han i hans stooru Mannraunum / bølvadu Gude / og far ad deya: Hene eru aller þeir lijker/ er raada Harmþrungnum Manneskium til ad leita Oleifelegra Medala / hinum Siuka til ad leita Fiølkinges Manna / edur bruka adra Hiaa-Tru og Afgudadyrkan / Hinum Fatæka til ad stela / edur vinna sier inn Fe med Prettum og Raangsleitne / þeim sem Orietten lijdur/ad hefna siaalfur sijn/en forsmaa Løgen/ og stela Hefndenne fraa Gude / Hafe nockur eitt Odaada Verk i Sinne/eins og Absalon / þa vantar ecke einn Achitophel til ad raada hønum ad kreinkia Fridlur Fødur sijns / 2. Sam. 16. Og nær Ammon lijtur Gyrndar Augu til sinnar eigen Systur/ þa verdur jafnvel hans Brædrungur Jonadab til þess ad gefa hønum Raad/til ad fremia sinn Ogudlegan Villa/ 2. Sam. 13. Eg vil ei tala um þa sem Fleka adra einfallda til ad giøra sier Selskap i þvi/ ad Fefletta adra/ til ad utsiuga Hus Eckna og Fødurlausra / til ad draga under sig annars Goods med Yfervarpe Laga og Rettinda: Eingenn hefur þa betur utmaalad enn Salomon/er hn seger/ Prov. 1. Son minn/nær Synduger Menn vilia locka þig / þa kom ecke / þegar þeir segia / gack med oss/ vier vilium

umsitia Blood/vier viliū umsitia hin Saklausa : Og skomu þar epter seger hañ oss hvada Tæl-Bita þeir bruke til sꝛoddañ Veida : Vier skulum finna allra Handa kostuleg Audæfe / vier skulum fylla vor Hus med Herfang/vier skulū aller hafa eiñ Siood. O ja/ þier Satans Einglar/ verda mæ þier hafed aller eiñ Stood i ydar Fodurs Ryke / sem er Høfdinge þessa Heims/Eñ svo munud þier og eiñ Stood hafa med hønum i hinu vellanda Dijke / þegar Guds Vesælingar lioma i Ryke sijns Fødur/ eins og Stiørnur Himens / þier munud seigia eins og Israel fordum/ nær þier fagned ydar rangfeingnū Aud: Þesse erū þau Laun er mijner Elskugar hafa giefed mier/Hos.2. Eñ nær þier uppvakned i Helvijte og Kvølunum med øllum þeim er þier leidt hafed til Sløkunareñar med ydar falskre Aeggian/ munud þier þa seigia : Þesse eru mijn Laun er mijner Elskugar Holdded/ Heimureñ og Diøfullen hafa giefed mier ? Svo er nu þetta hin Skadlegasta og Hnetyklanlegasta Tæl-Snara/ og þad þess helldur/ ad slijkt er hallded Framsijne og Skynseme af Børnum Veralldareñar. Meñ hneixla og siñ Naunga/ nær Meñ brigsla hønum um einhvern Hlut/ jafnvel þañ / sem ecke er i hañs Vallde/ Vm Fæfæke sijna/ um Fævitsku/um Lijkamans Skapnad / herma epter hønum og spotta hñ / Aller þeir ed svo giøra/ þeir ecke einasta hæda ad Skaparanum / helldur koma hin um til ad Syndga/ i þvi hañ reidest slijku/og leitast vid ad hefna sijn/ og fæe hañ ei Hefndeñe framkomed/þa hatar hañ þañ/sem hñ lijdur slijkañ Driett af/ Eñ Hatred er ein Synd/sem bañar Mañenum iñ i Himnarijke. Eg vil eñ framar segia : Hver sem brygslar einum um þetta Synd / hañ gefur stoort Hneixle af sier/ þvi Naatturañ er svo Illgiørn/ ad Sañendunum verda Meñ reidaster/ Eñ vier eigum ecke ad gefa Naunganum Orsøk til neiñrar Syndar / añars giøra Meñ sig Hluttakande i añarlegum Syndum/ og hver vill uppkelia allt þad sem Tungañ hneixlar med/ nær hun er upptendrud af Helvijte / seger Jacob. Eins vil eg geta ædur eñ eg skilst vid þetta Maal/sem er þad Satans Ide / er margur Gærungur brukar / ad spotta Guds Þioonustu/og hlæia ad þeim er hana ydka : Þetta er riett ad gabba Gud/og

hæda ad Christo i sijnum Pijslum / þvi svo sem ad hiner Ogudlegu Kiennemanna Høfdingiar/ med þeirra Hræduglegre medferd / leiddu þad Foolked sem Skømu ædur hafde sijn Klædebreidt a Vegenn/og kallad / Hosianna Syne Davids/þeir leiddu þad/ sege eg/ til ad hroopa litlu sijd ar/ Tak burt þenna/ og gef oss Barrabam lausann/ svo fyrerverdur sig margur Einfalldur og Istødulijtell/ þegar þr siaa/ad Christelegt Lijf- erne ablar þeim Haturs hiaa Mønnunum/og þetta er verra enn allt ann- ad/sem ædur er uppkaled/þvi nær Hneixled hefur þrijst einhverium til ad burtkasta Guds Otta/og lata meir ad Mannanna Dome enn Guds/ þa fylgia þar allar Skammer a epter/og þannenn verdur nu Hneixled med Ordunū. Enn med Verkunū skedur þad ecke minna : Vei HEIM- enum FYrer HNEIXLaner/seger Drottenn. Þetta VEI talar hann af Medaumkan/ alijka og þegar hann grief yfer Jerusalem/hvar fyrer? Þvi hn̄ saa/ ad þar VRdu Ad KOma HNEIXLaner/ Ecke af Guds Tilstille / hverium ecke lijkar Ogudlegt Athæfe / helldur af Heimenum/sm̄ ad liggur i hinu Vonda/ og hefur hanns Alvijsa Speke ad vijsu ennig lited til Illsku þessarra Tijma/sm̄ er svo mikil/ ad i Villu kynne ad leidast ef sie mætte iafnvel Utvalder. Nu kemur Hneixled af Verkunū. 1. Þegar Menn drygia Opennberar Skammer og Leste / sm̄ eru þvert a moote Guds Bode z Løgunum/ svo sem Okur/Ranng læte / Agyrne / Ohoof/ Ofmetnadur/ og þad svo Blygdunarlaust/ ad Menn ecke einasta fremia þad sialfer/helldur samsinna þm̄ ed þ giora / Þetta Eikur skadar med tvennu Moote. Fyrst/ ad þ leider bæde adra eins vonda/ svo og þa sm̄ af Natturunne eru þo ecke Illgiarner/til ad giora þad Illt er. Saa sem umgeingst med hinum Hallta/hann lærer ad halltra. Saa sm̄ gefur eina lioota Forskrift/hann velldur þvi/ ad annad eins liootl verdur epterskrifad/og Menn hafa allt ofmørg Dæme til þess/ad Almenningur lockast til ad giora þær Synder s̄ færster mundu giora, nema þr sæe adra giora þ þ sier/z ad þ være Sidvane z Tijdska Manna a medal/Enn a annann Veg hneixlast og þr sem Froomer eru og Radvander/ad þr verda Opolennmooder yfer slijku/ eins og Elias yfer Achabs Hüse, og Paall yfer Ranglæte Ananiæ Høfud-Prests/svo hn̄

rasade

rasade med Tungu sinne; ja/ þar kvíknar i þeim nockurskonar Leide z O-
skickanlegt Vandlæte/ svo þeir taka þad til Rads/ sem Gude er Styggd
i/ eins og Jonam hendte / er hann flude undann Guds Bode. Og enn
nu munu þeir finnast/ er leita svoddann Oyndis Urræda/ nær þr sia/ad
allt geingur Andhælis/ annadhvert ad þeir slaist i Selskap med þeim/ er
þanenn breyta / edur ad þeir yfergefa siælfa sig og Skylldu sijns Em-
bættis. A øllum er þetta Hneixle Skadsamlegt/ enn þo hvad mest a
þeim/ sem eru Mæls metande og bodner yfer adra. Kiennemennerner
hneixla / nær þeir giøra allt annad enn þeir Predika / svo ad þegar Al-
mugenn ser Kienninguna samann vid Lifnadenn / þa verdur Þioonustu-
giørdenn løstud / og þeir fallast miklu helldur a þad / er þeir sia fyrer
Augunum/ sem er ein þeigiande Predikun/ helldur enn þad þeir heyrdu
med Eyrunum/ þvi bæde gleymist þad fliott/ og þyker eingenn Alvara/
nær þvi et hvad siist epterfylgt af þeim/ sem þad hellst ætti ad gio-
ra/ þvi ecke eru aller þr ed giort geta þ/ sem Frelsarenn bijdur/ ad hlijda
þvi er þeir tala / sem sitia a Moysis Stoole / enn breyta þo ecke epter
Giørningum þeirra. Enn hvad verdur þa? Þad sama sem Frelsar-
enn seger/ er hann kallade Læresveinana Sallt Jardar : Enn ef Sallted
skemmest/ i hveriu verdur þa salltad? Matth. 5. Og ef Guds Þienarar
lifa illa/ hver er Von a þvi/ ad Tilheyrendurner giøre þad betur? Nid
Veralldega Valld hneixlar stoorlega / nær þeir dæma rannglega / ta-
ka Fe til Dooma/ umm hverfa goodum Løgum og giøra Rettenn ad Mal
urt / svo sem Spamadurenn ad Orde kemst / taka ranga Eyda vijs
vitande/ Tradka Mælum og draga þau/ til ad þreyta þann sem Ran-
gindenn lijdur. Af øllu þessu frammkemur eitt skielfelegt Hneixle / þvi
þad elur Ofooma upp i Skælkenum / og venur hann af ad hrædast
Løgenn / enn tekur allann Dug fra hinum Frooma/ svo hann verdur hin-
um ad Brad edur og ad hn tekur þad Orad/ ad ræna Riettenn sijnum
Rette/ og hefna siælfur Vanvirdu sinnar. Og frammveigis skedur þtta
Hneixle/ nær þr s Tølldenn hafa/ brioota siælfer Løgenn hvad mest: Eru
Lauslæter/ Ofrædvander/ Agiarner/ svijkia Daglaunarann/ fleka Eig-
ur sijnar ut af hinum Einfallda/ eru Barattusamer/ Ofbelldner/ z frem-

ia allrahanda Skam̃er & Ohæfu / er þeir straffa a ødrū/ svo sm̃ være ecke Løgmæled giørt nema fyrer Almugañ. Forelldrar og Hus-bændur hneixla Børneñ og Hiueñ / ecke einasta nær þeir leggia ein-hveria Synd i Vana siñ/helldur og fremia eckert Gott/eru tomlæter i ad heyra Guds Ord / Yfervalldenu Ohlÿduger/Later/Hyrdulauser/ Reidegiarner/ og lifa i þvilÿkum Syndum / þvi þa meina hiner ad ei sie sier Vandara / & ꝥ heiter riett ad Hneixla Christs Hina Smæu / svo sem hier stendur i Textanum. Hiner Rÿku-hneixla hina Fatæ-ku / nær þeir lifa i allskonar Ohoofe/eñ hiner svellta. Fatæker hi-na Rÿku/nær þr fara illa med Olmusuna/ og eru Opacklæter / gefa svo hinum Orsøk til ad hallda þvi iñe / sem añars ætte ute ad læta: Og þar Verølldeñ er nu full af þessu / þa er ei Undur þo Frelsareñ sege: VEI Sie HEimenum FYRer HNeixlaner. Framvegis rÿs þar a stundum Hneixle af þeim Hlutum / sem hverke eru gooder nie vonder i sialfum sier/eñ verda þo ødrū til Hneixlis: Eg vil taka þad til Dæmis/ad a St. Pals Døgum leifdest allañ Mat ad eta a med-al Christeña/ eins og nu i vorre Kyrkiu/ Sæ sem æt allañ Mat/ og hiñ/er hiellt sig fra sumū/Bæder voru þeir Gude eins kiærer/og hver-ugur vill hañ ad añañ dæme / þo seger hañ: Ef ad þiñ Brooder hryggest vegna Fædslunar / þa geingur þu ecke epter Kiærleikanum / Tortyn hønum ecke med Fædslu þiñe / fyrer hvern Christur dæeñ er / Rom. 14. Þo nu lÿted þyke i þetta spuñed/ þa metur Postuleñ þad svo mikels/ ad hañ helldur þad kuñe ad verda einum til Gløtunar/sem Guds Sonur hefur þo Endurleyst/og hañs dÿra Blood svo til Onÿtt-is a hønum/Þvi seger hñ og i ødrum Stad: Vissa eg ad miñ Brood-er Hneixladest / skyllda eg alldrei Kiøt eta. Þvilÿker eru nu marger Hluter medal vor/svo sm̃ er ein & øñur Siergiæde i Umgeingne/er vier køllum Affarasnid a vora Tungu/ eitt og añad Latgiæde þeirra/sem añadhvert i Klædaburde edur añare Hegdan vilia vera ødruvÿse eñ adrer Meñ / hvad jafnvel sumer af oss bruka a Helgum Tÿdum/ nÿ-ar Uppafindingar i ymsum Hlutum / sem ecke eru verre eñ hid gamla Skick / ecke helldur betre / og añad þvilÿkt / sem Adgiætner Meñ fæ

vel

Synda Saud og Pening/ er hañ mlykkar med þessu Orðu : Svo sege eg ydur/ ad meire Glede er i Himnenu yfer einum Syndugu sem Yðran giører/helldur eñ yfer Nyu z Nyutyu Riettlætum: Nøllðum þvi þad fyrer satt sem Johañes seger/ 1. Pist. 1. Cap. Ef vier jætum vorar Synder/ þa er hañ Trur og Riettlætur/ad hañ fyrergefur oss Synder var/z hreinsar oss af øllu Ranglæte voru/ Svo voru Myskunar Ydur DRottens vidkvæm/er hañ leit Eymd þessa vesæla Mañs/ad hañ sa strax Aumur a hønum. O þu Guds Barn/villtu þa efast um / ad hañ hrærist Myskunar yfer þier / þegar þier taka til ad svijða þijn Andleg Kaun / þegar þau funu Sareñ taka til ad lifna/ og þu tekur til ad Andvarpa i Leinum / segiande : JEsu Goode Meistare/ Myskuna þu mier. Hvad seger JEsus hiá Lucam / Cap. 11. Ef ad þier sem Vonder erud / kuñed ad gefa Børnum ydar goodar Gafur / hvad miklu framar mun ydar Himneskur Fader gefa þeim Heilagañ Anda / sem hañ þar um bidia / Þvi vil eg i fullu Trauste segia/ þegar þu audmyker þig under Volldugar Guds Hønd / og bidur af Hiarta um Fyrergiefning Synda þiña / Þa mun hañs Ande bera þijnum Anda Vitnisburd um/ ad þu sert Guds Barn/ Rom. 8. Þvi jafnvel þoott vier sieum Otruer / þa er hañ samt Trur/ Siælfum sier kañ hañ ecke ad neyta/seger Paulus. Nu er þad satt/ Br. M. ad Sañydrande Mañs Tru verkar svo mikeð hiá Gude/ sem nu hefe eg sagt/ eñ hañ a þa ad vera viss um þad / ad hañ sie bæde Sañydrande og Riett-truadur. Margt er sagt med Skylldum/segia Meñ i Ordtake gømlu/ Eñ Trueñ og Ydruneñ eru Tvær Systur/ er ei meiga skilia/ eins og þad / ad su Ydran er Onyt i Guds Auglite/ sem ecke þvingar Mañeñ til ad Krossfesta sitt Holld/ svo er og Trueñ daud án Verkaña/ seger Jacob/ og Pall seger / Ad su Tru alleina gyllde / sem ad er kroptug fyrer Kiærleikañ. Med Truñe fornfæra Meñ Gude sijnu Vitsmunum/ og giefa sijna Skilningu fangna under hennar Hlijdne : Med Ydraneñe Offra Meñ Vilianum / ad hañ sie Guds Bode undergiefeñ. Trueñ giører oss ad Guds Læresveinum : Ydraneñ ad hañs Þioonum. Trueñ upplijser vort Hiarta i Skilninge vorra Sæluhiælpar Efna :

eñ ydraneñ/ Ef hun er alvarleg / hun þrýster oss til ad giøra Guds Vilia/og alla Skylldu christens Mañs. Svo sem þad er ecke noog/ad ydrast um̃ Stundarsaker/ z gánga aptur til ad drygia sømu Synder / svo er þ ei helldur fullur Christeñdoomur/ad trua um̃ hrýd/eda giøra Avøxt Truareñar / eñ falla þo fra a Tijma Freistingareñar: Være þad nog til Sæluhiálpar ad byria vel/ þa sate Bileam hætt i Himina rýke / og ef ei þyrfte ad vaka og bidia / þa hefdu hinar Fávýssu Jomfrurnar ecke vered utelokadar. Þad er skemtelegur Draumur/ad ætla ad Gud mune tilreikna sier Forþienustu Sonarens / eñ vilia þo eckert giøra af þvi sem Gud boded hefur ; Miøg svo er eg uggande fyrer þvi/ ad sa sem geinged hefur i þvilijkre Leidslu allañ siñ Alldur fram i Daudañ/ hañ mune uppvakna i Helvijte og Kvølunum / þvi jafnvel þoott ad Goodverkeñ vor / ef nockur svo kallast meiga / þau sieu ecke Mackug til ad giøra oss hoolpna / þar vier erum skyllduger ad jata / ad Onyter Þioonar sieum vier/ Jafnvel þo vier giørdum allt þad vier ættum ad giøra/ Samt eru hin Vondu noogu kroptug til þess/ ad fordæma oss. Eg veit ad søñu/ad þetta kañ ad stutla margañ mañ/sem mikeñ Part Æfe siñar hefur i Illskuñe aled/ eg fæ ecke vid þvi giørt/ þetta eru þo Gudleg Sañende/ og ecke er Von a ødru/ eñ ad syndugs Mañs Hiarta mune kieña til / þegar Broddur Løgmálsins tekur til ad stijnga a Kauninum/vel sie þeim er svo eru vidkvæmer/ad þeir fiña til Sarsaukans/hiñs er ølluñ midur fared/er ei kieña til Guds Strøffunar/ecke til Løgmálsins Hookana/ og ecke til Helvijtis Ellds-Loga/ hvern þeir forþienad hafe/ um̃ hveria þad seigia má/ sem Jeremias sagde um̃ Gydinga: Þu kyptar þa DRottenn/ eñ þr fiña þar ecke til/ hverra Samvitskur ad Paall seger ad sieu Breñemerktar. Eñ hiñ/ sem ad søñu Oguðlega lifad hafa/ eñ láta sig þo ángra sijnar Synder af Hiarta/og vilia þar a Boot viña/ þm̃ vijsa eg til þeirra Lijknar Orda/er DRottenn talar til Syndugra Mañá/ Es. 1. Þvoed ydur/ Hreinsed ydur / Taked ydar Illskubreytne fra mijnu Auglite / komed sijdañ og eigumst Løg vid/ þoott ydar Synder sieu raudar sem Blood/ þa vil eg giøra þar hvijtar sem Ull. Þu þeinker kañske i Hiarta

þijnu/

Þijnu / Eg em i Syndenne gietenn og fæddur / hvernig man eg Gude þocknast: Enn giæt þess / ad þinn Endurlausnare / sem er Gud blessadur umm allar Allder / hann er fæddur af Fedrunum epter Holldenu / hreinn og Heilagur og fraskilenn Syndurunum: Þu ert Syndugre enn adrer Menn / Christur er heilagre enn aller Menn / hann er Forlijkun fyrer þijnar / og ecke Einungis fyrer þijnar / helldur og fyrer allar Veralldarennar Synder: Þu getur ecke aldeilis af Syndenne læted / svo þ Vonda lode ecke vid þig / þa þu villt giora hid Gooda / þad gat ei helldur St. Pall / samt feck hann þad Svar af Gude / Lat þier nægiast mijna Nad / minn Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum: Þu syndgar optlega / Christur bidur fyrer þier Oaflatanlega: Þijnar Synder eru þier yfer Hofud geingnar / samt yfergnæfer þo Nadenn miklu framar: Þig henda optlega somu Synder / Sporna vid þeim sem mest þu mætt / svo ad þær drottne ecke i þijnum Daudlegum Lijkama / enn vit þo / ad JEsus hefur bored uppa Treed þa Handskriftena / sem moote þier var / og hana a Krossenn neglt / þar er eingenn af þinum Skulldunum eptirskilenn nie Olokenn / enn bruka þa slijkt til ad afplana giordar Synder / enn ecke til Frelsis ad drygia þær framveigis: Þu þyckest eckert Verk Gudrækneligt fullkomed giort geta / þesse Medkenning þijns Overdugleika er Verk Heilags Anda / þvi bidur hann fyrer þier med Oumrædelegum Andvorpunum / og hialpar þijnum Veikleika. Þu hefur allann þinn Alldur i Illskunne aled / og ert adkomenn Dauda / hafande eckert gott Verk Gude ad biooda / þoott þu hefder / mundu þau kunna ad Rettlæta þig? Hvad hafde Tollheimtumadurenn? Luc. 18. Hvad hafde Ræningenn a Krossenum? Luc. 23. Hvad hafde Þrællenn / sem var sijnum Herra skylldugur umm 10000. Punda? Matth. 18. Samt uppgaf Herrann honum alla Skulldena. Þijn Trua tekur til ad veikiast i Daudanum / þa Lijkamans Kraptar eru ad Þrotum komner / og meiga valla taka a moote Daudans Ofbode / mundu þa til þess / ad Guds Sonur hefur Daudann sigrad / þad skal skie / ad hver sem truer a hann / sa skal lifa jafnvel þott hann deye / Joh. 11. Lat þier þa i Hug koma hvad Fader hins Tunglsiuka sagde / Herra / Eg true ad sonnu /

enn

eñ himlpa þu Truarleysu minne. Ein veik Tru er þo Tru / Eitt Ellds-Neiste er þo Elldur / Ein lijtel Perla glansar svo sem ein Perla / Eins skijn ein veik Tru i Augum Guds svo skiært / svo sem þo hun være sterkare / þvi Truen er ecke vort Verk / helldur hans Anda / þar fyrer beiddu Læresveinarner DRottenn ad auka sier Truna / Ꝥ Lærum vær han rænda Mælingu hennar / hann mun ecke sitt eiged Verk Ovirda / enn lærum þo ecke af ad næra hana med ydugleg:e Bæn og Andvarpan. Lutherus seger i einum Stad / ad einginn verde Fordæmdur / nema sa sem ei vill trua: Þad er satt / ef þ er riett skilid / þvi sa vill ecke Ølmusu ha fa / sem ecke vill um̃ hana bidia / svo vill og ecke sa trua / sem ecke bidur Gud ad skapa hreint Hiarta i sier / og giefa sier nyian vissan Anda / enn hitt er vijst / Ad ein veik Hønd tekur eins vid Ølmusu / svo sem ein Fullhraust / og eins vel um̃fadmar ein veik Tru Christs Forþienustu / svo sem ein fullørugg / þvi Guds Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum / og eirn Veiktruadur man um̃ sig segia eins og Paulus / Eg formä alla Hlute fyrer hann / sem mig mattugann giører / Christum / þvi þa eg Breiskur er / þa er eg Mattugur / þo ebldest svo DRottens Kraptur med hønum / ad hann hroosar þvi under sijna Foornfæringu / ad hann hafe goodre Baraattu barest / Skeided fullkomnad / og Truna geymt / og framveigis sie sier afløgd Corona Riettlætesins / hveria DRottenn hinn Riettlaate Doomare mune giefa sier a þeim Deige / og ecke einasta sier / helldur jafnvel øllum þeim hans Tilkomu elska. Hennar mookande ad verda / unne oss hinn goode Konungur Lijdarennar / fyrer

JEsum Christum / AMEN.

## Tuttugasta Suñudag epter Trinitatis.

### Gudspialled / Matth. 22. Cap.

A þeim Tijma. JEsus svarade og talade i annad sinn i Epterlijkingum til þeirra / og sagde: Himnarijke er lijkt þeim Konunge / sem Brudkaup giørde Syne sijnum. Og utsende sijna Pioona ad kalla Bodsmennena til Brudkaupsins / og þeir villdu ecke koma. J annad sinn sende hann ut adra Pioona / og sagde: Seiged þier Bodsmønnunum: Sioed / Mijna Maaltijd hefe eg til bued/

bued / mÿner Uxar og aled Fe er slatrad / og allt er reidubued / komed til Brudkaupsins. Enn þeir forsmaadu þad og geingu i burt / einn a sinn Bugard / enn annar til sinnar Verslunar / enn hiner adrer gripu hans Þioona / og lögdu þeim Hædungar til / og dræpu þa. Enn þa Kongurenn heyrde þetta / vard hann reidur / og sende ut sitt Herlid / og fyrer foor þessum Mordingium / og brende upp þeirra Borg. Þa sagde hann til sinna Þioona: Brudkauped er ad sønnu reidubued / enn þeir sem bodner voru / þeir voru þess ei verduger. Þar fyrer fared ut a Gatnamootenn / og biooded til Brudkaupsins hverium sem þier finned. Og hans Þioonar geingu ut a Strætenn / Og samansøfnudu øllum þeim sem þeir fundu / Vondum og Goodum. Og Brudkauped vard fullt med Bordsett Foolk. Enn þa ed Kongurenn gieck inn ad sia þa sem til Bordsins satu / Sa hann þar einn Mann / eige klæddann med Brudkaups Klæde. Og sagde til hans: Vinur / hvørnenn giecktu inn hyngad / hafande ecke Brudkaups Klæde? Enn hann þagde. Þa sagde Kongurenn til sinna Þienara: Binded hans Hendur og Fætur / og kasted hønum ut i hin ytstu Myrkur / þar ed vera mun Oop og Tannagnistran. Þviad marger eru kallader / enn fáer Utvalder.

## Exordium.

Hver ad sie Meining þessarar føgru Epterlykingar / sem DRottenn hier framm setur / Þad er audrædeð af ødru Guds Orde / og þo sierdeilis af Predikunum hans / sem annarstadar ritadar finnast i Gudspiallaa Bookunum / ecke sydst af þeirre umm Verkamennena / sem leigder voru i Vyngardenn / hia Matthæum i 20. Cap. Og hinne umm þa miklu Kvølldmaaltyd / sem er ad finna hia Lucam i 14. Cap. Umm hverjar bæder nockud hefur talad vered hier ad framann. Konungurenn er hinn Alvallde Himens og Jardar Konungur / Hans Sonur er DRottenn JESVS / sialfur Konungur / ecke einasta epter Guddoomenum / helldur og Manndoomenum / þvi Gud hefur sett sinn Konung yfer sitt heilaga Fiall Zion / Psal. 2. Jafnvel þoott ei være hans Ryke af þessum Heime / og allt Vald er hønum gefed / bæde a Himne og Jørdu / Dan. 7. Matth. 28. Brudkauped er hans Holldtekia / og allar þeir Velgiørningar / er i henne framboodner verda øllum Mannkyne / enn veitter þeim einum / sem trwa a Nafn Eingetens Sonar Guds. Hiner fyrstu / sem boodner voru / eru Gydingar / hverium framar ødrum var booded til þessa mikla Brudkaups / enn þeir forsmaadu þad / svo sem Paulus og Barnabas vottudu / Act. 13. Segiande: Til ydar byrtade fyrst Guds Ord ad tala / enn fyrst þier forsmaaed þad / og reikned ydur ei verda eilyfs Lyfs / þa snuum

vier

vler til Heidinglanna. Sumum bægdu Verralldar Vmsvif fra þessare Guds Giøf / svo sem af Gudspiallenu er audsært. Hiner gripu hans Þioona / løgdu þeim Hardingar til / og Afliifudu þa: Þeirra giætur Frelsarenn / er hann sagde vid Gydinga: Hvern af Spamønnunum hafa ydar Fedur ecke Lijflated? Og yfer þa er geinged þad skielfelega Straff / sem hier um giætur i Evangelio: Fyrst / þegar Nebucadnezar Eydelagde hina fyrre Jerusalem / og sydann yfer Børn þeirra / sem ad uppfylltu Mæling Fedra sinna / er hun var uppbrend og ad Stein-Hrwgu giørd af Tito Vespatiano / og alldrei uppbygd sydann. Hiner / er sydann voru kallader / eru Heidner Menn / og medal annara Forfedur vorer / þad Foolk / sem i Myrkrunum sat / Eph. 5. og er innplantad i Stadenn Gydinga / sem afbrotner voru / Rom. 11. Enn vier heyrum i Gudspiallenu / ad til þessa Brwdkaups er safnad Vondum og Goodum / þvi seiger og Paulus / 2. Tim. 2. ad i stooru Hwse sieu ecke einungis Ker af Gulle og Sylfre / helldur og af Tre og Steine / og sum til Heidurs / enn sum til Vanheidurs / Enn ef nockur hreinsar sig af þessu / þa mune hann verda Ker til Heidurs helgad / og sialfur Lausnarenn endar þessa Epterlijkingu med þeirre dyrmætu Grein / Ad MArger SJeu KAllader / Enn Fæer VTvalder. Hvar af liooft er / ad þeir eru ecke aller Christs Þegnar / sem nefna Christum sinn Herra / Til hvers hann bender oss med Dæme þess Manns / er kom til Brwdkaupsins / ecke skrijddur Brwdkaups Klæde / Af hverium eg vil taka mier Orsøk til / ad tala um þa Hlute / hvar af einn og sierhver meige þeckia sinn Bwning / hvert hann sie hæfur til ad byrtast fyrer Konungenum / nær hann geingur inn ad sia Bord-Gestena.

Þu Alvallde Konungur [illegible] / sem villt / ad aller verde Hoolpner / og komest til Sannleikans Vidurkienningar / Veit oss þyns Anda Nad til þessa Verks / J JEsu Nafne / AMEN.

## Vtleggingenn.

ENN þEGar KONungurenn GECk Jnn / AD Sia þa Sem Til BORDsins Satu / Sa Hann þar Einn MANN / EJge KLÆDDann BRVDkaups Klæde / seger i Textanum: Hvert ad sie þetta Brudkaups Klæde / er audvitad / þad er sialfur Christur / z hans Riettlæte med Trunne høndlad / þvi fagnar hans Christne / hia Esajam Cap. 61. segiande: Eg gledst mikelega / og mijn Sala fagnar i mijnum DROttne / þvi hann hefur klædt mig Bwninge Hialpræde sins / og med Klæde Riettlætesins hefur hann huled mig / eins og einn Brudguma i Kiennemannlegum Skruda / og eina Brude Jklædda Skarte sijnu: Þetta er augliooft af sialfre Epterlijkingunne. Hvar fyrer var þessum Vesæla Manne kastad i hin ytstu Myrkur? Af þvi / hann var ei skrijddur Brudkaups Klæde. Hvar fyrer verda hiner Vantrudu fordæmder? Af þvi / ad þeir trudu ecke a Nafn Eingietens

Ll 2 Sonar

Sonar Guds. Hvar fyrer sækku ecke hiner ødrer þvilijkre Refsing? (Þvi um̃ hañ eiñ verdur gieted) Fyrer þvi / ad þeir voru Kládder hi-nu rettta Brudkaups Skarte. Hvar fyrer verda Blvalder iñleidder i Fognud sijns Herra? Mun þad skie fyrer þeirra eigeñ Riettlæte? Fiarre fer þvi. DRottteñ / ef þu villt tilreikna Syndernar / hver fær þa stadest / seger David / Ps. 130. Eingeñ lifande Mañ mun Rett-lætast i þijnu Auglite / seger hañ / Hvar fyrer er þad þa? Af þvi / ad þeir trudu a hañ / sem Rettlæter Ogudlegañ / seger Paulus / Rom. 4. og þvi kemur hañ ecke til Doomsins / seger Frelsareñ. Sæll er sa / hvers Synder huldar eru / seger David / Ps. 32. Eñ med Klædunum verda Lyteñ huleñ / Eins vor Andleg Blygdan / med JEsu blessudum Riettlætis Skruda / þess getur hañ sialfur i Opeñberunum Johañis / talande vid Biskupeñ i Laodicea / hvern hañ nakeñ kallar / þar hañ rædur hönum / ad kaupa af sier Gull þad sem̃ i Elldе er reynt / ad hañ rijkur verde og klæddur hvijtum Skruda / svo ad Blygdan hañs Fat-leysis ecke Opeñberest / Apoc. 3. Nádar stooleñ hulde fordum Daga Sattmaals Ørkena / J hverre Logmaals Toblurnar geymdar voru / Þu JEsu / þu ert eiñ Nádar Stooll i þijnu Bloode / Rom. 3. Fyrer þitt Sakleyse / O Herra / sem Logmaaled uppfyllt hefur / eñ varst þo a moote Logmaalenu dæmdur / fyrer þad eru huldar allar vorar Synd-er / sem moote Logmaalenu giordar eru / þegar vier a þitt Nafn tru-um. Hvad mun eg ætla til þess / ad eg Syndugur Ormur i mijnum eig-iñ Klædū byrkast kuñe i þijns Himneska Fodurs Auglite? Hvad mun eg vilia koma fram̃ med þad / sem er eins og Nidlags Fat? Hvad mun eg biooda þad fram̃ sem er Hálfverk? Eg hrædest øll mijn Verk / sagde hiñ Riettlaate Job / og þvi mun eg ætlast til þess / ad mijn sieu betre? Hvar fyrer mun eg vilia baka þañ fagra Kyrtel / er þu mier gef-ed hefur / med mijnum Tøtrum? Mun eg heilagre eñ Josua hiñ Ædste Prestur / er stood i saurugū Klædum fyrer Engle hins mikla Rꜳds / Zach. 3. Svo mun best fara / DRottteñ miñ / ad bæde eg og adrer Synduger Meñ moote þeirrar Nꜳdar / sem hañ nout / ad þu burt taker vort Rangløte / og skipter um̃ Klæde vid oss. Svo er nu þetta

Brud-

Brudkaups Klæde eckert añad eñ Rettlæte JEsu Christi med Truñe medteked/ Þvi Jklædumst vier fyrst allra i Skijrneñe/ Þss getur Paulus/ segiande: Þier erud aller Guds Børn fyrer Truna a JEsum Christum/ Þvi hverier sem uppa Christum skijrder erud/ þier hafed Jklædst Christo/ J heñe verda oss Syndernar fyrergiefnar/ ecke einasta Uppruna Syndeñ/ helldur eigum vier/ i Krapte heñar/ Fyrergiefningar Von/ um alla Æfe vora/ a Gioranlegum Syndum/ nær vier leitum heñar Riettelega/ þvi kallar Petur hana Sattmaala goodrar Samvitsku/ Þvi eingeñ kyñe um Eitt Augnablik Roolega Samvitsku ad hafa/ nema hañ visse sier Kvitkunar Von Synda siña. J heñe verdum vier Guds Børn/ J heñe medtøkum vier Heilagañ Anda/ sem Þa alla Endurnyar/ fyrer Krapt Endurgetningareñar/ sem ecke mootstanda honum nie slockva hañ/ Þvi er sa Rettelega skrijddur Brudkaups Klæds/ sem Endurgeteñ er af Vatne og Anda/ ef hañ ei spiller aptur siñe Endurgetningu/ eñ Þad verdur mørgum/ Þvi midur/ og Þar fyrer er Skyrneñ ecke Einhlijt til Þessa Buunings/ nema ad heñar Kraptur auglijse sig i oss/ nær vier drøgumst a Legg/ og lærum vorn Christeñdoom/ og er Þad fyrst i Þvi Jñefaled/ ad trua Rettelega a Gud/ hvad ed skiedur med Tveñu Moote. Fyrst ad hafa saña Þeckingu a honum/ hañs Stoormerkium/ hañs Velgiorningum/ sem oss verda i Ordenu frambodner. Añad er Þad/ ad vier treystum honum/ elskum/ og virdum/ fram yfer alla Hlute. Hvad Þvi Fyrra vidvijkur/ Þa er Þad vijst/ ad i Skijrneñe fæum vier Gude og øllum hñs Stoormerkium/ Þar til Skulldbundu oss vor Gudfedgin med siñe Jatningu/ Eñ hvad stodar oss su Jatning/ nema vier lærum ad Þeckia hañ er vier jatadum/ hañs Almætte/ hñs Gcountrgyrne/ hañs Riettlæte/ hañs Elsku til vor/ og hvad añad sem hañ hefur i sijnu Orde Openberad oss til Sæluhiælpar? Þetta vil eg bidia Þa ad Hugleida/ sem añad hvert siælfer vited edur eckert vita i sijnu Christeñdoome/ svo sem vila hvorrar/ edur forsooma ad kieña Þad sijnum Børnum og Hiuum/ jafnvel Þott siælfer nockud vita merge. Hier skiedur i Gudspiallenu/ um Þa sem forsmaadu Konungsins Bod/ eñ geingu i burt/ Eiñ a siñ Bu-

gard/eñ Akar til sitiar Spyslanar/ad þeir hafe þsſ ecke verduger vered; Seged mier þa i Guds Nafne/ seged mier/ þier sem allareidu erud kall⸗ ader/ og til Bords setster i Konungs⸗Stofuñe/ munud þier þvi fyrer hlýta/ ad þier erud þar Einuñie Innkomner? Munud þier byrkast i þvi saña Brudkaups Klæde/ er þier læted Veralldlegar Spyslaner/ sæ/Giælyfe og vondañ Selskap draga ydur fræ Gude og hañs Christs þeckingu? Hversu margir eru Bordgester erud þier vid DRottens Kvolld mæltyd/ nær þier edur ydar Børn vita eingañ Greinarmun ad giora Lykama Drottens og añarrar Fædu/ecke ad Reyna nie Proofa siælfa sig/og ecke ad Rañsaka Hiarta/ hvert þier sieud i Truñe. O Vei/ O Vei/ hversu lyktt eru Meñ þa til Brudkaupsins buner? þad heit⸗ er med Rettu/ad hafa Altared til ad Syndga/ svo sem DRotteñ ad Orde kemst fyrer Spamañsins Muñ/ um Afgudadyrkanena i Juda: Vier keppumst vid ad bua oss i Skart/ nær vier hallda vilium Mæñing DRottens Dauda/ og svo er Heimskañ ryk i oss sumum hverium/ ad sæ sem ecke hefur siælfur/ hañ lænar af ødrum/ hvad ad sofu er Vytalaust i siælfu sier/ Eñ Gud nade hvad lyted Sumum mune um⸗ hugad vera/ ad byrkast i JEsu Christi dyrmæta Rettlætes Klæde/sem utvegad verdur med sañre Ydran/stødugre Tru/og Asetninge Christe⸗ legs Lifnadar. þar fyrer/ Christner Meñ/ Læred ad þeckia Gud og hañs Skoormerke/ Læred ad þeckia siælfa ydur og ydar Overdugleik/ Læred ad þeckia Guds Vilia af hañs Bodordum/ svo þier og þeckia meiged/ hvad mikeñ Skort þier hafed a þre Nroosan/sem fyrer Gude gyllder. Hiñ Akar Partur vorrar Jætningar er sæ/ ad vier lofum ad treysta Gude/ og reida oss uppa hañs Fødutlega Giæsku og For⸗ siæ/bæde i Medlæte og Mootlæte/eñ af þssu ber æred miøg hiæ møtg um hverium/ sem þo meinar sig velbueñ i Lambsins Brudkaup/ J Medlætenu treistum vier uppa siælfa oss sumer hverier/ uppa Aud ϋorn og Metord/ uppa Vine og Høfdingia/ eñ ecke uppa hañ/sem er DRotteñ alleina Rykur. Konungureñ af Tyro sagde i Hiarta synu: Eg er eiñ sterkur Gud/ Eñ DRotteñ seger hønū/ muntu segia vid þañ Veganda: Eg em sterkur Gud? Og þo treista Meñ uppa svodd

añ

añ eina Vatns-Boolu framar eñ a Jørd/ sem øllu rædur bæde a Himne og Jørdu/ Hvar er þa Traustid? Hvar er þa Truen/ sem Meñ eiga a Gude ad hafa? Munu þesser vera hentuger Giester i Christi Brudkaups Stofu/ Er sagt hefur/ Hver sem til mijn kiemur/ og ei hatar Fødur og Moodur / Konu og Børn / Systur og Brædur / og jafnvel sijna eigeñ Saal/ hañ getur ei vered miñ Læresveiñ: Meñ standast ecke Reide-Svip eins Veralldar Høfdingia/ er Meñ svo kalla/ þegar þeir ygla sig/ þa eru sumer Meñ buner til ad giora allt hvad þeir bioda/ og jafnvel hinar versstu Skam̄er og Klæke i giegn Gude / eñ hañ Ottast þeir ei / i hvers Hende ad øll Veralldarenar Magt er eins og ein tijdande Poka / og þo vilia Meñ Christner hetta / þo ætla Meñ sier med þvilijku Skape i Lambsens Brudkaup iñ ad ganga / med þeim Guds Nefnum / sem jafnvel ecke sitt Lyf elsku alle i Daudañ / þar fyrer hafa þeir nu fangad sitt Skruda i hañs Bloode. J Mootlætenu eru Meñ ecke einasta Opolenmooder / sem jafnoel Guds Børn hender/ helldur Moglunarsamer mote Gude/ kalla sier Orett giordañ/ Örvanta hañs Adstodar/ grypa til þra Rada/ sem hañ bañad hefur: Og i einu Orde ad segia/ Kasta i burtu Truñe a hañ/ og briooka Oked i sundur. Fiñe Meñ nu eitt hvad af þessu hia sier/ añad hvert/ ad þa vante Naudsynlega Þeckingu a Gude og sinnu Saaluhialpar-Efnū / og hañ hyrder ecke um̄ ad rada Boot þar a/ sem best hañ kañ/ edur hañ Ottast nockra Veralldar Magt/ Vinsælldu edur Velgeingne/ eins mikid og Gud/ þa drage eingeñ sialfañ sig a Taalar/ edur meine þad hañ sie Rett-truadur/ þoott hañ skyrdur sie/ þoott hañ sie Bordgiestur DRottens i Heilagre Kvølldmaaltijd / og fylger þad þa epter / ad hañ ei er skrijddur Brudkaups Klæde / a medañ hañ er svo buen. Take eingeñ svo Ord mijn / ad eg meine þoott einhvern kune nockud af slijku ad henda / ad honum þar fyrer eige strax ad kasta i hin ytstu Myrkur. Grafska DRottens er Þolenmoodare yfer Syndum vorum eñ svo/ þad sijna oss Dæme hiña mestu Syndara / sem þo hafa adur haft fulla Guds Þeckingu/ svo sem Aarons/ Davids og Peturs/ eñ hitt sege eg/ ad Meñ skule ecke bruka þessa Guds Nad til ad ala Syndena og

hetta

hefe: Eg sagda fyrer skømu/ ad i Skyrneñe værum vier fyrst Iklædder Brudkaups Klædenu / Eñ Gud næde / ad þar fellur svo optlega Blettur a/og svo akast þad i Forødum Veralldareñar/ ad þad valla þeckest a stundum / eñ þad a burku ad þvo med heitre Ydran og hañs Forþienustu/ sem hrein giører Børn Levi/ JEsu Christi/ hver ad er eins og Sæpa þvotta-Kveña/seger Spamadureñ Malach. 3. Eitt Klæde er jafngott þo ad Saur falle a þad / ef þad er vel þvoged / nema þad sie Groomteked/ Eins er Syndareñ/ Hañ er jafngoodur/ þegar hañ ydrast af Hiarta / Truer ad sier verde Syndernar fyrergiefnar/og leitast vid ad lifa betur af øllu Megne / Eñ velke hañ sig svo miøg i Gudleysenu/ad hañ burtkaste Drottens Forþienustu/og hyrde ei ū ad leita heñar med þeim Medølum/ sem til þess eru giørd / Þa seger Paulus oss / ad þar sie eingeñ Forlykun fyrer Syndena framar/ Hebr. 10. Eg fiñ i heilagre Ritningu svo sem þriu Troppu-Stig / til Glǿtunareñar/fyrer þa/sem medteked hafa þo Guds Anda: Hrygged ecke Heilagañ Anda / seger Paulus: Þad skedur þegar þeir/sem eñ þa eru i Guds Nææd / þeim verdur þad/ad þeir læta epter Holldenu/ þo ecke allt ad af ásettu Rææde / Eñ veikia þo med þvi Krapta siñar Endurgetningar / Svo þeir eru ecke svo liuser a ad giøra þad Guds lykar. Aptur seger hañ: Slockved ecke Heilagañ Anda: Þad skedur nær Meñ svo venia sig a syndsamlegt Athæfe / ad þar fiñst eingeñ Barætta Holldsins og Andans/ helldur læta Meñ Syndena drottna i synum dauðlegu Lykama/svo þeir þioona heñe/ þar med tapa Meñ Andanum til fulls/og rata i Guds Ovingan. Hiner þridiu eru þeir/ed mootstanda Heilogum Anda/svo sem DRotteñ sagde vid Gydinga/og hañs Pyslar-Vottur Stephanus: Þad skedur/ nær einhver forsmær Andañ / nær hañ añadhvert straffar Syndena i Ordenu / edur og med synu iñre Verkunū i Hiartanu / og standa a moote honum af øllu Megne/svo ad þoott þeir vite hvad riett er og Hiælpsamlegt / þa smyda þeir sier Meiningar og Afsakaner a moote Guds Orde/ og Iñblæstre Heilags Anda/ og leitast vid ad styrkia þær med þeim Røkum/ sem Holldeð og Diøfulleñ fyrer þa dycktar: Og þesse er hin

skÿdarsta Trappa / um hveria mier virdest ad Postulen tale til Hebræos. Cap. 6. Ad valla edur ecke eige Apturkvæmt til Ydranar. Giære þvi hver og eirn ad sialfum sier / sa ed þetta himneska Gest hefur Einustinne hloted / ad hann læte sig af honum leida i allan Sannleika / hann breite eins og Ezechiels Dÿr / þau geingu rett afram / eins og þeirra Andlit horfdu / hvert sem ad sialfur Anden foor / þa feru þau. Svo eigum vier og ad giøra / Christner Men / a medan Gud geingur undan oss i Skÿ-Stoolpa sijns Orda / hvar i Anden byr / þar vier ræsum i Eydemørku Heims þessa / Þvi ef vier gaungum i Andanum / þa munum vier ei framnkvæma Holldsins Gyrnder / Gal. 5. þar hann leider alldrei nema til Guds / af hvørium hann framgeingen er. Trued mier / Christner Men / Ad mikel Gaumgiæfne heiter til þess / ad rannsaka hvert Men hafa Vitnisburd heilags Anda um þad ad þ þ sieu Guds Børn / edur og / ad þeir leidast af fólskum Anda / sem lofe þeim Arfleifd Guds Barna / uppa Ovissa Von / sem hættar eru þo mikist verder / hvad marga an mun henda / þvi verr. Þad sia Men ecke einasta af Phariseunum / þeim Hræsnurum / er meintu sig alleina ad hafa Lykelen ad Guds Rÿke / En hversu langt þeir hafe fra þvi vered / voktar sialfur Sannleikuren / Matth. 23. helldur og a mørgum ødrum / sem ad sønnu ecke efast um Guds Raad / en lifa þo eingannveigen ad Guds Vilia / jafnvel þoott ei drÿge þr Stoorglæpe / Þessu rædur Postulen næsta Heillt / er hann seger : Reyned hvert þier erud i Truñe / hvad ei verdur med ødru Moote betur giørt / en ad Men rannsake sinn Lifnad Grandgiæfelega / þvi sønn Tru er alldrei Avaxtarlaus / helldur verkar hun þ Kiærleikann / hver ad er Løgmalsins Vppfylling / og allar Christelegar Dygder hefur i sier foolgnar. Ad sønnu er JEsu blessad Riettlæte þ sanna Brudkaups Skart / sem Textenn umgetur / nær þ er med Truñe hondlad / En Glansenn a þessu Tignar Klæde / eru Verkenn / sem af hesse framnkoma / hver hana auglÿsa / og um hana votta / þvi af þeirra Avaxtu skulud þier þeckia þa / seger Frelsaren um Vlfana / sem koma i Sauda-Klædum / og eins ma um Guds Børn segia : Ecke hylur Farve Klædanna Lÿte Lÿkamans / ei helldur utebÿrger hn Frost og Kulda /

 helldur

helldur Faked/ sem̄ ad Lyten̄ byrger. Svo giøra og Verken̄ eingan̄ Rettlatan̄/ helldur Truen̄/ sem þvi velldur / ad vort Lioos svo lyser fyrer Mønnum̄/ ad þeir sia Goodverk sin/ og dyrka vorn Fødur/ sem a Himmnunum er / Matth. 5. Soolen̄ er ecke Byrta/ en̄ þo gefur hun Byrtuna fra sier: Epled er ecke Eyk/ og þo ber Eyken̄ Epled. Truen̄ er helldur ecke Verk / en̄ þo er hun alldrei an Verkanna / þvi seger Jacob: Syn mier þyna Tru af Verkunum. Vere þvi einginn svo Blindur/ ad han̄ atle þad han̄ sie Rett-Truadur a medan̄ han̄ ecke ber Truarennar Avexte. Hvad skulu Men̄ þa tala um̄ hina vondu Tijd / sem̄ vier lifum i? Eg skal gefa þeim eitt Hiarta og eirn Veg til ad Ottast mig / seger Drottenn um̄ Christnena a Nya Testamentesins Døgum/ fyrer Munn̄ Jeremiæ/ Cap. 32. Mun þetta siast hier nørgum a vorum Døgum / þar ed svo margt er Sinned sem Madurenn er / Jafnvel i þeim Hlutum̄/ sem̄ heyra til Guds Dyrkunar / og Saaluhiælpenne viekoma. Ad eg tale ecke um̄ adra Hlute / svo langt er fra þvi/ ad Men̄ hafe eitt Sinne til ad Ottast Gud/ ad i einu Lande/ einne Bygd/ i einne Sookn/ er þar daudlegt Hatur/ Agg/ Reide/ Þræta/ Tvidrægne/ Innbyrdis Flatskapur: Men̄ liuga hver uppa annan̄ Lygum̄ og Skømmum / Þretta hver annan̄ i Kaupum og Sølum / Svijkiast a Innbyrdis med Kiassmælum/ berande Hunang i Munne / en̄ Gall i Hiarta. Hvad þa? Eru Guds Ord ad Brygdmælge vorden̄? Fiarre er þvi: Sie Gud Sannsøgull / en̄ aller Men̄ Lygarar / helldur er þad þess vegna / ad vier erum svo Fraleiter og Olyker vordner hinne fyrstu Guds Kyrkiu / þar aller Christner voru Eitt / og aller Hluter Sameigennleger medal hinna Trundu / og þo hallda aller sig hafa hid fagra Brudkaups Klæde til ad bera. Brædur myner / Vilied þier heyra þær Saker / fyrer hveriar Gud utrak sitt Foolk i hina Babylonisku Herleidingu / hvar þeir mattu lyda svo skielfelegar Hørmungar/ ad valla hefur þvilijkt heyrst fra Alldødle / þær standa skrifadar hiaa Ezechiel Spamanne/ Cap. 22. a þessan̄ Hatt: Fødur og Moodur virdtu þeir einkis/ vid hinn Framanda høndla þeir forksamlega/ Eckiunne og hinum Fødurlausa giøra þeir Oriett; En̄ ad þessu leika Men̄

sier

ſter a Stundum og ødru þvilíku/ og þyker þad Nofmeńſka vera. Mun nu Konungureń þeckia þetta fyrer Brudkaups Klæde / nær hań lıtur af Himnum ofań/til ad ſiá epter Brudkaups Gieſtunum? Eg vil ei tala um̄ Flaatſkap og Underferle/ er ſvo miøg drotknar i Heimenum/ Jafnvel medal þeirra/er vel Chriſtner heitá vilia / og alla ſier einkis Ábóota vænt. Ein af þeim meſtu Skømmum/ ſem þvingade Gud til ad yfergefa ſitt Foolk Juda/ var hin ſtaka Olrigd/ er drotknade a þeſſ Døgum / Þeſſ getur Jeremias / Cap 9 Seigiande: Være ſig hver eiń vid ſiñum Vin/ og treiſted ei uppa neiń Broodur/ þvi eiń Brood-er hań bregdur ødrum / og ſierhver Vinur brukar Afdrætt og gabb-ar Vin ſiń / þeir tala ecke Sańleikań / þeir keńa Tungu ſińe ad tala Lygar/ og þreyta ſig i Rangſleitneſſe. Seged mier/ ef Jeremias mætte hverfa aptur til Lyfſins / munde hań ei þeckia nockud þeſſ Nattar medal vor? Og má þad Eingvańvegeń Brudkaups Klæde nefna / Langtum helldur vil eg kalla þad Andſkotans Bodsmańs Ham/er hań klæddur var/þegar hań talade vid Evu i Høggorminum/og baud heńe uppa Epled/ Þvi David / og Paulus Rom. 3. ſegia / Ad Høgg-orma Eytur ſieu under Vørum þeirra/eń Muńurıń er ſier allıgd lık-ur/og þad þeſſ helldur/ſem hań veit ad hań hefur ſtyttre Tıma. Eg vil ei ſá mier til Orda uḿ hina ſkadlegu Agyrne þeirra / ſm̄ utſiuga Hus Eckna og Fødurlauſra Barna / og ſelia hiń Fátæka fyrer eiń Skoo: Margań mun Gud ſiá i hińe Almeńelegu Brudkaups Stoofu ſińs Sonar/ þad er hińe ſańelegu Guds Kyrkiu hier a Jørduńe/ Eg ſege / hań mun þar Margań ſiá lıkań þeim ſem framfalla i Pant-ſettum Klædum/ já/hań mun ſiá Blood ſiña Voladra i Løfum Klæda Fra/hvad ſiıneſt ydur/Chriſtner Meń/ Munu Meń i þvilıkum Bun-inge Jńgánga i Lambſins Brudkaup? Langt er frá þvi. Fyrer þvi Hreinſed ydur/ Þvoed ydur/Læted af Jllu/Læred Gott ad giøra/ Eſa. 1. Giøred hvad Rett er a hverium Morgne og frelſed þań ſm̄ Ræned lıdur af þeſſ Hende ſem under þrycker hań / ſvo ad Brade DRottens ecke utfare ſvo ſem eiń Elldur / ſá ed eingeń fær ſlockt / fyrer Jllſku Saker ydar Athafna/ ſeger DRotteń fyrer Muń Jeremiæ/ Cap. 21.

Eñ vilie Meñ vita / hvad ad sie hid retta Brudkaups Klæde / þa er þad JEsu blessad Rettlæte / med eiñe sañre og lifande Tru umfadm-ad / sem adur er sagt: Eñ hvad Avøxtum Truareñar vidvykur / sem alldrei kuña vid hana ad skilia / helldur eñ Byrtañ vid Liooſed / þa fæ eg þad ecke betur sagt / helldur eñ David i hinum Fimtanda Psalme / med þessum Ordum: DRotteñ / hver fær ad bua i þiñe Tialldbud / ed-ur hver mun hvylast uppa þyñu heilaga Fialle? Sañ sa ed frame-geingur Flecklaus og giører Riett og talar Sañleikañ ut af Hiarta / hver ed ecke Svikſamlega mæler med siñe Tungu / og Náunga sy-num ecker Jllt giører / og leggur synum Náunga eckert Lastlegt til / hver hañ leider hia sier hiñ Jllgiarna / eñ þ Heidre hefur hiñ Guds-hrædda / hver hañ sver synum Náunga / og svykur hañ ecke / hver hañ gefur ecke Fe ut uppa Okur / og tekur ecke Mutu yfer hiñ Saklausa / hver ed þetta giører / hañ mun stødugur blyfa Æfeñlega. Lyted nu hier / svo sem i ødrum Speigle / hvorneñ þeim byrie Hañkudum ad vera / sem rettelega eru til þessa Brudkaups buner / Eñ vilie Meñ þad ei heyra / þa heyred þo / Christner Meñ / hver ad urdu Endalok þessa auma Mañs / er vanvirdte Samsæted med Almeñelegum Bun-inge: BJNDed HAñs Hendur Og FÆtur / sagde Konungureñ / Og KAsted HOnum i Hin YTstu MYRkur / Þar Mun VEra Þop Og TAña GNIstran. Ecke þarf eg margt ad segia af þessu For-dæmingareñar Lande / þad er noog / sem hier stendur / Ad þar Sie Þop Og TAña GNystran / Og meir vantar oss þad / ad varast Helvyte / helldur eñ ad vier ecke nærre getum hvørsu hertt þad sie: Þesse vesæle Madur var ecke einasta utreken / ur Brudkaupenu / helldur og var hoñum i Myrkvastofu kastad / Svo munu ∡ aller þr / er ecke eru JEsu Dyrmætum Rettlætis Kyrtle skrydder / þeir munu ecke Einungis utrek-ner verda fra Auglite Guds / og Styrkleika hañs Dyrdar / 2. Thess. 1. Helldur og i eilyfum Ellde brenna med Dioflenū ∡ øllū hañs Arum. Þegar Jsrael heyrde / ad Guds Reider sloon i Horeb / nær Logmaled var utgefed / þa hræddust þr þ Elldenū / og þordu ecke nær ad ganga: Eñ hvad mun verda þegar hañs Reide tekur til ad brena allt til nedsta

Nel-

Nelvgtis yfer þui/ er valla añad giørdu/ eñ ad briooka þetta Løgmaal/ og ydruduſt þo alldrei Afbrotaña/ edur þeinktu um/ ad afplaana þau med Guds Sonar Forþienuſtu? Elldureñ ſnerte ecke Gydinga / þo gaatu þeir ei ſtadeſt ad ſiaa hö/ Eñ hvilijk mun þeirra Ofraun verda/ ſem i Nelvgtis Ellde vellkaſt munu fra eiñe Eilijfd til aññarar? Þar fyrer mijner Elſkaañleger/ ſtaned til/ ad þier giøred ydar Utvalningu viſſa/ 2. Pet. 1. Jkladeſt DRottne JEſu Chriſto/ Rom. 13. Þad er hañs Rettlæte/ Jkladeſt Herſkruda Rettlætenſins/ Eph. 6. Jkladeſt Brynju Truarennar og Kærleikans/ 1. Teſſ. 5. Svo ad þier Verdug er verded i Lambſins Brudkaupe ad ſtanda framme fyrer Gude/ Jſkrydd er bleiku Lijn-Klæde/ ſem eru Rettlætingar Heilagra/ Apoc. 19. Þeirr ar eilijfu Farſælldar/ giefe oſſ Gud ad niooſa/ fyrer JEſu ſijns Son ar dijrmæta Blood og Forþienuſtu / A M E N.

# Tuttugaſta og Fyrſta Suñudag epter Trinitatis.

## Gudſpiallid / Joh. 4. Cap.

J Þañ Tijma. Þar var eirn Kongemadur / hvers Son ur ad ſiukur laa til Capernaum. Þa hañ heyrde þad/ ad JEſus var komeñ af Gydinga Lande i Galileam / foor hañ til hañs / og bad hañ / þad hañ fære ofañ og lækna de Son hañs / þviad hañ var ad meſtu daudur. Þa ſagde JEſus til hans: Nema ad þier ſiaed Teikn og Stoormerke trued þier ecke. Kongsmadureñ ſagde til hañs: HErra / far þu ofañ adur eñ Son ur miñ andaſt. JEſus ſagde honum þa: Far þu / Sonur þiñ lif er. Og Madureñ trude þeim Ordum er JEſus ſagde honum / og geck þadañ. Eñ þa ed hañ foor ofañ epter / geingu hañs Þienarar a mooti honum og kuñgiordu honum / ſegiande: Sonur þiñ lifer. Hañ ſpurde þa þar ad / a hverium Tijma þad honum hefde batnad / Og þeir ſøgdu honum: J Giær um Siøundu Stundu hvarf fra honum Kaldañ. Þa formerkte Fadereñ/ ad þad var um þañ Tijma / a hverium ad JEſus hafde ſagt/ Sonur þiñ lifer: Og hañ trude / og allt hañs Heima Foolk.

# Exordium.

Hvad er sterkara enn Leonen / sögdu þeir i Thimnath fordum vid Samson/ er þeir höfdu rádid Gaatu hans ? Jud. 14. Enn eg vil seigia / ad Trwenn er enn þa sterkare / þvi hun sigrar þad Leoned af Kyne Juda / er hefur hid prægasta Sigur unned / sem um Allder heyrst hefur. Þvi lyser hann Blessadur/ er hin Canaaniska þreytte vid hann / enn hann sagde: Kona / mikel er þyn Trwa / verde þier epter þvi sem þu villt. Trwudum er allt mögulegt / þvi sagde og Frelsarenn/ Matth. 17. Ef þier hefdud Trw svo sem Eitt Mustards Korn / þa mundud þier seigia þessu Falle: Far þadan og hyngad /, og þad mun færa sig / eckert mun ydur Omögulegt vera. Hvad velldur þa þvi / ad vier sem þo bæde villium trwa / og trwum a Christum / ad vier ecke færum öllu til vegar komed / sem vier girnumst? Þar liggur Svar til / þad sama sem Frelsarenn sagde Lærisveinunum / er þeir adspurdu hann / þvi þeir hefdu ei giætad wtrekid Töngulmeina Diöfulenn/ Hann sagde: Vegna ydar Trwarleysu: Og fyrer þvi / ad þessa Heilaga Dags Texte / gefur oss Orsök til / ad tala framar hier um / wt af Dæme Konungsmannsens/ þa vill eg af hönum Tvent Hugleida. 1. Veikleika Trwarennar/ og hennar Framfför. 2. Guds Visku i þvi / ad efla hana. Styrk oss hier til Naduge Fader / fyrer JEsum Christum / AMEN.

# Utleggingenn.

HVer ad vered hafe Konungs madur þesse / eru margar Gætur a / lyklegust er þeirra Meining / ad miske Nyggiu / er ætla hann vered hafa eirn af Herodis Þienurum / þvi jafnvel þoott Herodes være ecke Konungur / helldur Fioordungs Höfdingie alleina/ þa var hann þo svo nefndur af symum/ og svo ödrum epter þeim/ svo sem ad lesa er hia Marcum i Siotta Capit. Og hefur hann þa enn Efa Gydingur vered/ þvi Gydinga Þioonustu og Sidum liest Herodes fylgia: Enn þoott hann Gydingur være / og heyrt hefde Spaadoomana um Messiam / og af JEsu / þad hann giörde þau Verk/ sem eingenn kunne ad giöra/ þa fæst hann ei miked um hann edur hanns Lærdoom / vegna hvers hann var þo epter synu Spaamanns Embætte i Heimenn sendur: Svo geingur þ Mörgum af oss / Vier erum skyrder / vier erum i Christendoomenum uppalder/ vier kunnum ad þilia vorn Barna Lærdoom / og sumer vita ad giöra Grein a honum/ med utvortis Vidurkienningu / enn hversu ad Kraptur Truarennar sie rykur i Hiartanu hia Allmörgum/ þad synest i Lysfernis Hattunum / þegar Gud a ad elska fram yfer alla Hlute/ þegar Naunganum a til ad gefa hanns Misgiörder / og giöra Gott

þinum

hinum Volada / þad skeneſt nær Hollded a ad Krossfeſta / og i Kross- burdenum þegar øll Mañleg Hiælp er uke. DRottenn var i Cana þegar þetta ſkiede / þad var lyttill Bær og liggur hier um þyngmañar Leid fra þeirre ſtooru Borg Capernaũ/ þar giørde JEſus þad mikla Krapſaverk / er hañ ſnere Vatne i Vyn / þad var hid Fyrſta er hañ giørde i þm̃ Stad: Þetta hefur Konungsmadureñ heyrt æn Efa/og: þvi leitar hañ DRottens Hiælpar / eñ þo ecke nema til Lykamlegrar Adſtodar / af þvi hañs Sonar Neyd þreyngde ad hønum / Eñ miklu meir laa hønum a þvi / ad bruka þetta Krapſaverk ſier og ſynum til Andlegrar Heilſubotar/ þvi ſæ er hiñ rette Avøxtur Krapſaverkaña/ og ſæ er Tilgangur DRottens / nær hañ giørde þau/añadhvert fyrer ſiaalfañ ſig/ edur ſyna Poſtula/ Eñ Gud Nade oſſ/ ad vier erũ eins lynder og þeſſe Konungsmadur var / Medañ oſſ lydur vel ad øllu þvi ſem Lykamañ vidvikur / þa hyrdum vier ecke ſvo miog um Saalena / og leitum ei Chriſts/ſafnvel þoott allt Høfuded ſie ſiukt/allt Hiartad veikt / fra Hvirfle og allt til Ilia ſie þar ei nema Saar/ Kaun / Bey- lur og Drcke: Vier leitũ hñs/ſege eg/ ef oſſ breſtur nockud af Ty- raldar Muniũ/þegar vier ſiuker erum/ þegar oſſ breſtur Atvinnu vora / nær vier Oſſookter erum/ og Raangendeñ lydum/ og vier eigum ſvo ad giøra / Þvi hañ er Meiſtare til ad hiælpa / og vor Hiælp kemur fraa DRotne/ſm̃ ſkapad hefur Himen z Jørd: Eñ ad leita Guds Rykis z hañs Rettlatis/ þar erũ vier ſvo treger til/ ſafnvel þoott þad ſie þ eina/ſm̃ er Omiſſande/þvi giørdũ vier ſvo/þa munde oſſ allt añad til leggiaſt/z ſeged mier/hvad er vorre Tru þa betur haattad/eñ þſſa Kon- ungsmañs? Hñ hefur ad vyſſu Høfdinge vered. Nockrer ætla ad hñ hafe vered hiñ ſame z Chuſa / ſæ ed var Armadur Herodis/ Hvers Kvinna Johañna ad ſydañ epterfylgde Chriſto af Galilæa/og þioonade hønũ / Og er þetta Saaka ecke Olyklég / Þvi hier ſtendur um þeña Mañ ſydañ/ Ad Hañ HAfe TRuad/ Og ALLT Hañs HEima-Foolk. Eñ fyrer þvi / ad hañ var Magtar-Madur / Eñ um Chriſt hefur hañ ecke odruvyſe meint / helldur eñ um eiñ Spaamañ / ſvo ſem Eli- am/ Eliſæum og adra ſvoddañ/ þa vill hañ ad DRotteñ kome ofañ

med sier. Þesse er slykra Fugla Tegund/ ad jafnvel þoott þeim liggi miked a/ vilia þeir læta sig virda framar ødrum Monnum. Eins var Jairus Samkundu Høfdinge lyndur/ hver ed var sømu Borgar-Madur/ hann beidde DRottenn ad koma med sier/ og leggia Hønd yfer Doottur sijna/ svo sem hann giæte ecke reist hana af Daudum Fiarlægur/ og hefur hann þo an Efa heyrt þetta Dæme: Enn þoott DRottenn liete þad epter hønum/ þa hefur þad ei vered þess vegna/ helldur ad hann giørde þad mikla Kraptaverk i Augsyn svo margra/ er i Fyrstunne dærudu hann. Hversu lijkt er þetta Naaman hinum Syrlendska/ er Elisæus baud hønum ad þvo sig siø sinnum i Anne Jordan/ 2. Reg. 5. Þa strauk hann burt i Reide-Svip/ og sagdest meint hafa/ ad hann munde hafa komed ut til sijn/ og akallad Nafn DRottens Guds sijns: Hann leit a Virdingar sijnar/ enn ecke a sinn Lijkþrææ Kropp. Ecke giørde svo hin Cananæiska/ ecke hin Bloodfallssiuka/ ecke hyner Blindu/ er sætu vid Vegenn og kølludu/ HErra Sonur Davids Myskunna þu ockur/ Matth. 20. Þesser beiddu umm Christi Hiælp/ so sem adra Olmusu/ þvi þeir ættu ei miklum Veralldar Aud nie Virdingum ad treysta: og Gud giæfe vier villdum og þeckia þad/ ad aller erum vier DRottens Þurfa-Menn. Ecke gat Naaman kastad af sier Lijkþrææne/ med hans mikla Gulle og Silfre: Ecke gat Ezechias Konungur bætt sier Heilsuna med allre sinne Magt: Og ei gat þesse Konungs-Madur teked Kølldunna fra Syne synum/ annars hefde hann ecke til Christum komed: Enn miklu sijdur kunnum vier ad auka oss Truna/ enn Truarveikena Orsakar marg opt þad Þeckingarleyse/ er vier høfum/ bæde a Gude/ og a sialfum oss: A sialfum oss i þvi/ ad vier køllum oss eckert Ommattugt/ nær ad Oskum geingur/ enn a Gude i þvi/ ad vier treystum hønum svo lited/ þegar Mannleg Hiælp er ute. Enn hvad er þo Madurenn? Ein Gufa er hann/ hver ed siest umm Stundarsaker/ enn hverfur sijdann/ seger Jacob: Hvad er Vijnvided fremur enn ønnur Tre? Verdur teked af þvi Efne til nockurs Verks? seger Drottenn hia Ezechielem Cap. 15. Og hvad er Madurenn an Guds? Enn Fauskur/ sem til einkis er hæfur/ nema ad upphøggvast og i Ellde brennast. Konungurenn af

Egypta-

Ægyptalande er Madur/og ecke sterkur Gud/Hestar þeirra eru Hold/ og ecke Ande/seger DRottenn vid sitt Foolk / Es. 31. er. þr treystu þessu Hosdingia framar enn Gude sijnu: Og hvad skylldu þeir þa ætla uppa sialfa sig/sem langtum eru minne Mæktar: Enn Vantraustad a Gude kiemur af þvi/ad Menn reidu sig ecke uppa hann/þegar vel gieck/helldur uppa sialfa sig / og færdu Foorner fyrer Nefe sijnu. Menn eru Ovaner þvi/ad trua i Vonenne a moote edur framar Von/ eins og Abraham/Rom. 4. Vier vitum sijn eitthvert Medal fyrer Augunum/ef vier trua skulum / eins og þesse Konungs-Madur: HAnn BEidde DROTTenn Ad FAra OFann Og LÆkna SON Sinn: Ad sonnu var þar nockur Truar-Neiste hia honum/ enn miøg sro veikur: Svo kunnu vier og a stundum Skape farner / jafnvel þoott vier vel vitum / ad Gud hafe Þusund Veige til ad hialpa/þa er þad svo sem vier vilium skrifa hönum Alrgja eitt Mæta fyrer / hvernenn hann hialpa skule. I Þurvidrenu bidium vier um Regn/ I Regnenu um Þurk/enn ecke svo um Guds Blessan: I Offsooknunum um Fall Ovina vorra/enn ecke um Guds Adstod a moote þeim: I Stukdoomenum um Heilsubost/enn ecke svo miøg um Þolenmæde; Langt er fra þvi/ad eg sege þad sie illa bedid/þvi allt skal af Gude þiggia: Enn þo mä þad vera med þvi Mooke/ad vier kastum allre vorre Ahyggiu uppa DRottenn/Fulløtugger þess/ad hann mune þvi vel til Vegar koma: Enn vier verdum Oþolenmooder a stundum/ef vier ecke strax Bænheyrder verdum/og þo svo miøg/ad oss verdur Lijfed leitt eins og Eliæ/eins og Job/er hann sagde/Job. 3. Þvi giefur Gud Lioosed hinum Moollatta/ og Lijfed þeim/ sem eru Angurfuller/ til hverra Daudenn ei kiemur/þoott þr bijde epter honum/svo sem hulldum Fiesiood? Þvilijk Ord z Nuxaner pressar Mootlæted optlega ut af þeim/ sem jafnvel hafa mørgum kiendt og styrkt hinar veiku Hendurnar eins z Job / enn þeim verdur rettelega svarad med Ordum Eliphas af Theman/ er hann sagde vid þessa Guds Astvin: Mun hinn Daudlege vera Rettlaatare enn Gud? Mun Madurenn vera hreinne enn hanns Skapare? Vier erum hanns Verk//þvi moglar þa Leirkered a moote þeim sem giørde þad.? Hvar fyrer eckert er annad Raad i Mootgangenum / Børn mijn/

eS ad halloa stødugt afram i Bæneñe / þvi Komande mun hañ koma z ecke tefia : Svo giørde þesse Konungs-Madur / þo Trueñ være veik / þa gaf hañ samt ecke upp ad bidia : DRottiñ svarade høñum ad sønu ecke af / eñ þo i hardara Lage : Ecke ad sijdur bidur hañ nærre sømu Ordum / segiande : HERRA Far Þu OFan Adur SONur Miñ ANDast : Og mega sia / ad hans Tru hefur eblst vid þau Ord / er Christur talade : Lærtum oss ei fara midur eñ þessum Mañe. Ei visse hañ / ad JEsus var Messias / helldur ætlade hañ munde vera Guds Madur nockur / lijkur Spamoñunū / sē ædur er sagt. JEsu Lærisveinar voru ei Sañfrooder uñ hñs Persoonu i þañ Tijma / auk helld ur þesse Okende Madur. Eñ vier høfum heyrt svo mørg Takn og Stoormerke epter hønum : Vier vitū / ad hañ er af Gude utgeingeñ. Vier þeckiū / ad hañ er aptur til Himens uppfareñ / og hefur Mañnunū Gæfur gefed. Ecke þarf Gud Kraptaverkeñ til þess / ad hiælpa oss / þau eru giørd fyrer hina Vantruudu / seger Paulus / Eñ vier truum / og segiumst trua / þvi er þa Tru vor svo veik a stundum / ad vier truum ei nema vier føkum a / eins og þesser Galilæi / er ecke trudu / nema þeir sæu Teikn og Stoormerke / og strax sē vier ei finum til Bæn heyrslūnar i Lijkamlegum Efnum / þa føllum vier oss yfergiefna. Bæn trueñ er svo megn / ad hun giører Almætte Guds Vanmættugt / (ef svo mætte ad Orde komast) þvi hun metur Guds Krapt epter Smæmunum sijnum / þar yfer klagar DRottiñ / Zach. 8. segiande : Af þvi / ad þad er Furdanlegt i Augum þessa Foolks / skylde þad þa vera Furdañlegt i mijnum Augū ? Vitum vier ecke / ad þess nær vier eru Gude / þess meire høfū vier Smeck epterkomande Alldar / eñ nu erū vier høñū alldrei nær / eñ i Krossburdenū / ef vier berū Christi Ok rietteliega. Seged mier / giører Gud þa illa vid oss / ad hañ svarar oss utaf a stundum / nær vier bidiū uñ þetta Tijmanlega / til þess ad auka oss Trunad / og festa Hiarta vort vid þad Eilijfa / sem vier eigum lengst vid ad bua ? Þegar DRottiñ nu svarade þessum Mañe med fullre Bænheyrslu / þa seger Texteñ : Og MADureñ TRVde ÞEim ORDum Er JESVS SAgde HOMum / Og GEck ÞADañ. Svo

Eblist

Ebldest nu Trua hans / er skomu mdur var lytt truande / hann Rad-
gadest ecke um vid Hold og Blood / þegar hann hafde feinged Truna /
helldur reidde sig Einfalldlega og med fullu Trauste uppa hans Ord/
er hann þo ecke þeckte ad fullu / og valla meir enn hann heyrt hafde /
annadhvert sialfur / edur af ødrum / sem voru i Jerusalem a Hatyd-
ardegenum/og þvi er ecke ad undra/þoott Guds Børn treyste hønum/
hverium hann i sijnu Orde er fyrer Augunn afmaladur/ hverra Kraptur
hann er midt i Harmungunum/ Offsooknunum/ Angistenne/þvi þa þau
veit eru/megna þau alla Hlute/fyrer hann/ sem þau Mallug giører/
eins og Paulus: þegar Konungsmadurenn þesse fyrst trude) þa flytte
hann sier ecke heim ad vitia um Son sinn/þar af ma marka Tru hans/
þad var um Siøundu Stund ad hann skyllde vid JEsum / þad svarar
litlum Tijma epter Hadege hia oss / og ei kom hann heim fyrr enn ann-
ars Dags epter/ enn Vegurenn er ei leingre enn adur er sagt : Eins eru
og þeir lynder/ sm til fulls eru bygder a þann Hyrningar Stein i Zion/
Es. 28. JEsum Christum/ þeir flyta sier ecke miøg/ seger Spa-
madurenn / þeir hlaupa ecke med þioofnum til ad stela / ecke taka þeir
til franskra Rada eins og Achaz/Es.7. Ei giøra þeir Samband
vid Daudann/nie Sattmala vid Helvijted med hinum Gudlausa/Esa.
28. Helldur bijda þeir epter DRottne / styrkia Huga sinn/ og eignast
Saler sijnar i þolenmæde/Luc.21. Og sa ed sier temur þetta Hug-
arfar/ i hønum er Truenn fullvaxenn/ og Christur ad fullu myndadur.
Og hvert skyllda eg helldur flyta mier? DRottenn/ef þu varer reidur/
þoott eg upphefde mig med Edom / eins og Ørnenn / og bygge mier
Hreidur medal Stiarnanna / þa munder þu kasta mier ofann þadann /
Obad.v.4. Og hvert vilia þeir ellta mig/ nær þu ert Nadugur/nema
ad þijnum Footum? Hverra Skør ad Jørdenn er/og allar þioodernar
a henne fyrer þier svo sm Vatns-Drope i Ausu/þar vil eg flatur ligg-
ta / þar vil eg fulløruggur bua / þar vil eg hæda ad øllum þijnum og
mijnum Ovinum/þar vil eg DRottens bijda/og vardveita hans Vegu/
þa mun hann upphefta mig / Hønum sie Lof / Dyrd og Heidur ad Eil
lyfu/ Amen. Svo er nu uttalad um Veiklleika Truarennar og hennar

Ebling / Epterfylger hid Sijdara / er eg hiet um̃ ad tala.

Gudspiallamadureñ seger Skom̃u ádur eñ Texteñ byriar / Ad JESUS Nafe Fared Burt i Galilæam / þvi Nañ Nafe Sialfur Vitnad / Ad Spaamadur Nefde ei Virdingu i Sijnu Fodurlande. Marger hallda / ad þar med sie Nazareth meint / sem var Foostur-Jørd DRottens/og svo er hun kølluð hiá Matthæum/Cap. 13. Eñ þesse Borg var og svo i Galilæa/þvi gefur þad eins vel Judæa edur Gydinga Land vered / hvar hañ fæddur var. Eñ hverneñ sem þvi er vared / þa reiste hañ fram̃ hiá hiñe Vänkunudu Nazareth i þetta Siñ/ um̃ hverta Matthæus sijdañ skrifar / ad hañ hafe ei giørt þar mørg Kraptaverk Søkum þeirra Truarleysu / og ferdadest til Cana hver ed lœ i þeim Parte Landsens/er nefndest Galilæa Heidingiaña / þar lœ og Capernaū/ er var hin Frægasta Borg af þm̃ Tiju Stødū a þetta Land bygdu marger Heidingiar / þar voru Tyrus og Sydon / þadañ var hin Cananiska/ er þreytte vid DRotteñ/ J Capernaum var Hundrads Høfdingeñ/hvers Tru hñ svo miøg hrosade. þetta kemur mier til ad prijsa hañs Fødurlega Giæsku i þvi / ad sneñma took hañ til þess Blessadur/ad lijta til vor Heidingiaña/iafnvel þoott hañ sier i Lage være sendur til fortapadra Sauda af Huse Israels. Ecke er ad efa/ad þau mørgu Kraptaverk / er hañ giørde i Capernaum / er nefndest hañs Borg / þau hafa snued mørgum Heidingia a Lijfsins Veg. Eñ lijtū nu til vor/ Christner Meñ/sem vorum Vpptøk Christnebodsins hiá oss i Fyrstuñe/ og ecke var liuflega á moote tekeð þessare Guds Giøf / Vor Christeñdoomur var og svo miøg i Veikleika fram̃ epter Olldunum/þo høfum vier/sem nu lifum/og svo Fedur og Forfedur vorer til þess funded / ad þad er satt sem DRotteñ seger i Epterlijkinguñe / Matth. 13. Ad Himnarijke sie lijkt Mustards-Kornenu / hvert ad Eiñ took og sæde i Akre sijnum / hvert ad er hid Minsta af Sædunum/ eñ þegar þad vex upp/ er þad hid Stærsta af Kaalgrøsunum/ og verdur ad eiñe Eyk / svo ad Fuglar Himensins bua sier Hreidur i Greinunum þess. Svo hefur nu Gud eblt Christelega Tru hiá oss / sem i Fyrstuñe ei vorum nema lijted Sæde / þvi ei kuñ-

num

hañ hefur ecke forgefens talad þesse Ord: ÞJJN TRua GJørde Þig HEJla. Ja/eñ þa framar / þegar Hus-Karlar Jairi kuñu i moote hønum/ svo sem Lucas og Marcus skrifa / og søgdu: Omaka ecke Meistarañ/Þijn Dootter er sæalud/þa hefde hønũ mætt til Hugar koma / ad þad være ute / eñ JEsus slepte ecke siñe Hende af hønum/heldur sagde hñ: Ottast ecke/Tru þu alleina. Lææt þetta Dæme vera þier jafnañ fyrer Augum/ Chr. M./ þegar þijn Trua tekur til ad veiktast i Mootgængenum/og þier kemur til Hugar med David/ad Gud hafe forgleymt Myskunsamur ad vera/ Ps. 77. Siæ hier hvad trur ad þiñ Lausnare er / ad hañ freistar einkis yfer Megn fram/ 1. Cor. 10. Þu megnar ecke hiñ allra miñsta Truar-Neista ad kveikia i þier/ Guds Verk er þad/ er þad veik Tru/ þa er þad þo Tru/ Gud añ sijnum Giørninge / læt siæ/ ad þu alleina ecke sløckver hañ med Opolenmædeñe og Vænarleisenu / og vert svo viss uñ/ ad hñ blæs siælfur ad þvi glooande Kole / er hañ hefur lagt a Varer þijns Hiarta: Hañ liet ecke Petrum søckva/ þo hañ være Truar veikur/ Mallh. 14. Hañ leifde ecke ad hans Læresveinar forgeingu / þoott þeir være Lytil-Truader/Luc. 8. Hañ upvakte Lazarum/ þoott Martha efadest uñ/ ad hañ munde fyrr upprijsa/ eñ a sijdasta Dege/ Joh. 11. Og hversu opt ætalde hañ Læresveinana fyrer þeirra Truarleyse/Svo ad þeir beiddu hañ / og søgdu: HErra / auk þu oss Truna / samt eblldest Guds Krapttur svo med þm / ad þeir urdu þess Allshugar fegner/ ad þeir mætta niooota þeirrar Tru / ad þola allar Nædungar hans vegna. Jeg vil ei tala uñ þad mikla Myskuniarverk/er JEsus giørde vid hiñ Tunglsiuka/ og Fødur hñs/er hañ sagde: Ef þu truer/þa er Truudum allt møgulegt / Eñ Faderen æpte Nastøfum/og Taradest miøg/ seigiande: Jeg true HErra / eñ hiælpa þu Vantru miñe: Og JEsus rak Diøfuleñ ut af hinum Tunglsiuka/ Took i Hønd hañs og reiste hañ upp/ Marc. 9. Svo læt þier nu og nægiast DRottens Naad/Christeñ Madur/þott þier finest/ad þijn Trua ecke sem sterkust sie/þvi hañs Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum/ 2. Cor. 12. Og er þetta nu svo ut-talad uñ hid Fyrra.

Epterfylger ad tala med fam Ordum uñ þad Sidara. Ecke miña Traust edur Hiælparvon stendur Christinū Mañe af þre Mysk un/ sem vor Frelsare giorde a þeirre aumu Konu / Er med Tru siñe þæde Heilbrygde af honū. Evsebius skrifar i hns Christendooms Sogu/ og 7. Book/ 17. Cap. Ad hun hafe Heideñ Mañeskia vered/ Kyniud ur Cæsarea Philippi. Þier kyñe til Hugar ad koma/syndugur Madur / ad Christur hafe ecke giora viltad þvilijk Stoormerke / nema medal sijns Foolks og Gydingaña : Eñ Dæme hiñar Cananæisku/ Hundradshofdingians / hiña Diøfuloodu i Gergeseaña Landa-Merkium/ sijner allt añad/ Og þvi skyllde hñ neita þeim Kraptaverk aña/ hverium hañ hafde fyrerhugad Nad Evangelii / svo sem stendur hiá Esa.62. Ad Drotteñ mune framleida sitt Rettlæte og sijna Dijrd fyrer allar Þiooder: Þu seger/ Gud giører þo ecke Kraptaverk Maña a medal a þessum Døgum: Eñ seg mier / Hverk er Krapta-Verk meira eñ þad / ad hañ hefur giort oss Abrahams Sonu af Steinum/ þad er af Heidingium/ þeim er Stocka og Steinadyrkudu/ og voru þeim siælfer lijker : Þesse Vesæla Kviña var þungū Stukdoome undervorpeñ / og Ohrein kølluð epter Løgmælenu / Hver hana snerte/ skyllde Ohreiñ vera allañ Dag til Kvølldz / Eñ ecke skede þad þar fyrer / ad Kviñurnar a þeim Tijma væru meir Ohreinar i Guds Auglite / helldur eñ eiñ daudur Lijkame / hvern eingeñ mætte snerta / helldur svo sem þad var boded i Guds Løguni / til ad teikna oss Andlega i Syndunum dauda / Svo var og hitt til ad miña oss a Spillingu Nattúru vorrar/ Eñ þott ad þesse færæda Mañeskia være svo a sig komeñ/ samt fyrerlijtur ecke JEsus hana : Allt er Hreinum hreint/ Tit.1. Svo var og honum/ sem er Hreiñ og Heilagur/og frαskileñ Syndurunum : Þesse Kona var Ohrein epter Levitaña Løgmæle/svo ad eingeñ mætte hana snerta/nie Klæde heñar/ Eñ strax sm̄ hun hñs Klæda-Falld snerte / er siælfur Levi Born hrein giører/ þa vard hun bæde Hrein og Heilbrygd. Tak þier þad til Huggunar / syndugur Madur / þegar Satan freistar þijn med Orvæntinguñe / kaffke ecke fyrr eñ i þeim sijdursku Andarslitrum / Nær hañ er sem akafastur /

þvi

þvi hñ veit hñ hefur ſtuttañ Tijma. Þitt Rettlæte er ſvo ſem Nid⸗
lags Fat : Hvad munu þa vera þijnar Bloodugar Jllgiørder ? Eñ
ſiá/ Hier er opnadur eiñ Bruñur Davids Huſe / og þeim ſem byggia
til Jeruſalem/ til Hreinſunar Syndaranum og Bloodfalls⸗ſiukū : Þu
ert Ohreiñ/ ſvo ſem Kona þeſſe / og eckert Ohreint ma iñkoma i þa
Himneſku Jeruſalem/ Eñ hier er Blood JEſu/ſem hreinſar þig af
øllum þijnum Syndum / 1. Joh. 1. Þijnar Synder eru raudar ſem
Blood/ Eſ. 1. Eñ JEſus er fyrer ſitt eiged Blood Einuſiñe Jñ⸗
geingeñ i þad allra Helgaſta/ ad utvegadre eilijfre Endurlauſn/ Ebr.
9. Þar fyrer vill hñ giøra þær hvijtar ſem Snioo. Þu hefur eck⸗
ert Gude ad luka fyrer Syndena : Þeſſe Kvijña hafde ecke helldur
neitt ad gialldа i Læknis⸗Laun / þvi hun hafde eitt þar til allre Ei⸗
gu ſiñe / ad hun mætte heilbrygd verda / eñ foor þo jafnañ Veſnande :
JEſus æſkte og aungra Launa af heñe / helldur ſagde hañ : VER⸗
tu HUGhrauſt DOTTer/ Þijn Tru GJørde Þig HEilbrigda.
Hañ krefur og ecke Endurgiallds af þier / þvi hvad ma Madureñ
Gude giallda? Tru þu alleina þvi/ ad hñ ſie Forlijkun fyrer þijnar/ og
ecke einaſta fyrer þijnar / helldur og ꝼ allar Veralldareñar Synder/ 1.
Joh. 2. Og heyr þau Lijknar fullu Ord/ er hñ talar/ Eſa. 55. Heyred/
hver ſ ad þyrſtur er/ Kome til þeſſara Vatna/ z hver ſm̃ eckert Giallд
hefur/ hañ kome og fæe fyrer eckert/ Komed/ ſege eg/ Komed og kaup⸗
ed fyrer utañ Peninga / og utañ Andvyrde / Bæde Vijn z Miolk /
Hvar fyrer læte þier ydar Peninga ute fyrer Matleyſu/ og ydar Erf⸗
ide fyrer þañ Hlut ſem ei kañ ad ſedia. Kona þeſſe geck Bak vid
JEſum/ hun var Ohrein/ hun var Ør⸗Fælæk/ hun var ad øllu Leite
aumlega a ſig komeñ / hun þorde ecke ad yrkia Orde a hañ / z ſkam⸗
adeſt ſijn ad bera ſijna Kveinſtafe fram̃ fyrer ſlijkañ Herra : Æ / hvad
mætte Syndareñ þeñkia/ ſa er optlega hefur vellt ſier i ſama Saur /
og eins og Hundureñ geinged aptur til Spÿtuñar / Mun hañ ecke fyr⸗
er verda ſig/ ad koma fram̃ fyrer hñ / i hvers Auglite ad ecke eru Himn⸗
arner hreiner / Fyrer hvertum hiner Dijrdlegu Cherubim hilia ſijn
Andlit ? Sañlega være þeſſ meir eñ Von : Eñ fyrer JEſu Forþien⸗

 uſtu

uſtu Skulld / hvers Aſioonu þeir byrgdu / og hræktu i hans Andlit / þa meigū vier med fullu Trauſte ganga til Nꝛdar-Stoolsins / ſvo ad vier Myſkun odlumſt / i hentugäſt Tijma / Neh. 4. Þo ſkalltu vita / Syndugur Madur / Skylldu þijna / þegar þu ſem ert Molld og Aſka / dyrfeſt ad tala vid DRottenn / ad hønum ber Dyrdenn og Neidurenn / en þier ber Blygdan þijns Andlitis / Svo giørde þeſſe Kvinna / þvi hlaut hun Myſkun / Svo giørdu hiner 10. Lijkþraau / Þeir ſtoodu fiærre / þvi urdu þeir hreinſader / Svo giørde hin Berſyndugu i Simons Phariſæara Huſe / med hverium JEſus var ad Heimbode / Hun kraup Bak til vid hans Fætur / og þvode þa med Taarum ſijnum / og þerrade med ſijnum Haarlockum / Kyſte þa / og ſmurde med Vidſmiøre / en er Phariſæus hneixladeſt þar a i ſijnu Hiarta / og meinte þad være Ohæfa / ad ſlijkur Stoor Syndare ſkyllde ſnerta hñ / ſem Forſked hiellt Spamañ ad vera / þa liet JEſus hañ ſialfañ leggia Doomeñ a / ad Sa munde elſka meir / ſē̄ meira uppgiefed være / en DRotten ſagde til hñs / Af þvi hun elſkade Miked / þa eru hennar Margu Synder fyrergiefnar. Ad Sijduſtu ſnerter Kona þeſſe hans Klæda-Falld / epter þvi ſem hun Raad fyrer giørde med ſialfre ſier / Nær þorde hun ecke ad ganga / Og er lijklegt / ad hun hafe ætlad ad dyliaſt / þar hañ ſtood midt i Mañ-þraungenne / og munde hennar þvi ecke giæta. Margur hefur JEſum ſnorted i þeſſum Hoop / Eñ eingeñ ſvo hart ſem þeſſe Kona. Þad ſtendur ſkrifad um̄ vorn Herra / ad þegar hñ ſa Aumur a nockrum / ad hans Hiørtu hafe komeſt vid i hønum af Medaumkan / Svo hefur og hier vered / Hañ fañ Krapt ut af ſier ganga / Hans Foodurleg Giæſka gat ecke leynt ſier / Brunnur Myſkunarennar vall hier upp ſialfkrafa / Og ſialft Himnaryke þolde hier Ofryke. En lꝛt þier þad af þeſſu til Hugar koma / Guds Elſkulegt Barn / Ad JEſus Chriſtur er uppfarenn yfer alla Himna / og er ecke framar med oſſ ad Lijkams Viſtum / Samt uppfyller þo hans Klæda-Falldur þad hetla Muſtere / ſem er Chriſteleg Kyrkia Guds hier a Jørdunne / þar um̄ ſpaer Zacharias / Cap. 8. Þad ſkal ſke a þeim Døgum / ad Tiju Menn af øllum Tungumaalum ſkulu þrijfa i Klæda-Falld Eydingsins /

sins/og segia: Vier viliu̅m fara med ydur/þui vier heyrum ad Gud sie med ydur. Hvernig er hn̄ þa med sine Kyrkiu hier a Jørdun̄e? J Ordenu og Sacramentunum/ þad eru han̄s Klæde/ þar er han̄ ad finna/ þangad attu ad þreyfa med Truaren̄ar Hende/ þa ertu hønum eins nærre/og en̄ þa nær en̄ þesse Kona/en̄ allra hellst skalltu til þessa Raads taka/þegar øll ønnur bila/ Nær hin̄ Sijdarste Mootgaungur Daudens þier ad Høndum kemur/ og þijnar Lijkamlegar Hendur þreifa ei leingur/ Haf þa svo fest þijna Truar-Hønd a þessum JESU Klæda-Fallde/um̄ Neydar-Tijman̄/ ad þu slepper hønum alldrei fyrer en̄ han̄ blessar þig/og mun i gegnu̅ hn̄ ofan̄ flioota til Sálar þinnar Krapt-ur af Nadum/ sa ed hana heilbrygda giøre af øllum Salar og Lijfs Meinum: En̄ han̄ sem eingan̄ vill fra sier reka / er til han̄s kemur / Han̄ sm̄ lofad hefur ad Bænheyra medan̄ þu ert ad bidia/ Hn̄ s sialf-ur þreitte vid Daudan̄/ z took akaflega ad bidia/og kan̄ þar fyrer ad samþijnast Eymdū þijnum/ Han̄/Sege eg / mun svara Salu þinne fyrer Heilagan̄ Anda/Hver ed Vitnar med þijnū Anda/ad þu sert Guds Barn: Vert Hughraust Mijn Doottet / Þijn Trua Giørde þig Hoolpna. Þad veite oss øllum Goodur Gud / Fyrer JEsVM Christum / A M E N.

# Tuttugasta og Fimta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled/Matth. 24. Cap.

ÞAn̄ Tijma. JEsus sagde til sinna Læresveina: Nær ed þier siaed Svijvirding Foreidslunar (af hvørre saget er fyrer Spaman̄en̄ Daniel) standande i Helgum Stad. Hvør sem þad les/ Han̄ hyggi þar ad. Hvører þa eru a Gydingalande/ Flyie þeir a Fiøll / Og hvør han̄ er a Riafre/ Fare han̄ eige ofan̄ nockud ad taka ur sijnu Huse / Og hvør sem a Akre er/snue han̄ ei aptur / ad taka sijn Klæde. En̄ Vei þungudum og Brioost mylkingum a þeim Døgum. En̄ bidied/ ad ydar Flootte verde ecke um̄ Vetur/ og eige a Þvottdeige. Þviad þa mun verda so stoor Hørmung/ hvilijk ad eige var i fra Upphafe Verallдaren̄ar/allt til þessarar Stundar/og ei helldur mun verda. Og nema ad þesser Dag-

at verde styttker / Verdur eckert Holld hoolped. Enn fyrer Utvaldra Saker / þa skulu þeir styttast. Enn ef nockur seiger þa til ydar / Siaed / Hier er Christur eda þar / þa skulud þier ecke þvi trua. Þviad þar munu upprijsa Falschristar og Falsspamenn / og þeir munu giøra stoor Teikn og Undur / so ad i Villu munu leidast (ef ske mætte) eirnenn Utvalder. Siaed eg sagda ydur það fyrer. Nu ef þeir seigia til ydar / Siaed / hann er a Eydemørku / þa gaanged ecke ut. Siaed / Hann er i Launkofum / þa trued eige. Þviad lijka sem Elldingin utgeingur af Uppgaungu / og skijn allt til Nidurgaungu / Lijka so mun og vera Tilkoma Mannsins Sonar. Þviad hvar helst ad Hræed er / Þangad munu og Ernerner safnast.

## Exordium.

JEsus bijdur synum Lærisveinum i þessu Gudspjalle / ad þeir skule ei trwa / þoott ad þeim sagt verde: HIer ER Þar Er CHRISTur / Þvi þar Munu Upprijsa Marger FALS-Christar Og FALS-Spamenn / Med ødru fleira sem Epterfylger / og i Gudspiallenu sier lyktast hermer. Allt rættest þetta strax epter hans Daga / svo af þessu mꝫ sia / ad þad satt er sem Paulus umm hann seiger / ad i hønum sieu hulder aller Fiærsiooder Vitskunnar. Ecke einasta fundust þeir medal Gydinga / er sig giørdu ad Christe / Svo sem var Bar-Cocaba er Anno 130. safnade Ogrynne Her a moote Hadriano Keysara / og sagdest vera Stiarna sv / er Bileam umm spaer / Num. 24. helldur og medal þeirra er sig Christna følludu / Svo sem var Simon hinn Fiølkunne / og Ótal fleire / sem utkomu af hans Skoola / og tølldu Foolkenu þa Trw / ad þeir være Heimsins Endurlausnarar / giørdu og mørg følsk Kraptaverk / svo sem af fornum Christendooms Søgum er alkunnugt / Vid þessum varar JEsus Vara synum Lærisveinum / og ecke einasta þeim / helldur og øllum þeim / sem hann og hans Kienningar elska mundu / þvi svo sem hann sagde i Bænenne til syns Himneska Føburs: Eg bid ecke einasta fyrer þeim (hann meinte Lærisveinana) helldur og fyrer þeim / sem a mig trwa munu / fyrer þeirra Ord: Svo hefur hann og þetta øllum þeim sagt / er Postuleg Kienning boodud verdur / svo sem hann og med þessum Ordum seiger hia Marcum i 13. Capitula: Þad eg seige ydur / þad seige eg øllum / Vaked þier: Og fyrer þvi / ad Aminning þesse heyrer og oss til / ydar hverta lykiegt er ad Heimsins Endee sie komenn / Þa vil eg hana alleina med synum Lærdoomum stuttlega yfervega.

Hvar til oss adstode goodur Gud med Krapte syns Anda i JEsu Nafne / Amen.

## Utleggingen.

ALLDrei kunnum vier Guds Fødurlegre Giæsku þar fyrer ad full-
þacka / ad hañ hefur Lande voru þyrmt fyrer Villum og Af-
Gudadyrkun / Hañs Nafn sie þar fyrer Lofad og Vegsamad
um̃ Allder Allda. Samt mun þo ecke Satan læta oss Alutlausa /
Varne Guds millda Hønd vid þvi/ad hañ deyde Sæler Mañaña med
Følskum Kieñingum/þa leikar hñ til med Illum Dæmum/med Bond-
um Forkølum/og Aeggian til Lasta og liootra Verka/med Toenlæte
og Nysne i þvi ad vyssa þeim Guds Gøtu / sem hana ecke fæ siælfer
ratad : Litluskypter med hveriu Mooke ad Fiandeñ og hñs Verkfære
sockia Daudlegra Maña Sæler ur Guds Hende/. Ill Neimsins Ept
erdæme/sierdeilis þegar þau ecke strøffud eru/ þau eru sterkare til ad
draga Taum Andskotans / eñ nockur Villu-Madur : Margur mun
vera fyrer ranga Tru Fordæmdur / og þo kañske ei færre fyrer illañ
Verknad / þar fyrer seger og Endurlausnareñ. Vei þeim Mañe/fyr-
er hvern ad Hneixlaneñ kiemur/ Matth. 18. Epterdæmed er ein Al-
meñeleg Tunga / sem aller skilia. Þad var hallded Furduverk um̃
Mitridatem Konung i Ponto / ad hañ hafde i Lide sijnu Allrahanda
Piooder / og gat þo talad sine Tungu vid hvern þeirra / Eñ þad er
stærra Furduverk/ ad eitt Epterdæme talar þeigiande vid alla Meñ /
sem þad heyra/ z þoott þad sie Hlioodlaust siælft/giører þad Þusund
Tungur skyrt talande : Ill Dæme spilla bæde Vondum og Goodum :
Vonda draga þau til Epterbreytne / þvi hvad elskar sier lykt. Þañ
Gooda til ad tala illa um̃ þañ/sm̃ þad af sier giefur/ þvi fæer eru svo
Raadsetter / ad ecke hallmæle þeim sem Illt adhefst / Jafnvel þoott
Verked byrie ad hata eñ Mañeñ elska / og Meñ eige ad Lagfæra þad
sem illa fer/ eñ lasta ecke/ svo sem Paulus æminer þa i Galatia/seg-
iande / Cap. 6. Brædur / Ef nockur verdur yfersteigeñ af einhverre
Hrøsun/þier sem Andleger erud/Leidriettid þañ sama med hoogværu
Anda. Þad er ad vyssu satt / ad eingeñ er sæ a medal vor / er
kiefie Villu neina / Eñ hvert ad vier kunnum þar fyrer ad hroosa
oss af þvi / ad hin saña Tru a Christum / fyrer hveria Meñ Sælu-
hoolpner verda/ hvert ad hun drottne i allra Maña Hiørtu / þar um̃

 mæklu-

mætku Meñ efast næsta miøg. Endurlausnareñ seiger um̄ Fals-Spameñena/ ad af þeirra Avøxtum skulu Meñ þeckia þa : Og hid sama þore eg ad segia um̄ þa / ed hroosa sier af Gudhrædsluñe (þad er af Christeñdoomenum / svo sem Paulus hañ a stundum nefner) eñ afneita þo heñar Krapte/ 2. Tim. 3. Hver er þa christeleg Tru? Hun ed verkar fyrer Kiærleikañ / Gal. 5. Eñ hverneg hønum vared sie a þessum vestu og skiødustu Døgum / þad fiñur hver Eirn / þegar hañ stijngur Hendeñe i siñ eigeñ Barm/ og spyr sitt Hiarta ad/ hversu fus ad hañ sie æ ad til giefa sijnum Naunga hñs Misgiørder: Hvad miked hañ vill missa af sijnum Munum / til ad hiælpa þeim Auma og Naudstadda: Hversu liufur hañ er a ad afsaka siñ Broodur/ tala vel um̄ hañ/ og færa alla Hlute til betre Vegar: Hvørsu Kostgiæfner ad Foreldrar og Husbændur eru i þvi / ad ala upp Børn sijn og Hiu i Guds Otta og goodū Sidum. Med hveriu Skape ad Børn & þioonustu-Foolk hlijda Foreldrum og Husbændum / edur hiner Undergefnu þeim Yferbodnu : Allt ætla eg þetta fare i Olestre hiæ morgum Mañe. Hver þad heyrer/ hañ hygge þar ad / edur hver er þa Christeñdoomureñ/ er Meñ hroosa sier af / þegar Kiærleikañ vantar ? Hver ad er Sæl Truareñar / Svo sem Jacob seger / Ad hun sie daud ān Verkaña / Cap. 2. Hier stendur i Undverdu Gudspiallenu : NÆR ÞJer Lijted SVJvirding FOReydsluñar/ STANDande i HELGum STad : Margar Getur eru a þvi/ hvad þetta vered hafe: Nockrer meina þad hafe vered Bijlæte hins Romverska Keysara. Adrer neita þvi/ og segia þad hafe alldrei iñkomed i Jerusalems Mustere: Sumer ætla þad eckert añad sie / eñ Her Romveria/ af þvi/ ad þegar Lucas skrifar um̄ þetta Efne / seger hañ: Þegar þier siæed Jerusalem umkrijngda med Herskyllde / Edur og svo Dalldar Flockur sa / er skomu þ Eydelegginguna braust iñ i Jerusalem / og saurgade Mustered med Morde/ Mañdrapum/ og allra handa Svijvirdingum: Þesser voru Gydinga Kyns/ og kølludu sig Zelotas/ þad er Vandlætara/ og var þad Svijvirding noogu stoor / ad þeir tekku uppa sig Nafn Gudlegrar Vandlætingar/ sem Guds Mustere smæmudu og svijvirdtu/ verr

eñ

eñ nockurn Tijma Neidingiar. Til eru þeir sem hyggia / ad þesse Svivirding Foreydsluñar hafe vered Gull-Orneñ su/er Herodes Kongungur liet setia uppa Mustered / til Agiætis vid Roma Rijke / hvers Merke ad Orneñ var/ og høfdu Romverjar a þeim Atrunad mikeñ / þess getur Tacitus i siñar Aññala Bookar Cap. 2. Er z all-lijklegt / ad þad hafe nockud þesshattar vered / Þvi Svijvirding Foreydsluñar/ su er Daniel talar uñ / Cap. 11. Er æn alls Efa Bijlæte Skurgodsins Juppiters / er Antiochus Epiphanes liet setia iñ i Guds Mustere/ af hveriu ræda mæ/ ad þesse / er Daniel uñ spaer / Cap. 9. Og Endurlausnareñ hier uñ getur mune hiñe Fyrre a Einhvørn Hatt hafa lijk vered: Samt er allt Þtta ad vijsu Ovijst/ og þott eg sege hier uñ Imissra Maña Meiningar / til Froodleiks þeim/er epter vilia taka/ Þa vardar oss/Christna Meñ/nærsta lijted hier uñ/ Eñ hitt byriade oss ad rañsaka hvert ad Svijvirding Foreydsluñar kyñe ecke eñ nu ad fiñast i Guds Kyrkiu / ef vel er leitad. J Jerusalem hafde Gud sett Miñing sijns Nafns Æfeñlega/ Hin Lijkamlega er nidurbroteñ / Guds Reide-Stormur hefur heñe uñ Koll kastad / eñ hin Andlega mun verda hiæ oss til Enda Veralldar / Matth. 28. Eñ hvert heñe er alltijd svo hreiñe halldeð/ sem byriar/ þar er vandlega adgiætande/ Jeg sagde / ad i Jerusalem hefde Gud sett Miñing sijns Nafns/þar bioo hañ yfer Cherubim/ eñ þad er ecke miñe Nææd/ad hiñ ædste Prestur hefur sagt til vor/ Joh. 14. Hver sem elskar mig/hañ vardveiter mijn Ord/ og miñ Fader mun elska hañ/til hañs munum vid koma/og Vistar-Veru hiæ hønum giøra. Eñ æ oss daudlega Meñ / under Syndena sellda / Hversu lijtil er Miñing Guds Nafns hiæ oss/ þegar vier metum alla Hlute framar hñs Dijrd? Hversu lijted af vorum Gagnsmunum/voru Lijkamans Epterlæte/vorum Virdingum/vilium vier a stundum missa fyrer hañs Elsku? Hvad opt metum vier Bod Mañaña meir eñ Guds / og hrædumst meir þa ed Lijkamañ kuña ad deyda / eñ hañ/ sem Lijfe og Sæalu kañ ad kasta i eilijfañ Elld? Hvad opt giørum vier siælfa oss ad Gudum / er vier tilreiknum vora Hamingiu og Lucku-Lææn Framsijne vorre og Erfidismunum / eñ giætum

ecke ad þui / ad nema Gud vakte Borgernar / þa voka Vøktmennerner til Forgiefens / nema Gud bygge Hused / þa erfida þeir ed byggia til Onytis ? Ps. 127. Hvad lijtil er Minning hans Nafns hia oss / þegar vier Vanbrukum hans Heilaga Nafn / sverium og liugum þar vid / ia / þyker þad eingen Synd vera / þui þad sie Daglegt Mal? Ja / Margur selur JEsum fyrer minna enn Judas / sa ed leggur hns Nafn vid hid allra minsta Hiegooma ? Hversu lijtil er Minning hns Nafns hia oss / þa vier forsmum hns Heilaga Ord / og fordumst þangad ad koma / sem þad er um Hond haft? Hversu lijted minnumst vier þa a hn / sem Moosmalenn þolde af Syndurunum / til ad opinbera syndugum Monnum Lijfsins Veg ? Þegar vier viliu ecke lia vor Dumbskoren Eyru til ad heyra þad / Sem þo er Kraptur Guds til Saluhialpar øllum þeim sem trua / Rom. 1. Menn sitia a stundum under Heyrn Guds Orda / og vita ad Heilagur Ande er i Ordenu / og þad er eins og eitt Mustards-Korn / hvert ad er hid minsta medal Sadanna / enn vex þo svo hatt / ad Fuglar Himensins bua sier Hreidur i Greinum þess / Matth. 13. Samt vilia Menn ecke lia þui hid allra minsta Rum i Akre sijns Hiarta / Hvar inne þad friofgast meige og Avøxt fara. Svo sitia vorer Bugardar / Vor Akneyte og Allra Handa Hiegoome Veralldarenar þar / sem hin Heilaga Guddoomsins Prediking atte ad sitia / J sijnu Mustere / sem ad er vort Hiarta / 1. Cor. 3. Seged mier i Guds Nafne / seged mier / Er ecke þvilijkt Soijvirding Forendstunar standande i Helgum Stad ? JEsus hefur læted i sijna Kyrkiu hier a Jordunne innsetia sitt Bijlæte / þad er Kiærleikuren / þad er hns Mynd / þui han er Gud / og Lioome sijns Fødurs og Jmynd hans Guddoomlegrar Persoonu / Heb. 1. Enn Gud er Kiærleikuren / 1. Joh. 4. Þetta sitt Bijlæte fieck hn i Hendur sijnum Elskulegum Lærisveinum / er han sagde / Joh. 13. Þar af skulu aller þeckia ydur / ad þier sieud mijner Lærisveinar / ad þier elsked hver annan. Þessa Lijkneskiu JEsu setttu þeir inn i hans Kyrkiu hier a Jordunne / med allre Tru og Dygd / Þui skrifad er / Act. 2. Ad aller Hluter voru sameigenleger med þeim Truudu i Jerusalem / þeir baru Eigur sijnar fram fyrer Postulanna

Fætur /

Fætur/ til ad skipta þeim upp medal Nauðþurftugra/ og aller voru þr i Eindrægne Andans : O hvad Olijker þessum Tijmum / þar Ræn og Stuldur / Okur/ Harddrægne/ Ræningsteitne i Kaupum og Solum/ Myskunarleyse/ Agg/ Reide / Frandskapur / Ofund og Drambseme þykia sumra Manna a medal ann ad hvert einger Okoster / Edur og svo smærer Lester ad vera : Er þad hans Asiane/ sem svo heitt elskade oss/ ad hann doo fyrer oss Ræningiana / þa vier vorum hans Oviner? Rom. 5. Er þad hans Lijking/ sem ecke upplauk sijnum Munne/ þegar hönum var Moolmællt/ helldur enn Saudur til Slatrunar leiddur? Esa. 53. Er þad hans Mynd/ sem geck i Kring/ giørde Gott og grædde alla/ Ja/ Allt giørde hann vel / þvi Dauva liet hann heyra/ og Maallausa tala : O Vei / O Vei/ Jeg þore ad segia / þar er ønnur Mynd innkomenn / Ecke hins Romversku Keysara edur hans Merkes / helldur Andskotans og hans Merkes / Sem er Syndenn / hveria ad Madurenn latur drottna i sijnum Daudlegum Lijkama / og liær Limu sijna henne til Vopna : Pier erud af Fødurnum Fianda/ og lestest vid ad fyrerkoma mier/ seger JEsus vid Gydinga/ Joh. 8. Enn þeir ed eru Hardbriostader / Afælner / Steiplægner / og ecke þyrma hans Limum / Munu þeir ecke stryda under sama Merke og þeir ed hann høfudu og af Lijfe tooku : Edur hvad er þad sem Raustenn af Himne sagde vid Paal/ Act. 9. Er hann foor med Hernade og Ofride til Damascum/ ad moote Guds Søfnude : Saul/ Saul/ hvi Ofsaker þu mig : Edur þad sem Doomare Lifendra og Daudra vill segia til hinna Gudlausu/ þegar hann kemur i Skijum Himens med Magt og miklu Vallde / A hinum strænga Deige alls Holdsins : Hvad þier giørdud Einum af þessum mijnum Minstu Brædrum / þad giørdud þier mier / Matth. 25. Andskotenn kom i Orms Lijke/ þegar hann sveik vora Fyrstu Moodur / þad var hans Mynd / Enn Christur nefner þa Eytur-Orma og Nødru Kyn / Matth. 23. Sem ad utsiuga Hus Eckna og Fødurlausra / þeir ed tijunda Myntu / Aniis og Cumen / Hlute sem eckert var i spunned / Enn gleimdu þvi sem hellst er i Løgmalenu / Truna og Myskunsemenn : Mun ecke þesse Hoggormsins Mynd Allvijda vera skridenn

ið fyrer Ðroftens Alltare/sem er Maññsins Hiarta? Þar Flærtskapur og Vnderhyggia spuñeñ samañ við Agyrne og Fedrætt / og aðra þvilijka Leste/ þyker Framsyne að vera/og Sæ Bitsirringur/sem ecke kañ að fleyta sier i þessu. Christur seger hier i Gudspiallenu / Að Næste þeirra Tijma / sem koma mune epter Jerusalems Eydelegg ingu/ mune svo mikell verda / Að J VJllu MENe JAFNvel ÞEID ast / Ef Ske Kyñe / VTVALDER / Og það vegna Fals-Spæmañaña/þeirra er opuðu epter Guds Almætte/og svíku margar Sæl er fræ honum : Svo skiedur og a þessum vondu Dogum allstjtt og allvijda/ að þeir sem añars mundu Froomer vera / þeim tekst það ecke vegna hitña Rangsnunu og Nreckvyssu i Veroldeñe/um hverja Salomon talar/ Prov. 1. Að þeir sege : Kom með oss/ vier vildum umsitja Blood/ og hylja oss að Osekiu fyrer huñum Meinlausa/ Vier skulum eignast mikel Audæfe / og fylla vor Hus með Herfang / legg Fe Lag með oss/vier skulum aller eitt Stood hafa. Einga argare Fals-Spæmeñ þarf eñ þvilijka Belials Syne/ z svo spillta Nattturu vora/ þvi hver Eitt freistast þegar hañ af siñe eigeñ Gyrno verdur tældur og afvega leiddur / þar epter Gyrndeñ / nær hun er frioofsem vordeñ / fæder hun Syndena / eñ þegar Syndeñ er giord / fæder hun Daudañ / seger Jacob. Cap. 1. Drage eingeñ sialfañ sig æ Tælar þar með / þott að slijker umgangest með sama Hatte og aðrer i Guds Christne / þeir heyra Orðeð / eñ færa ei Avoxt þar af / þeir bruka Sacramenten/eñ þo sier til Dooms-Afellis/þeir seigia/ Herra/ Herra/ eñ giora þo ecke Födursins Vilja/ þvi vill og Doomareñ til þeirra segia a hinu mikla Allsheriar Þijnge / Ecke þeckta eg ydur. JEsus seger um Fals-Spæmeñena/að þeir kome i Sauða-Klædum / eñ iñra sieu þeir glepsande Vargar : Svo eru og þeir / ed locka Einfalldar Sæler fræ Gude með vondu Fortolum : Þesser eru þeir er St. Judas umtalar i hñs Pistle seigiande : Þesser eru Bletter i ydar Kiærleiks Veitslum/ nær þeir hallda Samsæte með ydur : Fædande sialfa sig Hræggiulaust / Sky fyrer utañ Vatn / hveriu Vindureñ i kring feyker / Rotnar Eykur og Avaxtarlausar / Tvisvarsiñum

daudar og uppraktar / Og ef þañ Veg var hagkad a hinum Fyrstu Christnesiar Døgum/ þegar ad Kraptaverkeñ fylgdu eñ þa Kieñingenñe / Hvad mun ei nu vera/ þar ad þvi mun lijda / ad Mañsins Sonur ecke finne Tru a Jørdu/Luc.18. Og lijklegt er/ad þeir Tijmar nu yferstande/ sem Røddeñ af Himne spaer um/ Apoc. 12. Vei ydur sem a Jørdune bued og a Sioonum / þvi Diøfulleñ er ofañ til ydar fareñ/hafande Bræde mikla/ af þvi hañ veit hañ hefur stuttañ Tijma. Nu fyrer þvi/ Christner Meñ/ ad hier er slijkur Vode a Ferdum/ þa verdum vier af hiñu Gooda Meistara æmiñter i þessa Heilaga Dags Evangelio / Lætum oss ecke feikia af hverium Vinde Lærdoomsins / Eph.4. Edur feigia med Hafgyiu Saung Veralldareñar i Snørur Diøfulsins. JEsus giører þad hier bert med skijru Ordum/ hvernig hañ og hañs Kieñingu þeckia meige fra Afvarlegum Lærdoomum. Ef þEir SEGia Hañ Sie A EyDEmørku / stendur hier / Ad søstu kiende JEsus i Eydemørku / þo i Margra þusunda Aheyrn / Ecke i Launkofum/ þvi hañ talade ekkert i Affkimum / helldur kiende hañ Opeñberlega i Musterenu / þar fyrer lijker hañ Tilkomu siñe vid ELLDINGV þa/ er ut fer af Vppgaungu/eñ skijn allt til Nidurgaungu/hvad eg hygg ad ecke sie ad skilia uñ hañs Tilkomu til Doomsins / helldur uñ hañs Nædar Tilkomu i Ordenu/ og Lepptran Evangelii / Hvers Byrta ad strax epter hañs Himna-Før / og allra hellst epter Jerusalems Eydeleggingu upplijste mikeñ Part Veralldar fra Austre til Vesturs / Og þad dreg eg þar af / Ad hier talast ecke uñ Skiootleik Elldingareñar/helldur uñ heñar Byrte/og JEsus er hier uñ Kieñingar ad tala / eñ ecke uñ sijna Tilkomu til Doomsins/ Fyrr eñ sijdar i þessum sama Capitula. Vm þessa Byrte Guds Evangelii og hiñar Predikunar talar Paulus/ 2. Cor. 4. Segiande: þar fyrer hofum vier afsalad oss þau Fylsne / er Meñ meiga skamast sijn fyrer / Ecke gangande med Vnderhyggiu edur falsande Guds Ord / helldur i Openberun Sañleikans / giørande oss i allra Mañá Samvitskum Velþockada fyrer Gude / þvi ef vort Evangelium er huled / þa er þad þeim huled sem tapader verda. Nu fyrst ad Guds Fødurleg

leg Giæska hefur svo vijdt utbreidt þeckingu sijns Nafns / svo þad Foolk sem sat i Myrkrunum hefur sied Lioos miked / Matth. 4. Og hun er eiñig til vor komeñ / sm̃ buñ under þessu ysta Heimsins Skaute / svo ad seigia a Foot-Skør Veralldareñar / þa læt þiñ Foot vera fus añ / Christ: M: / til ad ganga i Guds Hus / þar sem hañs Ord er uñ Hønd haft / og lijd ecke ad Sælu þijna velge vid þui svo sem ødru Liettmete / þui þad er Foodur heñar / eñ hvers heñe mun med Eilijfu Hungre sælgad verda i Helvijte / hvar Fordæmder ecke fa munu eiñ Dropa vatns til ad kiæla Tungu sijna med / þar þeir kveliast i þeim Loga / Luc. 16. HVar Sem Ad HRÆed Er / þAR gad SAFNast ERNirner: Þetta talar Guds Sonur eñ alls Efa um̃ sialfañ sig. O miñ HErra JEsu / þui er svo adkveded þijnum blessada Lijkama? hvern ad jafnvel Einglarner og Høfud-Einglarner tigna: Fyrer hverium ad Kraptar Himnaña bifast: Fyrer hverium øll Verølldeñ leikur a Reidi-Skiælfe: J hverium ad bijr øll Fylling Gudoomsins Lijkamlega / Col. 2. Hañ verdur hier Hræ nefndur: Hvar fyrer er þetta skied / Christner Meñ? Jeg miñest a mijnar Synder a þessum Deige / sagde Skeinkiare Pharaonis fordū i Egyptalande / og þui munde oss þa ecke øllu skylldara vera / ad miñast a vorar Jllgiørder / sem hafa Guds Son kvaldañ / og Herfoga Dijrdareñar a Krosseñ festañ? Þui sañlega bar hañ vorar Synder / og vorum Yrkumslum hlood hañ a sig / Hegningeñ hefur a hønum leiged / og fyrer hañs Beniar erum vier Heilbrygder vordner: Hañ er vordeñ hiñ Fyrerlitlegaste og Forsmaanarlegaste / Fullur Eymda og Krankleika / Svo sem sa / ed hylde sitt Andlit fyrer oss / og þar var eckert a hønum / sem vier virtum / Esa. 53. J einu Orde ad seigia: Hañ var svo sem eitt utkastad Hræ / svo sm̃ Madkur ecke Madur / fyrer vora Skulld / sm̃ lææ i voru Bloode / utkastader a Vijdavangenū / og þar var ecke Eitt Auga sem Myskunade oss / þegar hañ sagde til vor / i voru Bloode / ad vier skylldū lifa / Ezch. 16. Eñ þeña Maalshætt framsetur vor DRotteñ til þess / ad kieña sijnum Læresveinum / hvar þeir sie ad fiña / sem er / i hiñe søñu Christelegu Kyrkiu / er hañ hefur stiptad hier a Jørduñe / þar er hañs

ad

ad leita i Ordenu og Sacramentunum: Þangad sækia aller hñs Elsk-endur / Svo sem Ernerner ad Hrænu. Ef eg verd upphafen̄ fra Jordu/ þa mun eg draga alla til myn̄ siaalfs/ seger JEsus/ Joh. 12. Han̄ meinar / an alls Efa / þegar han̄ yrde upphafen̄ a Krossens Gaalga / Þvi Johan̄es skrifar/ Ad han̄ hafe sagt þetta/ Teiknande med hverium Dauda han̄ deyia munde. J þessum JESV Dauda hafa allar Harmþrungnar/ allar San̄-Ydrande Man̄eskiur/ allar þær sem hungra og þyrsta epter Riettlætenu/ Þær hafa þar/ seg eg/ Eitt Andlegt Foodur / ecke siþur en̄ Ernerner i Hrænu. Nei-lagur Johan̄es/ Sa ed þetta skrifar/ um̄ hvern og segest/ ad JEsus hafe han̄ elskad/ han̄ verdur samlijktur einum Erne/ og þad þess vegna/ ad han̄ hefur med han̄s Andlegum Skilninge svo haatt floged/ ad eingen̄ hefur svo Greinelega talad um̄ þan̄ Oran̄sakanlega Leindardom Guddomsins Predikingar/ og Holldtekiunar Christi/ sem hn̄ i han̄s Evangelii og Pistils Fyrstu Capitulū. Ein Rett-Christen̄ Saala er ein̄ san̄ur Christi Læresvein̄ / hvern han̄ elskar / hen̄ar Vm̄geingne er a Himnum/ hvar hen̄ar Fiesioodur er/ þar er hen̄ar Hiarta/ en̄ hen̄ar Fiesioodur er a Himnum/ hverium ei kan̄ Molur nie Rid ad granda/ Matth. 6. Hun flygur upp i Hædernar med Truaren̄ar Vængium/ under hverrar Hlijdne hun giefur sijna Skilningu fanngna / þar finur hun sitt Foodur/ þvi han̄s Holld er san̄arleg Fæda/ og hn̄s Blood san̄arlegur Dryckur: Þetta sitt Holld og Blood gaf han̄ sijnum elskulegum Læresveinum til Nautnar i DRottenlegre Kvølldmaaltijd / skom̄u ądur en̄ han̄ Lijflaaten̄ var / og giørdest svo sem eitt Hræ fyrer vorra Synda Saker/ þangad safnast en̄ nu i Dag/ epter han̄s Bode/ Aller þeir sem Erfida og Þunga eru þiader/ til ad Endurnæra Saaler sijnar, og ad niotast Dauda DRottens/ med hveriū þeir forlijkter eru vid hin̄ lifanda Gud/ Han̄ sedur þin̄ Mun̄ med Giædū/ og endurnyar þin̄ Vngdoom/ svo sem Arnaren̄ar/ seger David/ Ps. 103. Hvergi skedur þad helldur/ en̄ i Medtøku Christi Hollds og Bloods/ þa Madurenn þess neyter under eins med Truaren̄ar Mun̄e / og ein̄ Harmþrungen̄ Ande smackar hvad sætur ad DRotten̄ er/ Þvi JEsus seger: Eg er

 hid

hid lifanda Braud / sem af Himnum ofañ kom ? Ef nockur etur af þessu Braude/ hañ skal Eilijflega lifa : Eñ þad Braud/ er eg gief/ er mitt Holld/ sem eg mun utgiefa fyrer Lijf Veralldareñar / Joh. 6. Hañ meinar hier / samt hina Andlegu Naudn / sem med Trunne skiedur : Fyrer þvi seger hañ aptur svo/ Joh. 11. Eg em Vpprisañ og Lijfed/ Hver sem a mig truer/ þoott hañ sie daudur/ þa skal hañ samt lifa : Ja/ af þessare Andlegre Naudn / verda þeir Himnesku Erner / sem eru Christnar Saaler Andlega endurnijader/ og allijdo eins og Skiepna i Guds Auglite/ þvi af heñe vidurkvemelest Truen/ af Trune kemur Elskañ/ af Elskune fædest Kiærleikureñ til Naungans/ af hverium ad uppsprettа allar Christelegar Dygder og Manakoster : Þar fyrer seger JEsus eñ þa/ Joh. 6. Sa sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood/ hañ blijfur i mier / og eg i honum : Eñ sa Madur er blijfur i honum/ og hañ i Mañenum/ hañ ber mikeñ Avøxt/ Joh. 15. Eg hygg JEsus hafe teked þeña Ordshaatt af Jobs Bookar / Cap. 39. þar ed DRottеñ seger vid hañ um Ørnena / hun byr i Klettunum og i Fiøllunum/ og i Turnunum/ þadañ skygnest hun epter Ætunni langt a Leid med Augum sijnum / Heñar Vngar drecka Blooded / og hvar sem Hræeñ eru/ þangad flijter hun sier. Miñ HErra JEsu/ hver er hañ / sem seger / Cant. 2. Mijn Dufa / þu sem i Biargskorunum byr/ og i Fylsnum hiña þverhnijptu Klettaña/ Sijn mier þitt Andlit/ og lat mig heyra Raust þijna / þvi þijn Raust er føgur / og þijn Asiund Lysteleg: Ertu ei sialfur þad/ miñ HErra JEsu? Hver er hin sæta Raustеñ ? Þad er þad Lofed þu hefur þier tilreidt af Muñe Vngra Barnaña/ sem mylkia siñar Modur-Briost/ og þiñar Vøggu. Hver er hin fagra Asynd ? Þad er su/ sem þu oss afrekader / þegar þijn Asiona vard Afskræmd/ meir eñ añarra Maña. Hver er þijn Dufa/ miñ HErra? Þad er þijn Christeleg Kyrkia/ sem hier verdur i Evangelio Ørn kollud. Hveriar eru Biargskorurnar ? Þad eru þijnar blæddar Vnder/ þu sem ert vort fasta Biarg / og Hella vors Hialpræd[illegible]. Hverier eru heñar Vngar ? Þad eru þijn og heñar Børn/ þau Børn/ sem DRottеñ hefur giefed þier/ Es. 8. Og epter Hollvsins

Villo/

Villd/ edur mannsins Vilia/ helldur epter Gude eru fædd/ hverium þu hefur & Magt gefed Guds Børnum ad vera/ Joh. 1. Hvert er þad Blooded/ er þier lepiar? Þad er þitt Blood/ O JEsu/ sem ad hreinsar oss af øllum vorum Syndum/ 1. Joh. 1. hvert er þad Hræed/ er þier safnast ad? Þad er þinn blessadur Lijkame/ sem er sannarleg Fæda/ Joh. 6. & a Gálgann var þad vorar Illgiørd er heingdur: Þangad villium vier safnast/ þar villum vier Sadning finna Sálum vorum/ þar villum vier lifa og deyia: I þessum Biarg-Skorum villum vier hylia oss a hinum stranga Degie/ medann Reidenn fram hiá geingur/ og ecke segia til Hálsanna/ hylied oss/ edur Fiallanna/ hrinied yfer oss/ þvi þu Drottenn ert vor Kastale/ vort øruggt Vijge/ vort fasta Biarg. Þier med Fødur og Heiløgum Anda/ sie Lof/ Prijs/ Heidur/ Vegsemd og Æra/ af øllum Utvøldum Einglum og Mønnum Søgd og Sungenn/ umm Allder Allda/ Amen/ I JESU Nafne/ Amen.

# Tuttugasta og Siøtta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled/ Matth. 11. Cap.

A þann Tijma. JEsus Andsvarade og sagde: Eg þacka þier Fader og DRottenn Himens og Jardar/ Ad þu dulder þetta fyrer Spekingum og Vitringum/ og Opennberader þad Smælingium. Ad sønnu Fader/ Þviad þad var so þægelgt fyrer þier. Aller Hluter eru mier i Vald giefner af mijnum Fødur. Og einginn þecker Soninn nema Faderenn og einginn þecker Fødurenn nema Sonurenn/ og hvøriumm Sonurenn vill þad Opennbera. Komed aller til mijn/ þier sem Erfided/ og Þunga erud hladner/ Eg skal Endurnæra ydur. Taked a ydur mitt Ok/ og læred af mier/ þvi ad eg em Hogvær og af Hiarta Lijtelatur/ & munud þier finna Hvijld Sálum ydrum/ Þviad mitt Ok er sætt og mijn Byrde er liett.

## Exordium.

VAlla trúe eg/ ad nockur Huggunarsamlegre Grein finnest i Hellagre Ritningu/ Enn þau Dyrmætu Ord Frelsarans/ er standa i þessu blessada Evangelio/ med hvørium hann hefur til sinnar Nádar og Endurnæringar boded øllum þeim/ sem Erfide drygia/ og Þunga eru hlader. Hvad kann

sæ Gledelegra ad heyra / sem allskins Lyndum hleden̄ er / og einkis a Von nema eilijfra Pijsla / helldur en̄ þad / ad han̄ sem allt Valld er gefed a Himne og Jørdu / Matth. 28. Han̄ bydur til sijn ad þyrra Bragde svoddan̄ elne voladre og tapadre Man̄eskiu / og ecke einasta bijdur hen̄e til sijn / helldur og lofar ad han̄ ville Endurnæra hana ? Þetta er svo dyrmætt Ord / ad eckert kan̄ Fagnadarsamra ad hugsast edur talast : En̄ hvert ier ad sieu meinter med þessum Lausnarans Ordum / þar um̄ er ecke allra Meining eins. Sumer ætla ad DRotten̄ hafe talad hier um̄ þa sier i Lage / sem ad leitudu Saluhiælparen̄ar a þeim Døgum i Kyrkiu Sidar Løgmælenu / i Fedran̄a Setningum / og i Verkum Løgmælsins / en̄ kunu þo einga Hvyld ad vin̄a Sælum sijnum þar af. Þesse Meining er Guds Orde samhlioda / þvi Esajas Cap. 9. Kallar Løgmaled Byrdar Þunga. Adrer meina ad hier med sieu þeir meinter / sem under Krossenum stynia / og bera Christi Ok a Herdum sier / En̄ brioota þo ecke Oked i sundur / edur þverskallast a moote Gude / sem þad a þa leggur. Ad Sijdustu ætla Nokrer / ad þad sieu þeir / sem stynia under Byrde Syndan̄a / og skielfast fyrer Guds Reide og eilijfre Fyrerdæmingu. Nu fyrer þvi / ad hin̄ Stoore Biskup med þa vollærdu Tungum plagade a sijnum Hervist ar Døgum mikla og marga Hlute i fæum Ordum inn ad binda / þa hygg eg ad allt þetta / sem adur er um̄ getid / sie fooged i þessu Mæle / Han̄ bydur øllum til sijn / þad er øllum þeim / sem a einhvørn̄ Hatt eru mædder edur Þunga þrædder / Jafnvel Ogudlegum i Ranglætisverkum og Yfirbrotnum / hverium hin̄ mesta Byrde a Herdum liggur / þoott ei finne þeir til hen̄ar / þar han̄ er fyrer alla dauden̄ 2. Cor. 5. Og fyrer hveria han̄ dauden̄ er / þeim hefur han̄ til sijn boded / þvi eingen̄ vill han̄ tapest / helldur ad aller komest til San̄leikans Vidurkienningar / 1. Tim. 2. En̄ søkum þess / Nu er eingen̄ sa medal vor / sem leite ad Saluhiælparen̄e i Løgmælsins Verkum edur Setningum / En̄ um̄ Krossburd DRottens hefer eg nockrum Sin̄um adur talad. Þa vil eg i þetta Sin̄ tala um̄ þa / sem under Byrde Syndan̄a kreitter eru / og hvad þad sie helst / sem oss eige ad leida til ad taka þeigiens Hende a moote þessu Nædarfulla Tilbode.

En̄ þu Giæskurijke Fader / sem øllum hefur til þin̄ar Myskun̄ar boded Styrk oss med Krapte þijns Anda til þessa Verks / Fyrer JEsum Christum Amen.

## Vtleggingen̄.

ÞOkt þar eckert an̄ad være / sem kynne ad hræra oss til ad fagna þessu Giæskurijka Bode / þa er þad vor eigen̄ Eymd : Nær er svo Þyrstur / ad han̄ verde ecke feigen̄ ad drecka / Hungradur ad mettast / Þreyttur ad hvijlast / Sioohraken̄ ad na Nøfnen̄e / Siukur / ad han̄ ecke giefe Aleigu sijna til / ad han̄ meige Heill verda / og sa ed i Fangelse situr / ad han̄ kaupe ecke Lausn sijna dijrum Doomum ? En̄ nu er þad Audvitad / ad Man̄eskiun̄e / a medan̄ hun̄ er under Guds Reide / hen̄e er miklu ver fared en̄ øllum þessum. Eingen̄ Þorste / Hungur / Erfide edur Siukdoomur kan̄ ad jafnast vid þad / ad eiga Von a

hen̄a

hans Ohlydu / fyrer hvers Auglite ad skialfa Fiskar Siafarens / og Fuglar Himensens/og Dyr Merkurenar/og oll Skriwkvikinde a Jord unne/og aller Men/sem a Jordune eru/Fiollen klofna/Biorgen hryn-ia/og aller Murvegger munu til Jardar falla/ Ezech. 38. Eckert Naf-Rook er svo sem Belials Becker/Ps. 18. Svo sem þau Vatnen/ sem ganga inn ad Sealu eins margrads Syndara/Ps. 69. Hver eru þau Bond og Fiotur/sem mege safnast vid Myrkrana Hlecke/ 2. Pet. 2. Vid þad Dyke sem vellur af Ellde og Brenesteine? Apoc. 21. Og kunnum vier ecke ad efast um/ ad allt þetta er Syndarans biod/þegar vier lesum i Logmale DRottens/ Deut. 27. Ad sa skule Bolvadur vera sem ecke helldur allt þad sem þar er inne skrifad. Seged mier þa/ Born min/ hvilikt Fasinna er þad / ad taka ecke a moote honum med allskonar Blydu/sem bydur Monnunum ad giora þa koitta vid Oskop þesse? Nu hveriun oll Veralldarenar Ograsa/ Hungur/Fatleyse/ Banvænar Sootter / Orbyrgd / Utlegd / Offsookner/ Ellds-Naud / Sverds-Eggiar/og jafvel sialft Fiorbrotet i Daudanum/ hvort allt þetta i Eine hladest a Eina Manestiu um allar Heims-Allder/ þa være þ/ seige eg/ hid mesta Epterlæte og Sæla hia hinne eilifu Normmunnr/ er Synden hefur tilunned. Og være nu þetta Tilbod ecke svo mikels virdande/ef vier hefdum nockud til þess unned/edur leitudum þess ad fyrra Bragde/þvi þad kynne þa ad heita svo sem nockurskonar Verd kaup/ svo sem ef einn Pienare giorer eitthvad þad / sem einum Hofdingia vel lijkar/ad hann setur hann vid sitt Bord/og sæmer hn Giofum/ jafnvel meir en hn hafde tilunned. David giorde vel vid Mephibozet/ og leet hn eta Mat vid sitt Bord / sokum Vinattu sinar vid Jonathan Fodur hns/ 2. Sam. 9. Vidlijkt giorde hann og vid Son Barzillai ur Gilehad/ 1. Reg. 2. Enn þvi er ecke til ad segia hia oss/ Einger verkar ad Gude þegar hann kiemur i þetta Heim / sialfur bydur hann oss til sinar Endurnæringar i Skijrnene: þad nimum um alla Men segia/sem Ritningen seger um hina Vantruudu Verolld/ad allt Hollo hafe for-diarfad sijna Vegu/Gen. 6. Reidenar Born fædumst vier/ Eph. 2. Reidenar Born mundum vier uppalast/ og deyia Reidenar Born/nema

 Gud

Gud fyrer JEsu Dauda hefde meire Myskun a oss giørt. Eg heyre ecke i Gudspiallenu / ad þad Foolked sem var samankomed ad heyra þessa Predikun / þad hafe leitad epter þessu Tilbode. Hañ Blessadur var i þessare Rædu ad straffa þær Ogudlegu Borger Corazin / Betzaida og Capernaum / i hveriñ giørd voru flest hñs Krapta verk / og er hañ sm̃ mest angradest af Mañaña Opacklæte / þa spratt upp þsse Lyknarfulla Vatns-Æd af Bruñe Myskunarenar / ꝫ skulum vier ecke meina / ad hañ hafe þad alleina talad til þess Foolksens / er þa nalægt var / helldur og til vor / sem Ord hñs heyrum eñ nu i Dag. Þarmed þier nu sialfer / Bræđur mijner / Ef eiñ Naudstaddur og alls konar Eymdum hladeñ visse sier Næle vyst / og villde þess ecke leita / Jafnvel þoott ecke være honum þ bodeđ / Jafnvel þoott hañ mætte hafa stoora Eptergangsmune þar fyrer / munde hñ et Radlaus hallð, eñ af øllum Møñum ? O hvad tekur oss þa ad tefia a moote vorum Brudguma / er ad Fyrrabragde hefur oss Glapa Møñu og Ovinum sijnu þiña dijru Nerlsu-Giøf framboded / og hielt af oss þessu Oke ? Þu seger kanske i Hiarta þijnu / eg fiñ ecke til þessarar Byrdar / vel fer um̃ mig / og eg keñe mijn einkis Meins / Þetta er allt Ofsiatt / hvad Gud Naade / fyndu Meñ til Meina siña / þa mundu fleire heilbrygder verda. Þu typtar þa O Rotteñ ꝫ þr fiña þar ecke til / sagde Jeremias / Cap. 5. um̃ Foolked i Jerusalem / Sama ma eg segia um̃ þa / sem Guds Heilaga Løgmaals Reidar-Þrumur sia um̃ Eyrun / og þeir fiña þar ecke til / þoott þar flinge eiñ Skruggu-Steiñ af Sinai i hveriu Orde. O þu Vesæll Madur / giæt þo þss / ad betra er eitt nakeđ Sær / ef þad er lifande / helldur eñ lijtel Skeina daud og fueñ / Betre voru allar Raunglælingar Tollheimtumañsins / þegar þær voru jatadar / helldur eñ allt Pharisæarans Rettlæte / sem hñ stærde sig af / Luc. 18. Betre voru Synder hiñar Bersyndugu / sm̃ þvode JEsu Fætur i Tarū sijnum / helldur eñ Vandlæte Simons / er kallade þad Ogiørning / ad snerta hana / Luc. 7. Þu ert þier eingra Stoorglæpa medvitande / muntu þar fyrer vera Saklaus fyrer Gude? Veistu ecke ad Himnañna Himnar eru ecke hreiner i hñs Auglite: Job. 15. Þvi muntu þa vera / sem Dage-

legā

lega syndgar / og viñur ei nema til Negringar ? Veistu ecke ad jafn-
vel hin minsta Synd sleiper Mañenum i eilijfa Glatun / nema Son-
ur Guds hefde bætt fyrer hana ? Ecke einasta hñ / sem giører Stoor-
merkeñ af þvi sem bañad er i Lögmälenu / helldur og sa / sem ei giører
allt þad sm i þvi boded er / hñ er Bølvadur / Gal. 3. Muntu þa ecke
vid Gud sekur vera / þoott ei veger þu Mañ / Edur kreinker Egta-
Kvinnu þijns Naunga / Edur steler med kannung hñs Feñiñ ? Edur
er þad forgiefens / sm hñ hefur sagt / Matth. 5. Hver sm lijtur eina
Konu til ad girnast hana / hañ hefur allareidu drygt Hoor med heñe
i sijnu Hiarta / Og hver sem reidest Broodur sijnū / hañ er Rääds sekur ?
O Gud giæfe / ad Meñ væru svo Kostgiæfner i þvi / ad rañsaka sialfa
sig / svo sem ad hyggia um annars Hattsemе / þad er oss ecke svo for-
ullt ad giøra / jafnvel þoott eckert sie oss þarfara edur Naudsÿnlegra /
til ad nalægiast vora Frelsara med Christelegre Ydran / þad er svo O-
missande / ad ef vier vilium þad ecke giøra / þa giører hañ þad sem ad
Hiørtun og Nijrun rañsakar ; þvi svo seger hñ hiа Zophon. 1. Cap.
Þad skal ske a þm Dege / ad þegar eg rañsaka Jerusalem med Lioose /
ad eg skal straffa þa Meñ / sem eru samangrooner vid sin Saurende /
Ecke þess vegna / ad DRotteñ hafe þorf ad rañsaka vorar Hugreñ-
ingar / aller Hluter eru berer og nakter fyrer hañs Augum / Ebr. 4.
Helldur ad hañ auglijse Fallegre vorrar Blijgdunar / Apoc. 3. nær
vier hana ei sialfer leckia vilium / og kaste vorum eigeñ þreck i vorar
Asionur / svo sem Malachias ad Orde kiemst / Cap. 2. Þegar vier vil-
ium ecke þvo hñ af med Tarū vorrar Ydranar ; Vite þvi aller Meñ /
ad eingeñ er svo Heilagur / ad ef hañ a fram fyrer Gud ad koma / ad
hañ ecke a einhvern Hatt meige lietta af sier Byrde Syndaña / Eñ
hverneñ ma hñ heñe af lietta / hafe hañ alldrei til heñar funded ? Og
svo leinge hñ ecke til heñar fiñur / svo leinge er hañ Gude og hñs Syne
svarlagur / Hañ er komeñ ad kalla Synduga og ecke Rettlata til Yd-
runar / Heiler hafa ecke Læknarans þørf / Matth. 9. Guds Sonur
er i Heimeñ komeñ til ad lækna þad sem sundurmared er / Eñ hverneñ
ma hañ þitt Hiarta lækna / ef þad er heillt / og þu finnur til eingra

Nema ?

Meina ? Eg heyre hier i Gudspiallenu/ ad hañ bÿdur til sijn ALLum ÞEim Sem ERFide DRYga / Og ÞUnga ERu HLADer/ Þad er øllum þm̃/ sem eru sundurkramder af Megne Samvitskuñar/ fyrer þeirra Afbrota Saker/hverier ed Erfida i Kaunum/og væla um̃ Nætur sijna Sæng med David/ hveriñ Guds Hønd er of-þung vordeñ/ z þar er eingeñ Mattur i þm̃ fyrer hñs Ognan/Ps. 38. z lángar svo epter DRottne a þurrlendenu/ Ps. 63. Þessu̅ bÿdur JEsus til siñ at Endurnæringar/ eñ ecke þm̃ sm̃ hroosa sier af þvi / ad þr sieu ecke eins og Adrer Meñ/ Luc. 18. Ei helldur hinum hverier þoott ad þr sieu hinum versstu og fulustu Klækium og Skømu̅ hladner/ þa fiña þr ecke meira þar til eñ Kletturen / Þo Meñ legge hellañ Skips Farm edur alldrei svo mikeñ Þunga ofañ a hñ/svo Matkugr er Diøfulleñ i þra Vantru/Eph. 2. Þar fyrer/syndugur Madur/ vilier þu niota þssa Tilbods / z allra hellst i heilagre Drottenns Kvølldmaltijd(hvar Endurnæringen er an Malingar frambodeñ øllu̅ þreittu̅ og øllum Sorgbitnum) Vilier þu þessa Not hafa/seg eg/ þa Kvel Hiarta þitt med Jhugan þiña Vondu Verka / og Guds heilaga Logmals : Allt sei eru þau svo fá/ ad ecke meige þau ofbioda þier/nær þu hugleider þiñ Overdugleik og hañs Riettlæte. Tem þier slÿkt Hugarfar/og slÿkt Hiarta þijnu med svoddañ Þaunkum Daglega / þa muntu brædlega erfida þig moodañ/ og svo mikeñ Þunga fiña/ ad þu munt valla fa under rised/ þa ertu z fyrst hæfur til ad taka a moote þssu Bode/ þvi Gialld-Peningureñ verdur ecke gefeñ þeim/ sem Jllt adhafast/ ei helldur þm̃ / sm̃ eckert viña / helldur þeim/sem bera Hita og Þunga Dagsens / Matth. 20. Þoott sumer bere hañ skemur eñ sumer / og þott i þm̃ Stad tale Frelsaren um̃ hid Eilijfa og Oforþienta Verdkaup a Himnum / þa er þo su Endurnæring/ sem eitt Ydrande Guds Barn sthur i Vitnisburde H. Anda þar um̃/ad þad sie Guds Barn / hun er/ sege eg/Pantur þeirrar eilÿfu Endurnæringar/ sm̃ Johañes um̃talar i hañs Opeñberana Cap. 14. Þar hñ prÿsar Sælu þeirra / sem i Drottne dauder eru/ þvi þr hvÿlast edur endurnærast af Erfide sijnu/ Ja/ef þier svo giøred/ Børn mijn/ þa mun ydur brædlega lán-

ga epter Gude/ svo sem Hiorteñ epter ferſku Vatne/ Pſ. 42. David langade eitt ſiñ i Brunneñ i Betlehem/ eñ þegar þr færdu hõnũ Vatn ed/ þa villde hañ et drecka / helldur uthellte þvi fyrer DRottne/ 1. Paral. 12. Eñ þegar þier uthelled ydar Tárũ fyrer Gude/ ſiñ þeck ing Syndaña hefur kreiſt ut af ydar Augum / þa mun hañ Endur-næra ydur med þeim Himneſku Vatns Straumum / ſem fram̃ flioota af Stole Guds og Lambſins/ Apoc. 22. Hver ſm̃ þar af dreckur / hañ ſkal ecke ſmacka Daudañ ad eilijfu. Komum þvi til þeſſara Vatna/gegnum þeſſu Tilbode / Komum og kaupum fyrer alls eckert/ bæde Vijn og Miolk / Eſa. 55. Og þoott ad Angiſt Syndaña kune ad þrijſta ſvo miog ad Hiarta Syndarans/ nær hñ ſtendur under Ranſake Samvitſkuñar / ad hañ telie ſig Overdugañ Guds Nadar / þa giør et þijnum Frelſara þañ Orett/ ad þu efer um̃ hñs Guddoomlega Myſkun/ ſem er eins ſtoor og hañ er ſialfur/ hveiſu ſem þu ert hinum verſtu Syndũ hladeñ/ ef þu ydraſt af Hiarta/ og lætur of þeim/ hver ſem þad ekar/ þad er eins og hañ villde ſetia Chriſt af Tign ſiñe/ þvi hañ et þeſſ vegna Konungur vor Syndaraña/ ad hañ hefur ſigrad vora Ovine/ eñ keypt oſſ Gude til Handa med ſijnũ Dauda. Seg mier/ hvad ſkal ſeg hafa til ad bera/ ſem einum ſkal Myſkuna/ nema Mætteñ og Viliañ ; Eñ um̃ hvertveggia þetta tekur DRotteñ allañ Eſa fra Syndaranum i þeſſu heilaga Gudſpialle. Fyrſt ſeger hañ: Aller Hluter eru mier Ofurgefner af mijnum Fødur. þetta talar Chriſtur epter Mañdoomenum / þvi epter Guddoomenum er hñ Sialfrade allra Hluta/ Fra Eilijfd til Eilijfdar/ med Fødur og Heiløgum Anda: Eñ fyrſt hõnum er allt Vald gefed/ bade a Himne og Jordu/ af hõnũ ſem þad alleina hefur / og ſem alleina kañ ad fyrergiefa Syndernar/ þvi ſkyllde hñ þa ecke kuña ad tilgefa þier þijnar Synder/ hverſu ſem þær liootar eru og Andſtyggelegar/ nær þu hatar þær/ og villt af þeim laata? Hañ ſagde fordum þegar Judar hneixluduſt a þvi/ ad hañ ſagde vid hiñ Nalfviſna/ Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar/ hvert er lettara ad ſegia/ þier eru þijnar Synder fyrergefnar/ edur ad ſegia Statt upp og Gack? Matth. 9. Miñ HErra JEſu/ meira koſtade

